# Formáli.

Fyrirætlan manna, þá er ráðið var, að koma bæklingi þessum á prent, var einkum sú, að lètta undir með unglingspiltum, er byrja latneskt bóknám, og hafa varla annað prentað til stuðnings, en danskar bækur; þykir auðvitað, að hægra sè að nema, hvað er vera skal, á tungu sjálfs síns, en á annarlega tungu, er menn annaðhvort skilja lítið í, eða alls ekki til fullnustu.

Um málfræði *(philologia)* var lengi fram eftir mjög lítið hjá Rómverjum. Helztu orðmyndafræðingar þeirra, er vèr höfum rit eftir, eru: Dónatus, Karisíus, Díómedes og Priscían. Dónatus var uppi um miðbik fjórðu aldar eftir Kristsburð (350); þeir Karisíus og Díómedes voru uppi um mót fjórðu og fimtu aldar, Priscían um mót fimtu og sèttu aldar.

Frá því um miðbik hins fyrsta aldatugar eftir Kristsburð lágu latnesk fræði, eins og margt annað, vel lengi að mestu í eins konar dauðadái og vanhirðu; síðan tóku menn aftur að gefa betur og betur gætur að hinum miklu fjársjóðum, er felast í fornum rítum Grikkja og Rómverja; var þá tekið að semja ýmsar styrktarbækur við nám tveggja hinna fornu höfuðtungna, grísku og latínu, og voru kenslubækur þeirra Dónats og Priscíans einkum hafðar til stuðnings lengi framan af við latneska tungu.

Alexander af Guðsgardi *(de Villa dei)* í Norðmandí, er dó ár. 1240, samdi latneska málfræði *(doctrinale)* í ljóðum, og var sú bók um hríð eins konar höfuðbók í sinni fræðigrein; síðan tóku slíkar bækur að fjölgast, einkum eftir það er prentlist fanst (á fyrra hlut fimtándu aldar), og siðabótin hófst (öndverðlega á sextándu öld). Einn af þeim mönnum, er nú varð til að semja latneska málfræði, var hinn nafnkendi Melankton. Á hinum síðari árunum hafa málfræðibækur (grammatíkur) þeirra Bröders og Zúmpts, og nú síðast hins alkunna mikla málfræðings, Madvigs, helzt verið hafðar í Danmörku, hèr á landi helzt málfræðibækur þeirra Bröders og Madvigs.

Fyrst eftir það er kristni var lögtekin á Íslandi (ár. 1000), námu Íslendingar latneska tungu annaðhvort í öðrum löndum, eða hèr á landi. Ísleifur Gizurarson, fyrsti byskup í Skálaholti (frá ár. 1056 til árs. 1080), var lærður í Herfurðu á Saxlandi (þ. e. *Hervorden í Westphalen*, eigi *Erfurt* í *Saxen;* Kristnisaga, 12. kap.: Bisk. I 27.; Hungrvaka, 2. kap.: Bisk. I 60—61). Ísleifur lærði marga ágæta menn; meðal þeirra var Jón Ögmundarson, fyrsti byskup að Hólum (frá ár. 1106 til árs. 1121). Fór mentun þá svo óðum fram á Íslandi, að á dögum Gizurar byskups Ísleifssonar (frá 1082 til 1118) voru flestir virðingamenn lærðir og vígðir til presta (Kristnis. 13. kap.: Bisk. I 29). Teitur Ísleifsson, bróðir Gizurar byskups, lærði marga kennimenn, og urðu tveir af lærisveinum hans byskupar, Þorlákur byskup hinn fyrri, og Björn byskup Gilsson (Jóns saga hin elzta, 3. kap.: Bisk. I 153). Jón byskup Ögmundarson setti skóla að Hólum, og lèt smíða hús til skólahalds, og hafði þar til meistara af Gautlandi, er hèt Gísl eða Gísli; hann var Finnason (Jónssaga hin elzta, 11. kap.: Bisk. I 163. bls.).

Margir lærðu og hjá prestum, og í klaustrum, þá er þau komust á föt; vera má og, að sumir hafi framan af lært latínu hjá latínulærðum útlendingum, er hingað komu til landsins, t. d. hjá Bjarnharði Vilráðssyni hinum bókvísa.

Hvernig gengið hefir að lokum um skóla þann, er Jón byskup Ögmundarson setti að Hólum, er lítt kunnugt, en þá er hin elzta saga hans var rituð, stóð sá skóli eigi lengur, en merki hans sáust (Jóns s. hin elzta, 11. kap.: Bisk. I 163); þó var skóli haldinn að Hólum á dögum þeirra byskupa, Jörundar Þorsteinssonar, Auðunar rauða og Lárentíuss (frá ár. 1267 til árs. 1330).

Þegar eftir miðju sextándu aldar er þess getið, að tveir latínuskólar voru settir á Íslandi, að Hólum ár. 1552 (Bjarnar Ann. við ár. 1552); en í Skálaholti ár. 1553 (Kirkjus. Finns, III 170—171).

Hverjar bækur hafi verið hafðar framan af við kenslu hjá oss, vita menn nú ógjörla; árið 1609 var prentaður *Donatus* að Hólum, og *Grammatica latina* (Hálfd. Einarss., *sciagraph.* pag. 33); Finnur byskup segir (í Kirkjusögu sinni III 380), að þessar sömu bækur hafi verið prentaðar að Hólum ár. 1616; og *Giessing* (Jubellærere, I 172) segir, að þá hafi og verið prentað á Hólum *Vo-*

*cabularium Islandicum;* sbr. Brèf Þorláks byskups Skúlasonar til Óla Worms, 29. d. ágm. 1643 (*Wormii Epistolae* I 109): *mitto autem vocabularium, typis nostris impressum.*

Árið 1695 lèt Þórður byskup Þorláksson prenta í Skálaholti: *Praecepta grammatica et syntactica, ex opusculis Philippi Melanchthonis et Spangenbergii collecta* (Hálfd. Einarss. 33. bls.), og þykir líklegt, að þetta hafi verið það sama, sem það, er Guðbrandur byskup hafði áður látið prenta, því að Þórður byskup segir í formálanum: *Non visum nobis fuit recedere a compendio illo veteri, Holis olim impresso, nam aliquid hic immutare (si errores typographicos excipias) supra soccum meum esse putavi* (sama rit, 37. bls).

Á fyrra hlut átjándu aldar lèt hinn mikli framkvæmdarmaður, Jón Árnason, byskup í Skálaholti (frá ár. 1722 til árs. 1743), prenta fjóra bæklinga á latínu og íslenzku, a, *Donatus, hoc est: Paradigmata partium orationis Latino-Islandica,* et quae sequuntur, *Hafniae* 1733. 160 bls. 12; — b, *Epitome Grammaticae Latinae,* et quae sequuntur, *Havniae* 1734. 159 bls. 12; — c, *Lexidion Latino-Islandicum grammaticale,* Það er Glosna Kver a Latínu og Jslendsku, et quae sequuntur, *Havniae* 1734. 160 bls. 12. — d, *Nucleus latinitatis,* et quae sequuntur, *Hafniae* 1738. 2092 dálkar, 12.

Síðan er þessar bækur hafa gjörzt fágætar, eða eigi þótt fullnægja þörfum manna, hafa menn hjálpazt á ýmsan hátt, t. d. við danskar bækur, eða ritaðar bækur á íslenzka tungu, t. d. orðasöfn (nómenklatúrur), og nú á hinum síðari tímum málfræðibækur hinna miklu ágætismanna, prófasts Guttorms Pálssonar († 1860), byskups Árna Helgasonar, og prófasts Sveins Níelssonar.

Bæklingur sá, er hèr birtist, er að eins orðmyndafræði (eigi orðskipunarfræði, *syntaxis).* Ef betur þykir en eigi, að bæklingur þessi kemst á prent, er það einkum að þakka góðum tillögum skólastjóra þess, er nú er, herra Bjarna Jónssonar; góðum undirtektum stjórnarinnar ytra, og góðu fylgi stiftsyfirvalda þeirra, er nú eru, stiftamtmanns herra Hilmars Finsens, og byskups herra Pèturs Pèturssonar.

Fyrir nokkrum árum var stjórnin eigi ófús á, að styðja að út-

komu kenslubóka á íslenzku, en stiftsyfirvöldin, er þá voru, rèðu frá því; þóttust þau hafa tekið eftir því, að nám danskrar tungu, er oss væri svo mikils varðanda, hefði að undanförnu stórum eflzt við það, að kenslubækur væri danskar, og þótti gott að halda þeim sið, og ísjávert frá að hverfa. Svo má margt hafa að ástæðum, þá er þörf gjörist.

Vèr dyljumst þess eigi, að ýmsir muni þykja ágallar á bæklingi þessum; það er t. d. eitt, að mörgum mun svo þykja, sem vèr hafim farið of langt í viðleitni vorri, að íslenzka sem flest af algengum útlendum orðum og orðtökum; en oss þótti óviðkunnanlegt, að hafa þessa eilífu útenzku innan um hitt, er átti að vera innlenzkt; svo er og auðsætt, að unglingum er hægra að skilja og muna orð og orðtök, ef þau eru höfð á máli sjálfra þeirra, heldur en ef þau eru á annarlegu máli. Af annari hálfu vitum vèr vel, að hin algengu orðtök eru miklu tamari og oft handhægri, og er auðvitað, að við kenslu hefir hver þau orðtök, er honum þykir bezt henta.

Til þess að fella betur saman hin innlendu og útlendu orðtök, höfum vèr, að nokkuru eftir ráðum og tillögum hinna háu stiftsyfirvalda, víða, einkum í fyrra hlut kversins, haft hin útlendu latínsku orðtök á eftir hinum íslenzku í svigagreinum; að hafa útlenzku orðin fyrr, og hin innlenzku síðar, þótti oss ómynd.

Það er alkunnugt, að menn, er rita á einhverja tungu um eitthvað það, er áður hefir verið lítið um ritað á þá tungu, eiga oft erfitt með orðaval; þykja sumir þá fara of langt í austur, aðrir of langt í vestur. Til dæmis um mann, er fundið hefir til torveldi þessarar, en gjört sèr þó sjálfum glögt, hve hann skyldi rita, nefnum vèr hinn góðfræga lögmann Svein Sölvason, og tökum hèr niðurlag af formálanum fyrir riti hans: *Tyro Juris* eður Barn í Lögum:

„Þar næst medkenne eg vel, ad hier finnast ogiarnan gømul Gullaldar Ord, sem nu eru komen ur Mod, og ad eg þarimot hefe stundum hialpast vid þau Ord, sem dregenn edur samsett eru af Dønskunni, hvad eg helld eingen Spiøll, þar vor Løg nu á tidum eru mestann part fra Dønskum komen, og án

hennar kunna menn ecke ad vera i Rettargángenum; og so sem vor Efne i flestum Søkum dependera af þeim Dønsku: þvi má þá ecke einnen vort Tungumál vera sømu Forløgum underorped? enn øll soddan Ord eru þo miked skylianleg, og tidkanleg orden á vorum Døgum; fyrer utan hvad faeiner Menn hanga so faster vid sitt Antiqvitet, og geta varla skrifad eitt Sendebref, ad menn skylldu ei helldur þeinkia þad være Styll Ara Prests Froda edur Snorra Sturlusonar, en þeirra manna er lifa á átiandu Olld; hverier ef vilia atelia minar Bevisingar, Betalinga og adra Barbarismos in Lingva patria, er þeir munu so kalla; þá er eg vel tilfrids ad taka upp Gagnsøk imote þeim fyrer þeirra Archaismos, og seigi so fellda søk mina fram i Fimtarstefnu Dom, med þeßum qviþ burþi Qvintiliani: Abolita et abrogata retinere insolentiæ cujusdam est, et frivolæ in parvis jactantiæ“. Er þetta eigi *insolentia* og *frivola jactantia?*

Um nýgjörvingar þær, er í bók þessari eru, segjum vèr það, er segja má um margt slíkt, að ef þær eru óeðlilegar, og menn þýðast þær eigi, þá hverfa þær aftur og týnast, en ef þær þykja nokkurn veginn eðlilegar, og menn annaðhvort halda þeim óbreyttum, eða bœta þær, þá verða þær einhvern tíma gamlar; alt það, er nú er gamalt, hefir einhvern tíma nýtt verið.

Í skýringu upprunalegs eðlis sumra orða höfum vèr farið nokkuru lengra í bœklingi þessum, en vant er að gjöra í stuttum kenslubókum; en það er al-kunnugt, að uppruni orða hjálpar oft mikið til að komast fyrir eiginlegar merkingar þeirra og skýra þær.

Vèr vitum, að sumt er hèr óglögt, einkum þeim, er eigi kunna, en hjá því verður eigi vel komizt í bókum, er eiga að vera stuttar; nefnum vèr til dœmis um þetta kafla um fornöfnin á 57. bls., og ýmislegt í samtengingunum á 143. og 144. bls.; en ef slíkir kaflar ætti að vera skýrir, þyrfti töluvert af dœmum, en því verður eigi komið við í slíkri bók, sem þessi er; hèr er þá, eins og oftar, mikið komið undir greind góðgjarns kennara.

Ein af nýjungum bókar þessarar er sú, að vèr höfum tekið inn í sagnorðabeygingar: þáliðna skildagatíð (*plusquamperfectum condicionale); samanber curvatūrum fuisse,* mundu hafa beygt, á 70. blaðsíðu; oss finst þessi mynd eins nauðsynleg í beygingu, eins og sumar aðrar, er hafðar eru.

Þau orð, er venjulega eru kölluð ópersónuleg eða persónulaus (*impersonalia),* höfum vèr kallað einpersónuleg, líkt og Frakkar kalla þau *unipersonels;* sitt er að hvoru orðinu, en oss þótti hið frakkneska nærr rèttu eðli, en hið latínska, og fórum því heldur eftir því.

Tilvitnanir til fornra rithöfunda höfum vèr haft á stökum stöðum, einkum þar, er oss þótti þörf að taka eitthvað skýrara eða rèttara fram, en oss virtist gjört vera í eldri bókum.

Hinn virðulegi forstöðumaður prentsmiðjunnar, herra Einar Þórðarson, hefir haft töluverðan auka-ómaka við útgjörð bókar þessarar sakir ýmislegs skipulags á setningu hennar, og ýmisrar leturbreytingar, er höfð er á henni; en hann hefir hèr, sem jafnan, lagt allan hug á, að þetta yrði svo vel af hendi leyst, sem föng voru á. Af atburð vildi svo til, að smátt latínuletur með lengdarmerkjum fèkst eigi í tíma, og varð því að hafa gotneska leturtegund fyrir það; sbr. Āpio og apěre á 101. bls. Þessa leturtegund höfum vèr við haft, til þess að merkja með henni þau orð eða þær orðmyndir, er annaðhvort eru mjög fágætar (hjá góðum rithöfundum), eða oss þóttu á einhvern hátt varhugaverðar.

Að endingu óskum vèr þess, að bæklingur þessi geti orðið lítill stuðningur við nám þeirrar hinnar ágætu forntungu, er að mörgu má heita höfuðmóðir alls fróðleiks allrar Norðurálfu.

Reykjavík, 24. dag ágústmánaðar 1868.

*Höfundarnir.*

---

# I. Fyrsti kafli.

**Um bókstafi, samstöfuskifti, samstöfumál (quantitas syllabarum), og áherzlu (accentus).**

1. grein. Bókstafir latínskrar tungu eru tuttugu og fimm, og eru þeir þessir: *a, b, c, d, e, f, g, h, i, j, k, l, m, n, o, p, q, r, s, t, u, v, x, y, z.*

2. gr. Stórir stafir *A, B,* og svo framvegis, eru hafðir í upphafi máls, og upphafi eigin-nafna (*nomina propria*), svo og í upphafi þeirra orða, er af eiginnöfnum eru leidd.

3. gr. Bókstafirnir *a, e, i, o, u, y* eru raddarstafir *(literae vocales)*; hinir nítján eru samhljóðendur *(literae consonantes)*.

4. gr. Tíðkanlegustu tvíhljóðar (*diphthongi*) latínskrar tungu eru *ae* (eða *æ*), *au*, og *oe* (eða *œ*); tvíhljóðarnir *ei, eu, ui* eru að eins hafðir í fáum orðum.

5. gr. Samhljóðendurnir *p, b, f, v; t, d; k, c, q, g, h, j* eru kallaðir dumbstafir (*literae mutae*); *l, m, n, r* eru nefndir linstafir (*literae liquidae*); *s* er nefndur blísturstafur (*litera sibilans*). Bókstafurinn *x* er í al-latínskum orðum oftast samsettur af *c* og *s*, eða *g* og *s*; sjaldnar af *v* og *s*, eða *h* og *s*.

6. gr. Dumbstafirnir *p, b, f, v* eru varastafir (*literae labiales*); *t, d* tannstafir (*literae dentales*); *k, c, q, g, h, j* gómstafir (*literae palatinae*).

7. gr. Flestir bókstafir latínskrar tungu eru bornir fram á sama hátt, sem í voru máli; þó eru eigi fáar undantekningar frá þessu, og getum vèr hèr nokkurra hinna helztu þeirra.

8. gr. Tvíhljóðurinn *ae* er borinn fram sem e í íslenzku; *au* sem á, og *oe* sem ö.

9. gr. Stundum er *ae* og *oe* borið fram í tveim samstöfum, og eru þá oft hafðir tveir deplar yfir *e*, t. a. m. í *aër*, loft, og *poëta*, skáld.

10. gr. Að *ph* er kveðið sem f, til að mynda í *philosophus*, heimspekingur; *th* er venjulega borið fram sem t, *ch* sem k.

11. gr. *ti* er borið fram sem *tsi*, ef það stendur í allatínskum orðum milli tveggja raddarstafa (*oratio*, frb. *oratsio*), eða milli

linstafs og raddarstafs (*altior*, hærri), eða og milli dumbstafanna *p* og *c* fyrir, og raddarstafs eftir (*emptio*, kaup; *lectio*, lestur).

12. gr. *c* er alls staðar borið fram sem k, nema á undan raddarstöfunum *e*, *i*, *y*, *ae* og *oe*, þar er það fram borið sem *s*.

13. gr. *b* verður oft að *p* fyrir framan *t* eða *s* (*scribo*, eg rita; *scriptus*, ritaður; *scripsi*, eg hefi ritað).

14. gr. *g* og *h* (og *v*) verður að *c* á undan *t* (*sugo*, eg sýg; *suctus*, soginn; *traho*, eg dreg; *tractus*, dreginn; *vivo*, eg lifi; *victus*, viðurværi).

15. gr. *m* breytist í *n*, ef *d* eða *c* fer eftir (*eundem*, hinn sama, fyrir *eumdem*; *tunc*, þá, fyrir *tumc*).

16. gr. *n* verður að *m* fyrir framan *p* og *b* (*impono*, eg legg á, fyrir *inpono*; *imberbis*, skegglaus, af *in* og *barba*).

17. gr. Helztu til-líkingar í latínskri tungu eru, að *n* tillíkist eftirfarandi *l*, *m*, *r*; og *b*, *t* og *d* stundum eftirfarandi *s* (*colligo*, eg safna, fyrir *conligo*; *jussi*, eg hefi boðið, fyrir *jubsi*).

18. gr. Stundum fellur samhljóðandi aftan af orði (*cor*, hjarta, fyrir *cord.*; *sermo*, tal, fyrir *sermon*).

19. gr. Stundum hverfur samhljóðandi fyrir framan annan samhljóðanda inni í orði, einkum *t* og *d* fyrir framan *s* (*divido*, eg skifti; *divisi*, eg hefi skift, fyrir *dividsi*).

20. gr. Orðum er svo skift í samstöfur, að ef einn samhljóðandi stendur milli tveggja raddarhljóða, þá fylgir hann hinni síðari samstöfu (*la-na*, *ull*; eigi *lan-a*); en ef tveir eða fleiri samhljóðendur standa milli tveggja raddarhljóða, þá fylgja svo margir þeirra hinni síðari samstöfu, sem geta byrjað eitthvert orð í latínumáli; hinir samhljóðendurnir eru þar í mót látnir fylgja fyrri samstöfunni (*an-ser*, gæs; *ic-tus*, högg; *pa-tres*, feður; *scep-trum*, veldissproti).

β, Ef orð eru samsett með forsetningum (*praepositiones*), fylgir endasamhljóðandi eða endasamhljóðendur forsetningarinnar hinni fyrri samstöfu (*ab-eo*, eg fer burt; *abs-traho*, eg dreg frá).

21. gr. Samstöfur latínskrar tungu eru ýmist skammar eða langar, en að eins nokkrar bæði skammar og langar; þannig er t. a. m. *mĕl* (hunang) skömm samstafa, en *sōl* (sól) löng samstafa.

22. gr. Raddarstafur á undan raddarstaf, eða á undan *h* og raddarstaf, er venjulega skammur (*mĕus*, minn; *trăho*, eg dreg).

23. gr. Tvíhljóðar eru venjulega langir (*auris*, eyra; *aenigma*, gáta). Sömuleiðis eru þeir raddarstafir langir, er til eru orðnir

við samdrátt tveggja raddarstafa (*cōgo,* eg rek saman, dregið saman af *cŏĭgo* eða *cŏăgo*).

24. gr. Ef raddarstafur fer næst á undan dumbstaf og *l* eða *r,* er samstafan venjulega ýmist skömm, eða löng, sökum stöðu sinnar (*positio debilis*): *pŏples,* hnès-bót; *tenĕbrae,* myrkur.

25. gr. Ef raddarstafur fer næst á undan einhverjum öðrum tveimur (eða þremur) samhljóðöndum, en nú voru nefndir, er samstafan jafnan löng sökum stöðu sinnar (*positio*): *vēnter*, kviður; *īpse*, sjálfur; *rēx* (= *regs*), konungur.

26. gr. Eins atkvæðis orð í latínskri tungu hafa áherzlu (*accentus*): *cos*, brýni; *tres,* þrír; þó eru undan skildar einkvæðar forsetningar (*praepositiones monosyllabae*), þá er þær standa á undan öðru orði, er þær stýra, því að þá flyzt áherzla þeirra aftr á þetta orð; t. a. m. í *in urbe* (í borginni) er *in* áherzlulaust.

27. gr. Í tveggja atkvæða orðum (eða tvíkvæðum orðum; *disyllabis*) liggur áherzlan ávalt á hinni fyrri samstöfu, hvort sem hún er skömm eða löng (*ắvus,* afi; *pū́rus,* hreinn).

28. gr. Í þeim orðum, sem eru þrjár samstöfur eða fleiri, liggur áherzlan á annari samstöfu að aftan (*paenultima*), ef sú samstafa er löng, en ef hún er skömm, þá á hinni þriðju samstöfu frá endanum (*antepaenultima*); t. a. m. í orðunum: *Romā́nus* (rómverskur), *nominā́re* (að nefna), *pútĕus* (brunnur), *prehéndĕre* (að grípa), liggur áherzlan á samstöfunum *ma, na, pu, hen.*

## II, Annar kafli.

### Partar ræðunnar (partes orationis).

29. gr. Ræðupartar latínskrar tungu eru átta: 1, nafnorð (*substantiva);* — 2, lýsingarorð (*adjectiva);* — 3, fornöfn (*pronomina);* — 4, sagnorð (*verba);* — 5, atviksorð (*adverbia);* — 6, forsetningar (*praepositiones);* — 7, samtengingar (*conjunctiones);* — 8, meðalorpningar (*interjectiones*). — Dœmi: *a, pater,* faðir; *domus,* hús; *actio*, athöfn; *ira,* reiði. — *b, bonus,* góður; *levis*, lèttur. — *c, ego*, eg; *tu,* þú; *hic,* þessi. — *d, portāre*, að flytja; *audīre,* að heyra. — *e, bene,* vel; *leviter,* lèttlega. — *f, apud,* hjá; *sub,* undir. — *g, et*, og; *sed,* en; *aut,* eða. — *h, heu,* æ.

30. gr. Nafnorð eru annaðhvort sameignarnöfn (*nomina communia, nomina appellativa*), eða eigin-nöfn (*nomina propria);* t. a. m. *pater, domus,* eru sameignarnöfn; en *Paulus,* Páll, *Roma,* Róm, eru eiginnöfn.

31. gr. Af þeim átta ræðupörtum, er nú voru nefndir, eru fjórir hinir fyrri hneigjanlegir (*declinabiles, flexibiles*); atviksorð hneigjast eigi, en mörg þeirra hafa stigbreyting (*comparatio*); forsetningar, samtengingar og meðalorpningar eru óbreytilegar.

## III, Þriðji kafli.

Um kynferði (genus), tölur (numeri) og föll (casūs).

32. gr. Kynferði (*genera*) latínskra nafnorða eru þrjú, karlkyn (*genus masculinum*), kvennkyn (*genus femininum*), og hvorugkyn (*genus neutrum*). Sum orð eru að eins karlkyns (*masculina*), sum að eins kvennkyns (*feminina*), sum hvorugkyns (*neutra*), nokkur bæði karlkyns og kvennkyns (samkynja, *communia*); fáein karlkyns, kvennkyns og hvorugkyns (alkynja, *omnis generis*).

33. gr. Tölur nafnorða eru tvær, eintala (*numerus singularis*), og fleirtala (*numerus pluralis*), t. a. m. eintala, *ventus*, vindur, fleirtala, *venti*, vindar.

34. gr. Föll (*casūs*) eru sex: 1, nefnifall (gjörandi, *casus nominativus*); — 2, ávarpsfall (kallandi, *cas. vocativus*); — 3, þolfall (þolandi, *c. accusativus*); — 4, eignarfall (eigandi, *c. genitivus*); — 5, þágufall (þiggjandi, *c. dativus*); — 6, staðarfall, (firringarfall, *c. ablativus*).

35. gr. Í latínu er engi greinir (*articulus*) hafður.

## IV, Fjórði kafli.

Fallbreytingar nafnorða (declinationes).

36. gr. Fallbreytingar nafnorða eru fimm.

*A*, Fyrsta fallbreyting (*declinatio*).

37. gr. Nafnorð þau, er ganga eftir þessari fallbreytingu, endast í allatínskum orðum á *a*, og breytast (*declinantur*) þannig.

Eintala (*singularis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnifall og ávarpsfall (*nominativus* og *vocativus*), | *formă*, | mynd, | myndin. |
| Þolfall (*accusativus*), | *formăm*, | mynd, | myndina. |
| Eignarfall (*genitivus*), | *formae*, | myndar, | myndarinnar. |
| Þágufall (*dativus*), | *formae*, | mynd, | myndinni. |
| Staðarfall (*ablativus*), | *formā*, | mynd, | myndinni. |

Fleirtala (*pluralis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *formae*, | myndir, | myndirnar. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þolfall (*accusativus*), | *formās*, | myndir, | myndirnar. |
| Eignarfall (*genitivus*), | *formārum*, | mynda, | myndanna. |
| Staðarf. og þáguf. (*dat.* og *ablat.*), | *formīs*, | myndum, | myndunum. |

38. gr. Orðið *familia*, heimilisfólk, hefir bæði *as* og *ae* í eignarfalli eintölunnar (*nominativus singularis*), þá er það stendur með orðunum *pater*, *mater*, *filius* og *filia*; þannig segja latínumenn *pater familias* og *pater familiae*, húsbóndi, í fleirtölu *patres familias*, *patres familiae* og *patres familiarum*.

39. gr. Orðið *dea*, gyðja, og nokkur önnur kvennkend orð, er endast á *a*, og eru samstofna við karlkend orð, er endast á *us*, hafa bæði *ābus* og *is* í þágufalli og staðarfalli fleirtölunnar (*dativus* og *ablativus pluralis*), og er endingin *abus* einkum þá höfð, er þörf þykir að greina kvennkyn frá karlkyni. Slík orð eru, auk orðsins *dea*, einkum þessi: *filia*, dóttir; *liberta*, leysingja, *mula*, múlasna; *equa*, hryssa; t. a. m. *dis deabusque*, guðum og gyðjum (*Cicero*); en *major ex duabus filiis, Cleopatra*, Kleópatra, hin eldri af þeim tveim dœtrum (*Caesar*).

40. gr. Eftir þessari fallbreytingu (*declinatio*) hneigjast og nokkur grískukend orð, er endast á *e*, *as* og *es*; eintala þeirra er nokkuð frábrugðin fallbreytingunni á *forma*, en fleirtalan er regluleg. Eintalan hneigist svo.

Eintala (*singularis*).

a, *epitŏmē*, ágrip.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *epitŏmē*, | ágrip, | ágripið. |
| Þolf. (*accusativ.*), | *epitomēn*, | ágrip, | ágripið. |
| Eignarf. (*genitiv.*), | *epitomēs*, | ágrips, | ágripsins. |
| Þáguf. (*dativ.*), | *epitomae*, | ágripi, | ágripinu. |
| Staðarf. (*ablativ.*), | *epitomē*, | ágripi, | ágripinu. |

b, *xiphias*, sverðfiskur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nominativ.*), | *xiphiās*, | sverðfiskur, | sverðfiskurinn. |
| Ávarpsf. (*vocativ.*), | *xiphiā*, | sverðfiskur, | sverðfiskurinn. |
| Þolf. (*accusativ.*), | *xiphiam*, | sverðfisk, | sverðfiskinn. |
| Eignarf. (*genitiv.*), | *xiphiae*, | sverðfisks, | sverðfisksins. |
| Þáguf. (*dativ.*), | *xiphiae*, | sverðfiski, | sverðfiskinum. |
| Staðarf. (*ablativ.*), | *xiphiā*, | sverðfiski, | sverðfiskinum. |

c, *pyrites*, eld-steinn.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nominativ.*), | *pyrītēs*, | eldsteinn, | eldsteinninn. |
| Ávarpsf. (*vocativ.*), | *pyrītă*, | eldsteinn, | eldsteinninn. |
| Þolf. (*accusativ.*), | *pyrītēn*, | eldstein, | eldsteininn. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eignarf. (*genitiv.*), | *pyrītae,* | eldsteins, | eldsteinsins. |
| Þáguf. (*dativ.*), | *pyrītae,* | eldsteini, | eldsteininum. |
| Staðarf. (*ablativ.*), | *pyrītē,* | eldsteini, | eldsteininum. |

41. gr. Þau orð, er endast á *as,* hafa sum bæði *am* og *an* í þolf. eintöl. (*accus. singular.*), en sum eingöngu *an.*

42. gr. Þau orð, er endast á *es,* hafa og sum langt *e* (ē), fáein langt *a* (ā) í ávarpsf. eint. (*vocat. singular.*). Þau hafa og stundum langt *a* (ā) í staðarf. eintöl. (*ablat. singular.*).

43. gr. Þau orð, er endast á *a,* eru flest kvennkyns; karlkyns eru þau, er höfð eru um karlmenn, og allur þorri fljótanafna, svo og fjallanöfn. Svo eru t. a. m. karlkyns: *nauta,* sjómaður; *scriba,* ritari; *Cotta,* Kotta (mannsnafn); *Sequana,* Signa (fljótsnafn); *Jura,* Júra (fjallsheiti). Af fljótaheitum eru nokkur kvennkyns, t. a. m. *Albula* og *Allia.*

44. gr. Þau orð, er endast á *e,* eru kvennkyns, en þau, er endast á *as* og *es,* eru karlkyns; fleirtöluorðið *etesiae,* staðvindar (af *etesias*) er og karlkyns.

## *B,* Önnur fallbreyting (*declinatio*).

45. gr. Þau nafnorð, er ganga eftir þessari fallbreytingu, endast í allatínskum orðum á *us, er* og *um,* og hneigjast svo.

a, *ventus,* vindur.

Eintala (*singularis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nomin.*), | *ventŭs,* | vindur, | vindurinn. |
| Ávarpsf. (*voc.*), | *ventĕ,* | vindur, | vindurinn. |
| Þolf. (*accus.*), | *ventŭm,* | vind, | vindinn. |
| Eignarf. (*genit.*), | *ventī,* | vinds, | vindsins. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *ablat.*), | *ventō,* | vindi, | vindinum. |

Fleirtala (*pluralis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *ventī,* | vindar, | vindarnir. |
| Þolf. (*accus.*), | *ventōs,* | vinda, | vindana. |
| Eignarf. (*gen.*), | *ventōrum,* | vinda, | vindanna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *ventīs,* | vindum, | vindunum. |

b, *puer,* sveinn.

Eintala (*singular.*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *puĕr,* | sveinn, | sveinninn. |
| Þolf. (*acc.*), | *puĕrŭm,* | svein, | sveininn. |
| Eignarf. (*gen.*), | *puĕrī,* | sveins, | sveinsins. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *puĕrō,* | sveini, | sveininum. |

Fleirtala (*plural.*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf., | *puĕrī,* | sveinar, | sveinarnir. |
| Þolf., | *puĕrōs,* | sveina, | sveinana. |
| Eignarf., | *puĕrōrum,* | sveina, | sveinanna. |
| Þáguf. og staðarf., | *puĕrīs,* | sveinum, | sveinunum. |

c, *culter*, hnífur.

Eintala (*sing.*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf., | *culter,* | hnífur, | hnífurinn. |
| Þolf., | *cultrum,* | hníf, | hnífinn. |
| Eignarf., | *cultri,* | hnífs, | hnífsins. |
| Þáguf. og staðarf., | *cultro,* | hnífi, | hnífnum. |

Fleirtala (*plur.*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf., | *cultri,* | hnífar, | hnífarnir. |
| Þolf., | *cultros,* | hnífa, | hnífana. |
| Eignarf., | *cultrōrum,* | hnífa, | hnífanna. |
| Þáguf. og staðarf., | *cultris,* | hnífum, | hnífunum. |

d, *velum*, segl.

Eintala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf., | *velŭm,* | segl, | seglið, |
| Eignarf., | *velī,* | segls, | seglsins. |
| Þáguf. og staðarf., | *velō,* | segli, | seglinu. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf., | *velă,* | segl, | seglin. |
| Eignarf., | *velōrum,* | segla, | seglanna. |
| Þáguf. og staðarf., | *velīs,* | seglum, | seglunum. |

46. gr. Eins og *puer* hneigist orðið *vir,* karlmaður, og fáein orð, er endast á *vir,* t. a. m. *levir,* mágur eða tengdabróðir (eiginkonu); *triumvir,* þrímenni; sömuleiðis orðið *Trevir,* trevírskur maður: þolfall *virum,* mann, manninn, eignarfall *viri,* manns, mannsins.

47. gr. Sem *puer* hneigjast *adulter,* hórdómsmaður; *gener,* tengdasonur; *Liber,* Líber (vínguðinn; *liber,* bók, í eignarf. *libri*); *socer,* tengdafaðir; *vesper,* kveldstjarna; *Celtiber,* celtíberskur maður; *Iber,* íberskur maður, svo og fleirtöluorðið *liberi,* synir, eða börn (ef miðað er við foreldra).

48. gr. Allatínsk eiginnöfn (*nomina propria*), er endast á *ĭus,* og sameignarnöfnin (*nomina communia, nomina appellativa*) *filius,* sonur, og *genius,* fylgdarandi, hafa ī (en eigi ĭĕ) í ávarpsf. eintöl. (*Mercurī, filī, genī*); eiginnöfn, er endast á *jus,* hafa í ávarpsf. ī (eigi *jĕ*); *Gajus,* ávarpsf. *Gaī, Pompejus,* ávarpsf. *Pompeī.*

49. gr. Eignarfall fleirtölu (*genitiv. plural.*) er í sumum orðum, einkum þeim, er tákna peninga og mæli, oft dregið saman í *um* fyrir *orum: numum* fyrir *numorum* (af *numus,* peningur), *modium* fyr. *modiorum* (af *modius,* mælir, hálfskeppa).

50. gr. Orðið *deus* (guð) hefir í ávarpsf. eintöl. (*voc. sing.*) *deus;* í nefnif. og ávarpsf. fleirtöl. (*nom.* og *voc. plural.*) [*dei*], *dii* og *di;* í þáguf. og staðarf. fleirtöl. (*dat.* og *abl. plur.*) [*deis*], *diis* og *dis,* og í eignarf. fleirtöl. (*gen. plur.*) *deorum* (og *deum*).

51. gr. Eftir þessari fallbreytingu hneigjast og nókkur grískukend orð, er endast á *ŏs* og *ŏn.*

a, *asbestos,* asbest (steintegund).

Eintala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *asbestŏs,* | asbest, | asbestinn. |
| Ávarpsf. (*voc.*), | *asbestĕ,* | asbest, | asbestinn. |
| Þolf. (*acc.*), | *asbestŏn,* | asbest, | asbestinn. |
| Eignarf. (*gen.*), | *asbestī,* | asbests, | asbestsins. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *asbestō,* | asbesti, | asbestinum. |

Fleirtalan sem af *ventus.*

b, *xylon,* ulltrè.

Eintala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom., voc.* og *acc.*), | *xylŏn,* | ulltrè, | ulltrèð. |
| Eignarf. (*gen.*), | *xylī,* | ulltrès, | ulltrèsins. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *xylō,* | ulltrè. | ulltrènu. |

Fleirtalan sem af *velum.*

52. gr. Nokkur orð, einkum grískukend heiti á borgum, eyjum og gimsteinum, hneigjast bæði sem *ventus* og *asbestos:* nefnif. *Abydus* og *Abydos* (borgarheiti), þolf. *Abydum* og *Abydon; Samus* og *Samos* (eyjarheiti), þolf. *Samum* og *Samon.*

53. gr. Þau orð, er endast á *us* og *r,* eru karlkyns; þau, er endast ýmist á *us* eða *os,* eru kvennkyns og karlk.; þau, er endast á *um* og *on,* eru hvorugkyns.

54. gr. Kvennkyns eru þó nokkur þau orð, er endast á *us,* eða ýmist á *us* eða *os.*

*a,* orðin *alvus,* magi; *carbasus* (hörtegund); *humus,* mold; *vannus,* (korn)vinsflaupur.

*b,* α, heiti landa, borga og eyja: *Aegyptus,* Egiptaland; *Corinthus,* Korintuborg; *Rhodus* og *Rhodos,* Ródus (eyjarheiti).

β, Þau borganöfn, er að eins eru höfð í fleirtölu (og endast á *i*), eru karlkyns: *Fundi* (borgarnafn).

*c*, Trjáheiti og flest smáviðaheiti: *populus*, ösp; *juniperus*, einir.

*d*, Nokkur grísk sameignarheiti (*nomina communia*, *nomina appellativa*), er í grísku eru kvennkyns: *dialectus*, mál-lýzka; *diphthongus*, tvíhljóður; *diametros*, þvermælir.

55. gr. Gimsteinaheiti eru ýmist kvennkyns: *sapphirus*, saffír, eða karlkyns: *beryllus*, beryll.

56. gr. Orðin *pelagus*, sjór, haf; *virus*, vökvi; vilsa, ólyfjan; *vulgus*, almúgi, skríll, eru hvorugkyns.

## C, Þriðja fallbreyting (*declinatio*).

57. gr. Þau orð, er hneigjast eftir þessari fallbreytingu, hafa margar endingar í nefnifalli eintölunnar (*nominat. singul.*), og eru hinar helztu þeirra í allatínskum orðum þessar: *or, er, ul, is, es, as, os, ns, rs, ps, bs, x* (það er *gs* og *cs*), *o; ur, en, us, ar, al, e*. Slík orð hneigjast þannig.

a, *color*, litur.

Eintala (*singularis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *colŏr*, | litur, | liturinn. |
| Þolf. (*accus.*), | *colōrĕm*, | lit, | litinn. |
| Eignarf. (*gen.*), | *colōrĭs*, | litar, | litarins. |
| Þáguf. (*dat.*), | *colōrī*, | lit, | litnum. |
| Staðarf. (*ablat.*), | *colōrĕ*, | lit, | litnum. |

Fleirtala (*pluralis*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *colōrēs*, | litir, | litirnir. |
| Þolf. (*acc.*), | *colōrēs*, | litu, | lituna. |
| Eignarf. (*gen.*), | *colōrŭm*, | lita, | litanna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *colōrĭbŭs*, | litum, | litunum. |

b, *carcer*, dýfliza.

Eintala (*singular.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *carcĕr*, | dýfliza. |
| Þolf. (*acc.*), | *carcĕrĕm*, | dýflizu. |
| Eignarf. (*gen.*), | *carcĕrĭs*, | dýflizu. |
| Þáguf. (*dat.*), | *carcĕrī*, | dýflizu. |
| Staðarf. (*abl.*), | *carcĕrĕ*, | dýflizu. |

Fleirtala (*plural.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *carcĕrēs*, | dýflizur. |
| Eignarf. (*gen.*), | *carcĕrŭm*, | dýflizna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *carcĕrĭbŭs*, | dýflizum. |

c, *pater*, faðir.

Eintala (*sing.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *pater,* | faðir. |
| Þolf. (*acc.*), | *patrem,* | föður. |
| Eignarf. (*gen.*), | *patris,* | föður. |
| Þáguf. (*dat.*), | *patri,* | föður. |
| Staðarf. (*abl.*), | *patre,* | föður. |

Fleirtala (*plur.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *patres,* | feður. |
| Eignarf. (*gen.*), | *patrum,* | feðra. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *patribus,* | feðrum. |

d, *vermis*, ormur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *vermĭs,* | ormur. |
| Þolf. (*acc.*), | *vermem,* | orm. |
| Eignarf. (*gen.*), | *vermis,* | orms. |
| Þáguf. (*dat.*), | *vermi,* | ormi. |
| Staðarf. (*abl.*), | *verme,* | ormi. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *vermes,* | ormar. |
| Þolf. (*acc.*), | *vermes,* | orma. |
| Eignarf. (*gen.*), | *vermium,* | orma. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat. og abl.*), | *vermibus,* | ormum. |

e, *tussis*, hósti.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *tussis,* | hósti. |
| Þolf. (*acc.*), | *tussĭm,* | hósta. |
| Eignarf. (*gen.*), | *tussis,* | hósta. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *tussī,* | hósta. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *tusses,* | hóstar. |

o. s. frv. sem *vermes*.

f, *caedes*, víg.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *caedēs,* | víg. |
| Þolf. (*acc.*), | *caedem,* | víg. |
| Eignarf. (*gen.*), | *caedis,* | vígs. |
| Þáguf. (*dat.*), | *caedi,* | vígi. |
| Staðarf. (*abl.*). | *caede,* | vígi. |

Fleirtala sem af *vermis*.

g, ***urbs,*** borg.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *urbs,* | borg. |
| Þolf. (*acc.*), | *urbem,* | borg, |

o. s. frv. sem *vermis.*

h, ***lapis,*** steinn.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *lapĭs,* | steinn. |
| Þolf. (*acc.*), | *lapĭdem,* | stein, |

o. s. frv. sem *carcer.*

i, ***aestas,*** sumar.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *aestas,* | sumar. |
| Þolf. (*acc.*), | *aestātem,* | sumar. |

o. s. frv. sem *color.*

j, ***mos,*** siður.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *mōs,* | siður. |
| Þolf. (*acc.*), | *mōrem,* | sið, |

o. s. frv. sem *color.*

k, ***caespes,*** hnaus; torfa.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *caespĕs,* | hnaus. |
| Þolf. (*acc.*), | *caespĭtem,* | hnaus, |

o. s. frv. sem *carcer.*

l, ***pars,*** hluti.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *pars,* | hluti. |
| Þolf. (*acc.*), | *partem,* | hluta, |

o. s. frv. sem *vermis.*

m, ***forceps,*** töng.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *forceps,* | töng. |
| Þolf. (*acc.*), | *forcĭpem,* | töng. |

o. s. frv. sem *carcer.*

n, ***grex,*** hjörð.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *grex,* | hjörð. |
| Þolf. (*acc.*), | *grĕgem,* | hjörð, |

o. s. frv. sem *carcer.*

o, *vox*, rödd, raust.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *vox,* | rödd. |
| Þolf. (*acc.*), | *vōcem,* | rödd, |

o. s. frv. sem *color.*

p, *pollex*, þumalfingur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *pollex,* | þumalfingur. |
| Þolf. (*acc.*), | *pollĭcem,* | þumalfingur, |

o. s. frv. sem *carcer.*

q, *salmo*, lax.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *salmo,* | lax. |
| Þolf. (*acc.*), | *salmōnem,* | lax, |

o. s. frv. sem *color.*

r, *hirundo*, svala.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *hirundo,* | svala. |
| Þolf. (*acc.*), | *hirundĭnem,* | svölu, |

o. s. frv. sem *carcer.*

s, *fulgur*, elding.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *fulgŭr,* | elding. |
| Eignarf. (*gen.*), | *fulgŭris,* | eldingar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *fulgŭri,* | eldingu. |
| Staðarf. (*abl.*), | *fulgŭre,* | eldingu. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *fulgŭra,* | eldingar. |
| Eignarf. (*gen.*), | *fulgŭrum,* | eldinga. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *fulgŭrĭbus,* | eldingum. |

t, *femur*, lær.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *femŭr,* | lær. |
| Eignarf. (*gen.*), | *femŏris,* | lærs, |

o. s. frv. sem *fulgur.*

u, *nomen*, nafn.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *nomĕn,* | nafn. |
| Eignarf. (*gen.*), | *nomĭnis,* | nafns, |

o. s. frv. sem *fulgur.*

v, *foedus,* sáttmál.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom., voc.* og *acc.*), | *foedŭs,* | sáttmál. |
| Eignarf. (*gen.*), | *foedĕris,* | sáttmáls, |

o. s. frv. sem *fulgur.*

x, *frigus,* kuldi.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *frigŭs,* | kuldi. |
| Þolf. (*acc.*), | *frigŭs,* | kulda. |
| Eignarf. (*gen.*), | *frigŏris,* | kulda, |

o. s. frv. sem *fulgur.*

y, *crus,* fótleggur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *crūs,* | fótleggur. |
| Þolf. (*acc.*), | *crūs,* | fótlegg. |
| Eignarf. (*gen.*), | *crūris,* | fótleggjar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *crūri,* | fótlegg. |
| Staðarf. (*abl.*), | *crūre,* | fótlegg. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *crūra,* | fótleggir. |
| Þolf. (*acc.*), | *crūra,* | fótleggi. |
| Eignarf. (*gen.*), | *crūrum,* | fótleggja. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *crūribus,* | fótleggjum. |

z, *calcar,* spori.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *calcăr,* | spori. |
| Þolf. (*acc.*), | *calcăr,* | spora. |
| Eignarf. (*gen.*), | *calcāris,* | spora. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *calcāri,* | spora. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *calcārĭa,* | sporar. |
| Þolf. (*acc.*), | *calcārĭa,* | spora. |
| Eignarf. (*gen.*), | *calcārĭum,* | spora. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *calcārĭbus,* | sporum. |

a a, *cubile,* hvíla.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *cubīle,* | hvíla. |
| Þolf. (*acc.*), | *cubīle,* | hvílu. |
| Eignarf. (*gen.*), | *cubīlis,* | hvílu. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *cubīli,* | hvílu. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom., voc.* og *acc.*), | *cubīlia,* | hvílur. |
| Eignarf. (*gen.*), | *cubīlium,* | hvílna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *cubīlibus,* | hvílum. |

a b, ***accidens,*** tilfelli.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom., voc.* og *acc.*), | *accĭdens,* | tilfelli. |
| Eignarf. (*gen.*), | *accidentis,* | tilfellis. |
| Þáguf. (*dat.*), | *accidenti,* | tilfelli. |
| Staðarf. (*abl.*), | *accidenti* og *accidente,* | tilfelli. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom., voc.* og *acc.*), | *accidentia,* | tilfelli. |
| Eignarf. (*gen.*), | *accidentium,* | tilfella. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *accidentĭbus,* | tilfellum. |

58. gr. Eftir þessari fallbreytingu hneigjast og nokkur grískukend orð, og eru tíðkanlegastar endingar þeirra: *as, is, os, ys, o, a, i.*

a, ***adamas,*** demant.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *adămas,* | demant. |
| Þolf. (*acc.*), | *adamantem* (og *adamanta*), | demant. |
| Þáguf. (*dat.*), | *adamanti,* | demanti. |
| Staðarf. (*abl.*), | *adamante,* | demanti. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *adamantēs,* | demantar. |
| Þolf. (*acc.*), | *adamantes* og *adamantăs,* | demanta. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *adamantĭbus,* | demöntum. |

b, ***aspis,*** skjaldormur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *aspis,* | skjaldormur. |
| Þolf. (*acc.*), | *aspĭdem* (og *aspĭdă*), | skjaldorm. |
| Eignarf. (*gen.*), | *aspĭdĭs* (og *aspĭdŏs*), | skjaldorms. |
| Þáguf. (*dat.*), | *aspĭdi,* | skjaldormi. |
| Staðarf. (*abl.*), | *aspĭdĕ,* | skjaldormi. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *aspĭdēs,* | skjaldormar. |
| Þolf. (*acc.*), | *aspĭdēs* og *aspĭdăs,* | skjaldorma. |

| | | |
|---|---|---|
| Eignarf. (*gen.*), | *aspĭdum,* | skjaldorma. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *aspĭdĭbus,* | skjaldormum. |

c, ***haeresis,*** fylgiflokkur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *haerĕsis,* | fylgiflokkur. |
| Ávarpsf. (*voc.*), | *haerĕsi* eða *haerĕsis,* | fylgiflokkur. |
| Þolf. (*acc.*), | *haerĕsĭm* og *haerĕsĭn,* | fylgiflokk. |
| Eignarf. (*gen.*), | *haerĕsis* og *haeresĕōs,* | fylgiflokks. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *haerĕsi,* | fylgiflokki. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *haerĕsēs,* | fylgiflokkar. |
| Þolf. (*acc.*), | *haerĕsēs,* | fylgiflokka. |
| Eignarf. (*gen.*), | *haerĕsĭum* (og *haeresĕōn*), | fylgiflokka. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *haeresĭbus,* | fylgiflokkum. |

d, ***heros,*** hálfguð.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *herōs,* | hálfguð. |
| Þolf. (*acc.*), | *herōĕm* og *herōă,* | hálfguð. |
| Eignarf. (*gen.*), | *herōĭs,* | hálfguðs. |
| Þáguf. (*dat.*), | *herōi,* | hálfguði. |
| Staðarf. (*abl.*), | *herōĕ,* | hálfguði. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *herōĕs,* | hálfguðir. |
| Þolf. (*acc.*), | *herōăs,* | hálfguði. |
| Eignarf. (*gen.*), | *herōum,* | hálfguða. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *herōĭbus,*, | hálfguðum. |

e, ***erinys,*** refsinorn.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *erīnys,* | refsinorn. |
| Ávarpsf. (*voc.*), | *erīny,* | refsinorn. |
| Þolf. (*acc.*), | (*erīny̆m* og) *erīnyn,* | refsinorn. |
| Eignarf. (*gen.*), | (*erīny̆ĭs* eða) *erīny̆ŏs,* | refsinornar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *erīny̆i,* | refsinorn. |
| Staðarf. (*abl.*), | *erīny̆ĕ,* | refsinorn. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *erīny̆ĕs,* | refsinornir. |
| Þolf. (*acc.*), | *erīny̆ĕs* og *erīny̆ăs,* | refsinornir. |

| | | |
|---|---|---|
| Eignarf. (*gen.*), | *erinȳum* (og *erinȳōn*), | refsinorna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | (*erinȳbus* eða) *erinȳsi*, | refsinornum. |

f, *Dīdō*, Dídó (kvennmannsnafn).

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *Dīdō*, | Dídó. |
| Þolf. (*acc.*), | *Didō* (og *Didōnem*), | Dídó. |
| Eignarf. (*gen.*), | *Didūs* (og *Didōnis*), | Dídóar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *Didō* (og *Didōni*), | Dídó. |
| Staðarf. (*abl.*), | *Didō* (og *Didōne*), | Dídó. |

Fleirtala eigi höfð.

g, *aenigma*, gáta.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *aenigma*, | gáta. |
| Þolf. (*acc.*), | *aenigma*, | gátu. |
| Eignarf. (*gen.*), | *aenigmătis*, | gátu. |
| Þáguf. (*dat.*), | *aenigmăti*, | gátu. |
| Staðarf. (*abl.*), | *aenigmăte*, | gátu. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *aenigmăta*, | gátur. |
| Eignarf. (*gen.*), | *aenigmătum*, | gátna. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *aenigmătīs* (og *aenigmatĭbus*), | gátum. |

h, *sinapi*, mustarður.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *sinăpi*, | mustarður. |
| Þolf. (*acc.*), | *sinăpi*, | mustarð. |
| Eignarf. (*gen.*), | *sinăpis*, | mustarðs. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *sinăpi*, | mustarði. |

i, *erysipelas*, heimakonusótt.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *erysipĕlas*, | heimakonusótt. |
| Eignarf. (*gen.*), | *erysipelătis*, | heimakonusóttar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *erysipelăti*, | heimakonusótt. |
| Staðarf. (*abl.*), | *erysipelăte*, | heimakonusótt. |

## Afbrigði við föll þessarar breytingar.

59. gr., *a*, Þau orð, er hneigjast eftir fallbreytingu þessari, hafa oftast sömu ending í ávarpsfalli eintölu (*vocat. singul.*), sem

í nefnifalli (*nominat.*); þó hafa karlmannanöfn, er endast á *es*, ēs og ē í ávarpsfalli: *Pericles*, ávarpsf. *Periclēs* og *Periclē*.

*b*, Grískukend orð, er endast á *ys*, og *eus* (í einni samstöfu), hafa í ávarpsf. eint. *y* og *eu* (einkvætt, *monosyllabum*): *Cotȳs* (mannsnafn), ávarpsf. *Cotȳ*. *Pentheus* (mannsn.), ávarpsf. *Pentheu*.

*c*, nokkur grískukend orð, er endast á *is* og *as*, hafa og ávarpsfall ess-laust: *Alexĭs* (mannsn.), ávarpsf. *Alexī*; *Calchās* (mannsn.), *Calchā*.

60. gr. *a*, þolfall eintölunnar (*accus. singul.*) endast venjulega á *em* í karlkyns og kvennkynsorðum; á *im* endast það í nokkrum orðum á *is*, sem eru jafnsamstafa (*parisyllaba*) í nefnifalli og eignarfalli eintölunnar (*nomin.* og *gen. singul.*). Þessi orð eru: *amussis*, rèttiskíð; *ravis*, hæsi; *sitis*, þorsti; *tussis*, hósti; *vis*, kraftur. Orðin *febris*, riðusótt, *pelvis*, mundlaug, *puppis*, skutur, *restis*, strengur, *secūris*, öxi, *turris*, stöpull, hafa *im* og *em* í þolf. eintölunnar; orðin *clavis*, lykill, *messis*, kornskurður, *navis*, skip, hafa *em* og *im*.

*b*, α, fljótanöfn og borganöfn á *is* hafa *im* og *in* í þolf. eintöl.: *Albis*, Saxelfur; *Neapolis* (borgarnafn); *Hispalis* (borgarn.).

*b*, β, grískukend orð, er endast á *is*, og hafa í eignarf. (*genit.*) *is*, eða *eōs*, hafa og *im* og *in* í þolf. eintöl.: *basis*, fótstallur; undirstaða, grundvöllur; *poësis*, skáldskapur.

*c*, jafnsamstafa (*parisyllaba*) mannanöfn á *es* hafa stundum *en* í þolf.: *Aeschines*, í þolf. *Aeschinem* og *Aeschinen*.

*d*, orðin *aër*, loft, og *aether*, upploft, hafa *aëra* og *aethera*, síður *aërem* og *aetherem*.

61. gr. Jafnsamstafa (*parisyllaba*) mannanöfn á *es* hafa venjulega *i* í eignarfalli hjá hinum beztu rithöfundum (t. a. m. *Cicero*): *Aristoteles*, eignarfall *Aristoteli* og *Aristotelis*.

62. gr. *a*, staðarfall eintölunnar (*ablat. singul.*) í þessari fallbreytingu endast venjulega á *e*; í nokkrum orðum endast það á *i*, í nokkrum á *i* og *e*.

*b*, á *i* endast staðarf. eintölu,

α, í þeim orðum, er endast á *im* eða *in* í þolf. eintöl.: *amussis*, *ravis*, o. s. frv., svo og í orðinu *secūris*.

β, í hvorugkynjuðum sameignarorðum (*nomina communia neutrius generis*), er endast á *e*, *i*, *al* (í eignarf. [*genit.*] ālis), *ar* (í eignarf. [*genit.*] āris): *cubile*, hvíla; *sinapi*, mustarður; *cervical*, koddi; *calcar*, spori.

γ, borganöfn, er endast á ĕ, hafa í staðarf. ĕ: *Praeneste, Reate*. *Rete*, net, hefir *retĕ* og *retī*.

*c*, á *i* og *e* endast staðarf. eintölu,

α, í þeim orðum, er í þolfalli eintölu hafa bæði *im* og *em*: *febris, pelvis*, o. s. frv.; *restis* hefir eingöngu *e*.

β, í nokkrum öðrum orðum, t. d. í *anguis*, höggormur; *avis*, fugl; *ignis*, eldur; *imber*, regn, rigning.

γ, í sameignarheitum (*nomina communia*), er upphaflega hafa verið lýsingarorð: *aedilis*, bœjarstjóri; *familiaris*, kunningi, vinur; *natalis*, fœðingardagur; þó er i-myndin tíðkanlegri í flestum slíkum orðum.

δ, af *rus*, land, sveit, myndast staðarf. (*abl.*) *ruri* (og *rure*), úti á landi; úti í sveit, uppi í sveit; og *rure*, utan af landi; utan úr sveit, ofan úr sveit.

63. gr. Nefnif., ávarpsf. og þolf. fleirtölu (*nom., voc.* og *acc. plur.*) endast stundum, einkum í fornlegu máli, á (īs fyrir ēs), helzt í jafnsamstafa (*parisyllaba*) karlkyns og kvennkyns orðum: *ignĭs*, fleirtala *ignēs* og *ignīs*.

64. gr. Hvorugkend orð (*neutra*) endast venjulega á *a* í nefnif., ávarpsf. og þolf. fleirtölu (*nom., voc.* og *acc. plur.*), en á *ia* endast þau, er í nefnifalli eintölu (*nom. sing.*) hafa *e, al* (í eignarf. *ālis*), og *ar* (í eignarf. *āris*): *cubilia, cervicalia, calcaria*.

65. gr. Eignarf. fleirtölu (*gen. plur.*) endast venjulega á *um*, en á *ium* endast það,

*a*, í jafnkvæðum orðum (*parisyllaba*) á *es* og *is*: *caedes*, víg, *caedium*; *vermis*, ormur, *vermium*. Þó er *um* haft í orðunum *strues*, hlaði, köstur; *vates*, spámaður, spákona; *canis*, hundur; tík; *juvenis*, fulltíða maður, maður á bezta aldri. *Ambages* (hugsuð nefnifallsmynd í eintölu), umferð; krókur; óglögg orð, hulda, hefir í eignarf. fleirtölu *ambagum*. *Volucris*, flugdýr; fugl; fluga, hefir *um* og *ium*; *apis*, býfluga, *sedes*, sæti, *mensis*, mánuður, hafa *ium* og *um*.

*b*, í hvorugkendum orðum, er endast á *e, al* (eignarf. *ālis*), og *ar* (eignarf. *āris*): *cubile, cervical, calcar*.

*c*, í einkvæðum orðum (*monosyllaba*), er endast á *s* eða *x* með samhljóðanda fyrir framan: *urbs*, borg, eignarf. fleirtölu *urbium*; *merx*, vara, *mercium*. *Ops*, hugsuð nefnifallsmynd í eintölu: fylgi, hjálp, styrkur, hefir í eignarf. fleirtölu *opum*. *Ops*, gyðjuheiti, er haft í nefnif. eintölu.

*d*, í nokkrum einkvæðum orðum, er endast á *s* eða *x* með

raddarstaf fyrir framan: *as*, eining; einpeningur; heild; *dos*, heimanmundur; *faux*, kok; *glis*, sjösofara, kræsimús; *lis*, þræta; þingdeila; *mas*, karlkynjuð vera; *mus*, mús; múskent dýr; *nix*, snjór; *nox*, nótt; *os*, bein; leggur; *vis*, kraftur, afl; eignarf. fleirtölu *assium, dotium, faucium, glirium, litium, marium, murium, nivium, noctium, ossium, virium*. Orðið *cor*, hjarta, hefir og *cordium*.

β, um nokkar slík orð er óvíst, hvort þau hafa haft, eða eiga að hafa, *ium* eða *um* í eignarf. fleirtölu; svo er t. d. um *rus; sal*, salt; *sol; vas* (í eignarf. *vădis*), ábyrgðarmaður (um komu til dómþings).

*e*, í fleirkvæðum orðum (*pluri-syllaba*), er endast á *ns* og *rs*: *cliens*, skjólstœðingur; *cohors*, sveitardeild, skor; eignarf. fleirtölu *clientium, cohortium*. *Parens*, faðir; móðir, og nokkur fleiri slík orð (á *ns*) hafa *ium* (og *um*).

*f*, í orðunum *imber; linter*, bátur; *venter; uter*, belgur, og *caro*, kjöt; eignarf. fleirtölu: *imbrium, lintrium, utrium, ventrium* og *carnium*.

66. gr. Borgmannanöfn og landsmannanöfn á *as* og *is*, eignarf. *ātis* og *ītis*, hafa *ium* (og *um*) í eignarf. fleirtöl.: *Arpīnas*, arpínskur maður; *Samnis*, samneskur maður; eignarf. fleirtöl. *Arpinatium* (og *Arpinātum*), *Samnitium* (og *Samnītum*). Svo er og um fleirtöluorðin *optimātes*, beztu menn, höfðingjar, stórmenni, og *penātes*, húsgoð.

67. gr. Hátíðanöfn, er endast í eintöl. á *al*, en eru oftast höfð í fleirtölu (með endingunni *alia*), hafa í eignarf. fleirtöl. *ium* og *iorum*: (*Bacchanal* og) *Bacchanalia*, Bakkusarhátíð, eignarf. fleirtöl. *Bacchanalium* og *Bacchanaliorum*.

68. gr. Grískukend hvorugkynsorð, er endast á *ma*, hafa í þáguf. og staðarf. fleirtöl. (*dat.* og *abl. plur.*) *is* (og *ibus*): *aenigma, aenigmatis* (og *aenigmatibus*).

69. gr. Orðið *bos*, eignarf. *bŏvis*, naut, uxi; kýr, hefir í eignarf. fleirtöl. *boum*; þáguf. og staðarf. fleirtöl. *bubus* og *bobus*. *Sus*, svín; sýr, gyltur, hefir *sŭibus* og *sūbus*.

## Um kynferði.

70. gr. *a*, orð, er endast á *a, e, i*, eru hvorugkyns (*neutra*): *aenigma, cubile, sinapi*.

*b*, orð á *o* eru kvennkyns (*feminina*), og karlkyns (*mascuina*).

α, kvennkyns eru,

1) þau orð, er endast á *tūdo,* eignarf. (*gen.*) *tudĭnis,* og eru mynduð af lýsingarorðum: *latitudo,* breidd, af *latus,* breiður.

2) orð á *do* og *go,* eignarf. *ĭnis: testūdo,* skelbaka; *hirundo,* svala; *orīgo,* uppruni. Karlkyns eru *cardo,* hjarri, hjara; *ordo,* röð, stètt. *Margo,* rönd, jaðar, barmur, er oftar karlkyns en kvennkyns.

3) orð á *io,* er mynduð eru af sagnarorðum eða lýsingarorðum: *lectio,* lestur, af *lego,* eg les; *opinio,* ætlan, hyggja, af *opīnor,* eg ætla, hygg; *communio,* sameining, af *commūnis,* sameiginlegur. *Pugio,* stikkhnífur, af *pungo,* eg sting, (stofn *pug*), er karlkyns. Önnur orð á *io* eru karlkyns: *vespertilio,* leðurblaka; *titio,* logbrandur.

4) *caro,* eignarf. *carnis,* er og kvennkyns.

β, karlkyns eru,

1) orð á *o,* eignarf. *ōnis: carbo,* kol; *leo,* ljón; *pulmo,* lunga; *salmo,* lax; *sermo,* tal, mál; *Narbo,* borgarnafn; *Sulmo,* borgarn. Nokkur, einkum spönsk, borganöfn, t. d. *Barcĭno,* Barcellona, *Tarrăco,* Tarragona, eru kvennkyns.

2) orð á *o,* eignarf. *ĭnis: homo,* maður, karl eða kona, og *turbo,* hvirfilvindur; svo og guðaheitin *Apollo* og *Cupīdo.*

*c,* orð á *c, l* (*al,* eignarf. *ālis*), *n* (*men*), *t,* eru hvorugkyns: *lac,* mjólk; *cervical,* koddi; *fel,* eignarf. *fellis,* gall; *mel,* eignarf. *mellis,* hunang; *flumen,* fljót; *caput,* eignarf. *capĭtis,* höfuð.

β, karlkyns eru, 1) *sol,* og karlmannaheitin *consul,* ræðismaður; *pugil,* hnefleikamaður; *vigil,* vökumaður. *Exsul,* útlagi, er karlkyns og kvennkyns. *Sal,* salt, er karlkyns og hvorugkyns; í merkingunni orðkrydd, orðkringi, bituryrði, er það einungis karlkyns.— 2) *attagen,* heslihœna; *lien,* milti; *pecten,* kambur; *ren,* nýra; og karlmannaheitin *cornĭcen,* hornblásari; *flamen,* prestur (einhvers sèrstaks guðs), hofgoði; *tibīcen,* pípublásari; *tubĭcen,* lúðurþeytari.

*d,* orð á *ar; or,* eignarf. *ŏris; ŭr,* eignarf. *ŏris; ŭs,* eignarf. *ĕris; ŭs,* eignarf. *ŏris; ūs,* eignarf. *ūris,* eru hvorugkyns: *calcar; marmor,* marmari; *femur, foedus, frigus, crūs.*

α, karlkyns eru *lar,* verndargoð, húsgoð, og karlmannanöfn, t. d. *Caesar,* svo og fljótsnafnið *Arar.* *Par,* jafningi, er karlkyns; *par,* eiginmaður; bóndi (*Óvid. Fast.* 3, 193), er og karlk.; *par,* eiginkona, kona (*Ovid. Fast.* 3, 526), er kvennk. *Par,* eitthvað tvent, er saman á, er hvorugk.: *par columbarum,* tvær dúfur, dúfuhjón (*Ovid.*); *tria paria amicorum,* þrennir vinir (*Cic.*).

β, *arbor* (og *arbos*), eignarf. *arbŏris,* trè, eik, er kvennkyns; *cor,* eignarf. *cordis,* er hvorugkyns.

γ, gyðjuheitið *Venus*, eignarf. *Venĕris*, er kvennkyns; *lepus*, eignarf. *lepŏris*, hèri, er karlkyns.

δ, *mūs*, eignarf. *mūris*, er karlkyns (og kvennkyns); *tellūs*, eignarf. *ūris*, fold, jörð, er kvennkyns.

ε, *sus*, eignarf. *suis*, og *grus*, eignarf. *gruis*, trana, eru kvennkyns (og karlk.).

*e*, orð, er endast á *er*, í eignarf. *ĕris*, eða á *ur*, í eignarf. *ŭris*, eru karlkyns og hvorugk.

α, karlkyns á *er* eru t. d. *aër* og *carcer*. Hvorugkyns eru t. d. *acer*, hlynur; *piper*, pipar; *uber*, júfur, júgur. *Ver*, eignarf. *vēris*, vor, og *iter* (úrelt *itĭner*), eignarf. *itinĕris* (úrelt *itĕris*), ferð, leið, eru og hvorugk.

β, karlkyns á *ur* eru *furfur*, agnir, sáðir; *turtur*, turturi, turtildúfa; *vultur*, gammur. Hvorugkyns eru t. d. *fulgur*; *murmur*, hvískur; suða; þytur; gnýr, og *sulphur*, brennisteinn. *Fur*, eignarf. *fūris*, þjófur, er karlk.

*f*, orð á *er*, eignarf. *ris*; *es*, eignarf. *ĭtis*; *or*, eignarf. *ōris*; *is*, eignarf. *ĕris*; *os*, eignarf. *ōris*, og *ex*, eignarf. *ĭcis*, eru karlkyns: *accipĭter*, valur, haukur, fálki; *caespes*; *color*; *cinis*, eignarf. *cinĕris*, aska; *pulvis*, eignarf. *pulvĕris*, duft, dust, ryk; *mos*; *pollex*, eignarf. *pollĭcis*.

α, *linter* er kvennkyns og karlk.; *merges*, eignarf. *mergĭtis*, bundin, er kvennkyns. Kvennkyns eru og kvennaheitin *soror*, eignarf. *sorōris*, systir, og *uxor*, eignarf. *uxōris*, eiginkona. Hvorugkyns eru *os*, eignarf. *ōris*, munnur; andlit, og *os*, eignarf. *ossis*, bein.

β, kvennkyns eru *ilex*, steineik; *carex*, stör; *forfex*, skæri, söx (í eintölu um ein skæri eða ein söx; í fleirtölu *forfices*, um fleiri skæri, eða fleiri söx, en ein). Karlkyns og kvennk. eru *imbrex*, (regnsteinn), hvelfdur þaksteinn; *obex*, slá, loka; *rumex*, súra.

γ, karlkyns eru karlmannaheitin *fenisex*, eignarf. *fenisĕcis*, (heyskeri), sláttumaður; *remex*, eignarf. *remĭgis*, róðrarmaður; *rex*, eignarf. *rēgis*, konungur; *senex*, eignarf. *senis* (og úrelt *senĭcis*), gamall maður, karl; svo og skepnuheitið *vervex*, eignarf. *vervēcis*, geldingur, sauður, og enn fremur orðið *grex*, eignarf. *grĕgis*, hjörð.

δ, kvennkyns eru *faex*, eignarf. *faecis*, dregg, dreggjar; *lex*, eignarf. *lēgis*, nýmæli; lögmál, lögboð; fyrirmæli, kostur; *nex*, eignarf. *nĕcis*, dráp, víg, bani; *prex*, eignarf. *prĕcis*, bœn; *supellex*, eignarf. *supellectĭlis*, húsbúnaður, búsgögn.

*g*, orð á *as*, eignarf. *ātis* (og *ătis*); jafnkvæð orð (*parisyllaba*)

á *es*, eignarf. *is*; eða á *es* og *is*, eignarf. *is; es*, eignarf. *ĕtis; is*, eignarf. *ĭdis; ūs*, eignarf. *ūdis* og *ūtis* (*aus*, eignarf. *audis*); *ns*, eignarf. *ndis; bs, rs* (*ls, ms*); *ax, ix, ox, ux* (*aux*); *x* með samhljóðanda (*l, n, r*) fyrir framan, eru kvennkyns: *aestas; anas*, eignarf. *anătis*, önd (fuglsheiti); *caedes; aedis* og *aedes*, hús; hof; *seges*, eignarf. *segĕtis*, sáðland, akurland; korn; *cuspis*, eignarf. *cuspĭdis*, oddur; *incūs*, eignarf. *incūdis*, steðji; [*fraus*, eignarf. *fraudis*, prettur, svik; *laus*, eignarf. *laudis*, lof, hrós]; *virtūs*, eignarf. *virtūtis*, drengskapur; dygð; *frons*, eignarf. *frondis*, lauf; *glans*, eignarf. *glandis*, akarn; *juglans*, eignarf. *juglandis*, valhnot; *urbs; pars* (*hiems*, vetur; *puls*, eignarf. *pultis*, grautur); *pax*, eignarf. *pācis*, friður; *fax*, eignarf. *făcis*, blys, tortís; *salix*, eignarf. *salĭcis*, píll; *radix*, eignarf. *radīcis*, rót; *vox*, eignarf. *vōcis*, rödd, raust; *nox*, eignarf. *noctis; crux*, eignarf. *crūcis*, kross; *nux*, eignarf. *nŭcis*, hnot; *faux; falx*, eignarf. *falcis*, ljár; sigður; *lanx*, eignarf. *lancis*, skál; fat; *phalanx*, eignarf. *phalangis*, breiðfylking; *merx*, eignarf. *mercis*.

α, karlkyns eru *adămas*, eignarf. *adamantis; as*, eignarf. *assis; mas*, eignarf. *măris; vas*, eignarf. *vădis*; hvorugkyns er *vas*, eignarf. *vāsis*, ker. *Paries*, eignarf. *pariĕtis*, veggur, og *aries*, eignarf. *ariĕtis*, hrútur, eru karlkyns.

β, karlkyns eru *bes*, eignarf. *bessis*, átta tólftungar, tveir þriðjungar; *pes*, eignarf. *pĕdis*, fótur, fet; *praes*, eignarf. *praedis*, ábyrgðarmaður (í peningaefnum); *praeses*, eignarf. *praesĭdis*, verndari, verndarmaður; forstjóri.

γ, kvennkyns eru *compes*, eignarf. *compĕdis*, fótfjötur; *merces*, eignarf. *mercēdis*, verkkaup, laun; *quies*, eignarf. *quiētis*, og *requies*, eignarf. *requiētis*, hvíld; svo og korngyðjuheitið *Ceres*, eignarf. *Cerĕris*.

δ, karlkyns og kvennkyns eru *heres*, eignarf. *herēdis*, erfingi; *obses*, eignarf. *obsĭdis*, gísl. Kvennkyns, hvorugk. og karlk. er *quadrupes*, eignarf. *quadrupĕdis*, ferfœtt skepna, ferfœtla, ferfœtlingur.

ε, *aes*, eignarf. *aeris*, eir; kopar, er hvorugkyns.

ζ, karlkyns er *lapis*, eignarf. *lapĭdis*, steinn; svo og *glis*, eignarf. *glīris*; *sanguis*, eignarf. *sanguĭnis*, blóð, og *semis*, eignarf. *semissis*, helmingur; hálfur einpeningur. Kvennkyns er *lis*, eignarf. *lītis*.

η, karlkyns á *ix*, eignarf. *ĭcis*, eru *calix*, eignarf. *calĭcis*, drykkjarker, bikar; *fornix*, eignarf. *fornĭcis*, hvelfing. *Varix*, eignarf. *varĭcis*, æðahnútur, er karlkyns og kvennk. *Phoenix*, eignarf. *phoenīcis*, fönix (fuglsheiti), er karlkyns.

ϑ, *nix*, eignarf. *nĭvis*, er kvennkyns.

ι, *dux*, eignarf. *dŭcis*, leiðtogi; fyrirliði, er karlkyns og kvennk.; *conjux*, eignarf. *conjŭgis*, eiginkona og eiginmaður, er kvennkyns og karlk.

κ, *calx*, eignarf. *calcis*, er kvennkyns (sjaldan karlk.), er það merkir *hæll*, en kvennk. og karlk., er það merkir *kalk*.

λ, samsetningar af *uncia*, tólftungur: *deunx*, eignarf. *deuncis*, ellefu tólftungar; *quincunx*, eignarf. *quincuncis*, fimm tólftungar; *septunx*, eignarf. *septuncis*, sjö tólftungar, eru karlkyns.

*h*, jafnsamstafa orð á *is* eru kvennkyns og karlk. Kvennkyns eru t. d. *apis*, býfluga; *auris*, eyra; *avis*, fugl; *classis*, flokkur; floti; *clavis*, lykill; *cutis*, húð; hörund; *navis*, skip; *ovis*, sauður, sauðkind; *pellis*, húð, skinn; *puppis*, skutur, afturstafn; *ratis*, fleki; *sitis*, þorsti; *turris*, stöpull, turn; *tussis*, hósti; *vestis*, klæðnaður, klæði; *vis*, kraftur, afl; *vitis*, vínviður. Hin helztu karlkynsorð eru: *axis*, öxull; *caulis*, leggur, stilkur; *collis*, háls; hæð; leiti; *crinis*, hár (einkum haft í fleirtöl. um konuhár); *ensis*, sverð; *fascis*, vöndull, kjarf; baggi; *follis*, belgur, smiðjubelgur; *funis*, reip, strengur, kaðall; *fustis*, barefli, þusl; *ignis*, eldur; *mensis*, mánuður; *orbis*, hringur, kringla; *panis*, brauð; *piscis*, fiskur; *postis*, dyrustafur; *scrobis*, gryfja, hola; *sentis*, þorn, þyrnir; *torris*, logbrandur; *unguis*, nögl, nagl; kló; *vectis*, lyftistöng; *vermis*. Enn fremur nokkur nafnorð, er upphaflega hafa verið lýsingarorð, og hafa höfð verið með karlkendu nafnorði, t. d. *annālis*, þ. e. *liber annālis*, árbók, annáll; *natalis*, þ. e. *dies natalis*, fæðingardagur, afmælisdagur. *Juvenis*, fulltíða maður, er og karlkyns, svo og fleirtöluorðið *manes*, andir dauðra manna; önd dauðs manns.

β, *anguis*, höggormur, og *corbis*, laupur, meis, eru karlkyns og kvennk. *Canis*, hundur, er karlkyns og kvennkyns, þá er ótiltekið er, hvort talað er um hvatan hund eða blauðan; *canis*, hvatur hundur, er karlkyns, *canis*, blauður hundur, tík, kvennk.

*i*, orð á *os*, eignarf. *ōtis*, eru kvennkyns og karlk. Kvennkyns eru *cos*, eignarf. *cōtis*, brýni; hverfisteinn; *dos*, eignarf. *dōtis*, heimanmundur; karlk. eru *monocĕros*, eignarf. *monocerōtis*, einhyrningur, og *rhinocĕros*, eignarf. *rhinocerōtis*, nashyrningur.

*k*, orð á *ns*, eignarf. *ntis*, eru flest karlkyns eða kvennk., en nokkur fátíð orð hvorugk. Karlkyns eru *dens*, eignarf. *dentis*, tönn; *fons*, lind, uppspretta; *mons*, fjall; hæð; *pons*, brú; og enn fremur nokkur nafnorð, er upphaflega eru hluttaksorð eða lýsingarorð: *occidens*, vestur; vesturlönd; *oriens*, austur; austurálfa heims,

austurlönd; *rudens*, skipskaðall; *torrens*, stríður straumur; *tridens*, þrítenningur, þrítent kvísl. *Confluens*, ámót, er karlkyns (eða kvennk.). Kvennkyns eru *frons*, enni; *gens*, ætt; þjóð, fólk; *lens*, flatbaun; *mens*, hugur, hugarfar. Hvorugkyns eru t. d. *accidens*, tilfelli; *consequens*, afleiðing, og *ens*, vera.

β, orðið *serpens*, höggormur, er venjulega kvennkyns, sjaldan karlk.; *bidens*, tvítenningur, um skepnu, er kvennkyns, en í merkingunni: gref, er það karlk.

γ, *animans*, lifandi skepna; skepna, dýr; vera, er kvennkyns og karlkyns; í fleirtölu *animantes*, kvennkyns og karlk., og *animantia*, hvorugkyns.

δ, *continens*, meginland, er kvennkyns (og hvorugk.); í merkingunni: höfuðsönnun, er það hvorugk.

*l*, orð á *ps* eru kvennkyns: *daps*, matur; krás; veizla; *stips*, smápeningur; *stirps*, stofn, ættstofn. *Adeps*, feiti; mör; spik; lýsi (fleirtala *adipes*, feiti, ístra), og *forceps*, töng, eru karlkyns og kvennk. Karlmannaheitin *auceps*, fuglari; *manceps*, handtaki; kaupandi, og *princeps*, höfðingi; keisari, eru karlkyns.

## D, Fjórða fallbreyting (*declinatio*).

71. gr. Þau orð, er hneigjast eftir þessari fallbreytingu, endast flest á *us*, fáein á *u*, og hneigjast svo.

a, *gradus*, stig.

Eintala (*singularis*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nominat.* og *vocat.*), | *gradūs*, | stig. |
| Þolf. (*accusat.*), | *gradum*, | stig. |
| Eignarf. (*genit.*), | *gradūs*, | stigs. |
| Þáguf. (*dativ.*), | *gradui*, | stigi. |
| Staðarf. (*ablat.*), | *gradū*, | stigi. |

Fleirtala (*pluralis*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *gradūs*, | stig. |
| Eignarf. (*genit.*), | *graduum*, | stiga. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *gradĭbus*, | stigum. |

b, *cornu*, horn.

Eintala (*singular.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *cornū*, | horn. |
| Eignarf. (*genit.*), | *cornūs*, | horns. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *cornū*, | horni. |

Fleirtala (*plural.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *cornua*, | horn. |

Eignarf. (*genit.*), *cornuum*, horna.
Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), *cornibus*, hornum.

72. gr. Orðin á *us* hafa stundum *i*, og stundum *uis*, í eignarf. eintöl. (*genit. singul.*): *senati* fyrir *senatūs*, af *senātūs*, öldungaráð; *anuis* fyrir *anūs*, af *anŭs*, gömul kona; kerling.

β, slík orð hafa og stundum ū fyrir *ui* í þáguf. eintöl. (*dativ. singul.*).

73. gr. Tveggja atkvæða orð á *cus* hafa *ŭbus* fyrir *ibus* í þáguf. og staðarf. fleirtöl. (*dat.* og *abl. plur.*): *acus* nál; *arcus*, bogi; *lacus*, dœld; ker; stöðuvatn; *specus*, gryfja; hellir; svo og orðin *partus*, fœðing, burður; *pecu*, fè, búfè; *tribus*, lýðdeild, sveit, og fleirtöluorðið *artus*, liðamót; liðir, limir; þáguf. og staðarf. fleirtöl. *acubus, arcubus*, o. s. frv. *Portus*, höfn, hefir *portibus* og *portubus; veru*, (steiki)teinn, *verubus* og *veribus*.

74. gr. Þau orð, er endast á *us*, eru flest karlkyns, nokkur kvennkyns; þau, er endast á *u*, eru hvorugkyns.

*a*, karlkynsorðin eru flest mynduð af sagnorðum (*verba*), eða sagnorðastofnum, á líkan hátt og sagnbœtur (*supina*), og hafa flest þeirra *t*, nokkur *s*, og fá *x* (þ. e. gómstaf eða varastaf, og *s*) á undan endingunni *us*, t. d. *ornātus*, skraut (af *orno*, eg skreyti; sagnbót *ornatum*); *audītus*, heyrn (af *audio*, eg heyri); *visus*, sjón (af *video*); *flexus*, beyging (af *flecto*, eg beygi; óaukinn stofn *flec*); *fluxus*, rennsl (af *fluo*, eg renn; óstyttur stofn *fluv*); *artus*, af stofninum *ar*.

β, nokkur karlkynsorð, er endast á *ātus*, eru mynduð af nafnorðum, t. d. *consulatus*, ræðismennska (af *consul*, ræðismaður); *episcopatus*, byskupdómur (af *episcopus*, byskup); *peditatus*, fótgönguher (af *pedes*, fótgöngumaður, í fleirtöl. *pedites*).

γ, enn eru nokkur karlkynsorð, þau er eigi hafa neitt sèrstaklegt einkenni, t. d. *arcus; currus*, vagn (haft einkum um hermannsvagn og sigurhelgivagn); *gradus*, stig; *impetus*, atför, atganga, atlaga, árás; *lacus; metus*, ótti; *ritus*, siður, háttur; *sexus*, kyn (karls eður konu); *sinus*, vik; vík; fjörður; flói; bugða; bunga, og venjulega *specus*.

*b*, kvennkyns eru *acus; manus*, hönd; *penus*, vistir, forði; *porticus*, súlnagöng; *tribus;* svo og fleirtöluorðin *idūs*, deilidagur (þrettándi dagur í sumum mánuðum, en fimtándi í sumum), og *quinquatrūs*, fimtarhátíð; og enn fremur kvennaheitin *anus; nurus*, snör, tengdadóttir, og *socrus*, sværa, tengdamóðir.

c, hvorugkyns eru: *cornu*, *genu* og *veru*, og aukamyndirnar *gelu* (frost; kuldi; klaki; ís) og *pecu*.

E, Fimta fallbreyting (*declinatio*).

75. gr. Eftir þessari fallbreytingu hneigjast nokkur orð, er endast á *ies*, og örfá (*fides*, trú; *res*, hlutur, og *spes*, von), er endast á *es* með samhljóðanda fyrir; þau hneigjast svo.

a, *dies*, dagur; tími; tímalengd.

Eintala (*singular.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *diēs*, | dagur. |
| Þolf. (*acc.*), | *diĕm*, | dag. |
| Eignarf. (*gen.*), | *diēī*, | dags. |
| Þáguf. (*dat.*), | *diēī*, | degi. |
| Staðarf. (*abl.*), | *diē*, | degi. |

Fleirtala (*plural.*).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *diēs*, | dagar. |
| Þolf. (*acc.*), | *diēs*, | daga. |
| Eignarf. (*gen.*), | *diērum*, | daga. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *diēbus*, | dögum. |

b, *res*, hlutur.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *rēs*, | hlutur. |
| Þolf. (*acc.*), | *rĕm*, | hlut. |
| Eignarf. (*gen.*), | *rĕi*, | hlutar. |
| Þáguf. (*dat.*), | *rĕi*, | hlut. |
| Staðarf. (*abl.*), | *rē*, | hlut. |

Feirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *rēs*, | hlutir. |
| Þolf. (*acc.*), | *rēs*, | hluti. |
| Eignarf. (*gen.*), | *rērum*, | hluta. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *rēbus*, | hlutum. |

76. gr. Af þeim orðum, er hneigjast eftir þessari fallbreytingu, hafa að eins *res* og *dies* fulla fleirtölu í al-tíðu máli; fá önnur, t. d. *species* (sjón, mynd, sýn; tegund), og *spes* (von), hafa nefnif. og þolf. fleirtöl. (*nom.* og *acc. plural.*), en síður önnur föll fleirt. (eignarf., þáguf. og staðarf.; *genit.*, *dativ.* og *ablat. plural.*).

77. gr. Þau orð, er ganga eftir þessari fallbreytingu, eru flest kvennkyns; *dies* er í eintölu karlk., og, einkum ef talað er um ákveðinn dag eður ákveðinn tíma, kvennk. (*die constitutā*, að

ákveðnum degi; *dies dictă*, stefnudagur; stefna); í fleirtöl. er það jafnan karlk. *Meridies*, miðdegi; suður, er karlk.

## V. Fimti kafli.

### Nokkrar athugasemdir við nafnorðin.

78. gr. Sum orð eru að eins höfð í eintölu (*singularia tantum*), sum að eins í fleirtölu (*pluralia tantum*); í eintölu að eins eru t. d. höfð: *aurum*, gull; *triticum*, hveiti; *sanguis*, blóð; *audītus*, heyrn; *senectus*, elli; *humanĭtas*, mannúð; *Roma*, Rómaborg; í fleirtöl. að eins eru t. d. höfð: *arma*, vopn; *divitiae*, auðlegð; *majōres*, forfeður, forellrismenn; *Athēnae*, Aþenuborg.

79. gr. Sum orð fá aukna eða ýmislega breytta merking í fleirtölu, t. d. *litĕra*, bókstafur, í fleirtöl. *litĕrae*, bókstafir; letur; bókfræði; brèf (bæði um eitt brèf og fleiri); *impedimentum*, tálman, hindran; í fleirtöl. *impedimenta*, tálmanir, hindranir; farangur.

80. gr. Af sumum orðum eru að eins höfð nokkur föll; eru þau þá kölluð vanfölluð (*defectīva casibus*).

*a*, sum orð vantar nefnifall og ávarpsf., og eru þá fjórfölluð (*tetra-ptōta*), t. d. *dicio*, forræði, vald.

*b*, sum eru þrífölluð (*tri-ptōta*), t. d. *ops*, hjálp, fullting, í eintölu að eins haft í þolf., eignarf. og staðarf. (*acc.*, *gen.* og *abl.*); fleirtala *opes*, ríki, vald; auðæfi, er alfalla.

β, *vix* (eða *vicis*), skifti, víxl; umskifti, hefir og í eintölu að eins þolf., eignarf. og staðarf.; í fleirtölu nefnif., þolf. og staðarf. (*nom.*, *acc.* og *abl.*).

γ, *vīs*, kraftur, afl; ofríki, er í eintölu venjulega haft að eins í nefnif., þolf. og staðarf. (*vis*, *vim*, *vi*), en þó og í eignarf. og þáguf. (*gen.* og *dat.*; *vis*, *vi*); í fleirtölu hefir það öll föll (*vīres*, *virium*, *viribus*).

δ, hvorugkynsorðið *mane*, morgun, er haft óbreytt í nefnif., þolf. og staðarf. eintölu.

*c*, tvífölluð (*di-ptōta*) eru t. d. *fas*, máttuleikur, mögulegleikur; hœfa; *nefas*, ómáttuleikur, ómögulegleikur; óhœfa; *instar*, ílíki, ígildi, og eru þau að eins höfð í hinum óbreytilegu hvorugkendu föllum eintölunnar, nefnifalli og þolf.; *fors*, atburður, atvik, haft í nefnifalli eintölu, og sjaldan í staðarf., nema í hinni sèrstaklegu merkingu: *forte*, af atburð; svo bar við, að; *spons*, vild; ramleikur; vald, ráð, haft í eignarf. og staðarf. eintölu: *suae spontis esse*, vera sjálfum sèr ráðandi; *suā sponte*, af eiginni vild; af eignum ramleik.

β, *frux,* not, gagn; siðgœði, siðvendi; siðferði; ávöxtur, er í eintöl. oftast haft í þolf. (*acc.*), og þáguf. (*dat.*); þó er þágufallsmyndin *frugi* einkum höfð að lýsingarorði, með merkingunum: nýtur; góður; siðgóður, siðvandur; hófsamur; fleirtalan *fruges,* jarðgróði; ávextir, er alfalla (eignarf. *frugum,* þáguf. og staðarf. *frugibus*).

*d,* einfölluð (*mono-ptōta*) eru t. d. *dix* (eða *dicis,* mál), að eins haft í eignarf. eintölu í orðtökunum: *dicis causa* og *dicis gratia,* til málamynda.

β, bón, bœn, er lítið haft í eintöl., nema staðarfall. *prece* er eigi sjaldan haft, einkum hjá skáldum; fleirtala *preces,* bœnir, *precum, precibus,* alfalla. *Faux,* kok, (kverk), er og lítið haft í eintöl., nema staðarf. er stundum haft hjá skáldum; fleirtala *fauces,* kok; kverkar, *faucium, faucibus,* alfalla.

γ, nokkur nafnorð, er mynduð eru af sagnorðum, og endast á *tus* eða *sus,* eru að eins höfð í staðarfalli eintölu (*abl. sing.*), t. d. *rogatu tuo,* eftir bón þinni (af nefnifallsmynd *rogatus*); *accitu ejus,* eftir orðsendingu hans; *vestro jussu coactus* (*Cicero*); *grandis natu* (mikill að aldri, þ. e.), aldraður, gamall (af *natus,* fœðing; aldur, áratala); *minor natu* (minni að áratölu, þ. e.), yngri; *vir magno natu* (maður með mikilli áratölu, þ. e.), aldraður maður.

δ, af *pondus* (eða *pondum*) eftir annari fullbreytingu: vog, vætt, þungi, þyngd, myndast fyrst staðarfall eintölu (*abl. singul.*) *pondo,* að þyngd (*coronam auream, libram pondo*), en síðan er *pondo* haft sem alfallað, óbreytilegt fleirtöluorð, og merkir þá: pund, punda, pundum.

81. gr. Bókstafirnir *a, b, c,* o. s. frv., eru óbreytilegir (*indeclinabiles*) í öllum föllum eintölu (og fleirtölu); svo er og um nokkur fleiri orð, einkum ólatnesk og ógrísk (þ. e. t. d. ebresk) eiginnöfn: *Loth, Ruth, Gabriel, Bethleem.* Um *pondo* er talað síðast í næstu grein hèr á undan.

82. gr. Nokkur orð eru fleirmynduð (*abundantia*), þ. e. þau hafa ýmislega mynd í einu falli eða fleirum. Að því leyti sem slík orð hneigjast ýmislega, eru þau kölluð fleirhneigileg eða tvíhneigileg (*abundantia declinatione, heteroclĭta*); þau eru og oft fleirkynja eða tvíkynja (*abundantia genere, heterogenĕa*).

Nokkur þessara orða hneigjast,

*a,* eftir fyrstu fallbreytingu, en með tvífaldri mynd, bæði sem *formă* og *epitŏmē,* t. d. *poētĭcă* og *poētĭcē,* skáldskaparment, skáldskaparfrœði.

*b,* eftir fyrstu og annari fallbreytingu, t. d. *aranea* og *araneus,* kongurváfa, kónguló; *mendum* og *menda,* lýti, yfirsjón; villa.

*c,* eftir fyrstu, annari og þriðju, *vespĕra* og *vesper,* kveld, aftan. Orðmyndin *vespera* er alfalla eftir fyrstu fallbreytingu; en *vesper* haft í nefnif. og þolf., og sjaldan í þáguf., eftir annari: *vesper, vespĕrum,* og *vespero* (*Ammian.* 37, 7, 15); en í staðarf. eftir þriðju: *vespĕre* og *vespĕri,* en þó er einkum haft *vesperi* með hinum sèrstaklegu merkingum: að kveldi (dags); um kveld; um kveldið; á kveldin. *Vesper,* kveldstjarna, er alhneigilegt eftir annari.

*d,* eftir fyrstu og fimtu, t. d. *luxuria* og *luxuries,* óhóf (eignarf., þáguf. og staðarf. tíðkanleg eftir fyrstu).

*e,* eftir annari með tvíföldu kyni, t. d. *balteus* og *balteum,* fetill; belti; *bacŭlum* og *bacŭlus,* stafur; bagall; *jocus,* gaman, fleirtala *joci* og *joca; locus,* staður; grein, atriði; fleirtala *loca,* staðir; greinir, atriði, og *loci,* greinir, atriði; staðir; *caelum* himin, fleirtala *caeli,* himnar. *Caelus,* guðsheiti, haft í eintölu.

*f,* eftir annari og þriðju, t. d. *jugĕrum,* dagplœgi, dagplœgja (litlu minna en hálf engja-dagslátta), það hefir nafnf., þolf. og eignarf. eintölu (*jugerum, jugeri*) eftir annari; staðarf. eintöl. eftir annari og þriðju (*jugero* og *jugere*); nefnif., þolf. og eignarf. fleirtölu eftir annari eða þriðju (*jugera, jugerum*), og staðarf. fleirtölu eftir þriðju og annari (*jugeribus* og *jugeris*). *Vas,* eignarf. *vasis,* o. s. frv., eftir þriðju fallbreytingu (og úrelt mynd *vasum,* eftir annari), hneigist í fleirtölu einungis eftir annari: *vasa, vasorum, vasis.*

*g,* eftir annari, þriðju og fjórðu, *penus*; það hefir í eignarf. 1) *penūs,* eftir fjórðu (kvk.); 2) *penŏris,* eftir þriðju (hvk.); 3) *peni,* eftir annari (kk. og kvk.). Önnur mynd *penum* (hvk.) hneigist og eftir annari.

*h,* eftir annari og fjórðu, t. d. *tonitruum* og *tonitrus,* þruma. Svo er og um nokkur trjáheiti, er endast á *us,* og hafa í nefnif. og þolf. eintöl. (*nomin.* og *accus. singul.*) sameignar fallmyndir eftir annari fallbreytingu og fjórðu, að þau hafa sum önnur föll fremur eftir annari en fjórðu, sum fremur eftir fjórðu, og sum eftir báðum; svo hefir t. d. *ficus,* fíktrè, eignarf. og þáguf. eintöl. (*gen.* og *dat. sing.*), og eignarf., þáguf. og staðarf. fleirtöl. (*gen., dat.* og *abl. plural.*), eftir annari; nefnif. og þolf. fleirtöl. (*nom.* og *acc. plur.*) eftir annari og fjórðu; staðarf. eintöl. (*abl. sing.*) eftir fjórðu og annari. *Cupressus,* kúpresstrè, hefir eignarf. eintöl. eftir annari og fjórðu; nefnif., þolf. og þáguf. fleirtöl. eftir ann-

ari, en staðarf. eintöl. eftir fjórðu og annari. *Laurus*, *lártrè*, hefir eignarf. og staðarf. eintöl., og ávarpsf. (*vocat.*), og þolf. fleirtöl. eftir annari og fjórðu, en þáguf. eintöl., og nefnif. og þáguf. fleirtöl. eftir annari.

*i*, eftir þriðju með ýmislegum stofni, *femur*, lær, eignarf. *femŏris* (*stofn femor*), og *femĭnis* (stofn *femen*), o. s. frv.; *iter*, eignarf. *itinĕris* (af úreltri nefnifallsm. *itĭner*); *jecur*, lifur, eignarf. *jecŏris* (og *jecinŏris*, *jocinĕris*, *jocinŏris*).

*j*, eftir þriðju, *pecus*; það hefir í eignarf. *pecŭdis* (kvennkyns), og merkir þá: skepna, og *pecŏris* (hvorugk.), og merkir þá: fè, búfè, fènaður; og eftir fjórðu *pecu*, eignarf. *pecūs* (hvorugk.), fènaður.

*k*, eftir þriðju og fimtu, t. d. *colluvio* og *colluvies*, skolp, óþverri.

*l*, eftir fjórðu og annari, t. d. *eventus* og *eventum*, atburður; endalok; *angiportus* og *angiportum*, öngstræti, mjóstræti, smástræti. Nokkur orð hneigjast og í ýmsum föllum ýmist eftir fjórðu eða annari, t. d. *pinus*, fura; píntrè, hefir eignarf. og staðarf. eintöl., og þolf. fleirtöl., eftir fjórðu og annari; nefnif. fleirtöl. eftir fjórðu; þáguf. eintöl., og eignarf., þáguf. og staðarf. fleirtöl. eftir annari. *Quercus*, eik, eikitrè, hefir staðarf. eintöl., og nefnif. og þolf. fleirtöl., eftir fjórðu; eignarf. eintöl. eftir fjórðu og annari, og eignarf. fleirtöl. eftir annari (*Cicero* hjá *Priscian*). *Colus*, ullteinn; spinniteinn, hefir eignarf. eintöl., og nefnif. fleirtöl., eftir fjórðu; staðarf. eintöl. eftir fjórðu og annari, en þolf. fleirtöl. eftir annari og fjórðu.

β, orðið *domus*, hús, hneigist svo (eftir fjórðu og annari fallbreytingu).

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *domŭs*, | hús. |
| Þolf. (*acc.*), | *domum*, | hús. |
| Eignarf. (*gen.*), | *domūs*, | húss. |
| Þáguf. (*dat.*), | *domui* (og *domo*), | húsi. |
| Staðarf. (*abl.*), | *domo* (og *domū*), | húsi. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *domūs*, | hús. |
| Þolf. (*acc.*), | *domos* (og *domūs*), | hús. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *domibus*, | húsum. |

γ, eignarfallsmyndin *domi* (eftir annari fallbreytingu) er höfð í hinni sèrstaklegu merkingu: heima; *domi meae*, heima hjá mèr;

*domi nostrae,* heima hjá oss; *domi ejus,* heima hjá honum, o. s. frv.

*m,* eftir fjórðu með tvífaldri mynd, *gelus* (karlk.), og *gelu* (hvorugk.), og annari með einfaldri mynd, *gelum* (hvorugk.), frost.

83. gr. Orðið Ĭēsūs (og Jēsūs) hefir í þolf. (*acc.*) Ĭēsum (og *Jēsum*), en í hinum fjórum föllunum Ĭēsū (og *Jēsū*).

84. gr. Trjáheiti þau, er hneigjast eftir annari og fjórðu hneigingu (*ficus, cupressus, laurus*), eða eftir fjórðu og annari (*pinus* og *quercus*), eru kvennkyns, svo og orðið *domus*; *colus* er oftast kvennkyns, sjaldan karlk.

*b,* bókstafirnir *a, b, c,* o. s. frv., eru kvorugk. og kvennk.

## VI. Sètti kafli.

### Lýsingarorð (adjectiva).

85. gr. Lýsingarorð deilast í þrjá höfuðflokka; í fyrsta flokki eru þau, er hafa þrjár endingar í nefnifalli eintölu (*nominat. singular.*): *us* í karlkyni, *a* í kvennk., *um* í hvorugk.; *r* í karlk., *ra* í kvennk., *rum* í hvorugk.; þau hneigjast eftir annari fullbreytingu (*declinatio*) í karlk. og hvorugk., en eftir fyrstu í kvennk. Í öðrum flokki eru þau, er hafa tvær endingar í nefnifalli eintölu: *is* í karlk. og kvennk., *e* í hvorugk.; þau hneigjast eftir þriðju fallbreytingu. Í þriðja flokki eru þau, er hafa eina ending í nefnifalli eintöl., *x, s, r;* þau hneigjast og eftir þriðju fallbreytingu.

86. gr. Lýsingarorð fyrsta flokks hneigjast svo.

a, *purus*, hreinn; *pura*, hrein; *purum*, hreint.

Eintala.

| | | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *purus*, | hreinn; hinn hreini; | *purā*, | hrein; hin hreina; | *purum*, | hreint; hið hreina. |
| ávarpsf. (*voc.*), | *purĕ*, | hreinn; hinn hreini; | *purā*, | hrein; hin hreina; | *purum*, | hreint; hið hreina. |
| Þolf. (*acc.*), | *purum*, | hreinan; hinn hreina; | *puram*, | hreina; hina hreinu; | *purum*, | hreint; hið hreina. |
| Eignarf. (*gen.*), | *puri*, | hreins; hins hreina; | *purae*, | hreinnar; hinnar hreinu; | *puri*, | hreins; hins hreina. |
| Þáguf. (*dat.*), | *puro*, | hreinum; hinum hreina; | *purae*, | hreinni; hinni hreinu; | *puro*, | hreinu; hinu hreina. |
| Staðarf. (*abl.*), | *puro*, | hreinum; hinum hreina; | *purā*, | hreinni; hinni hreinu; | *puro*, | hreinu; hinu hreina. |

Fleirtala.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *puri*, | hreinir; hinir hreinu; | *purae*, | hreinar; hinar hreinu; | *pura*, | hrein; hin hreinu. |
| Þolf. (*acc.*), | *puros*, | hreina; hina hreinu; | *puras*, | hreinar; hinar hreinu; | *pura*, | hrein; hin hreinu. |
| Eignarf. (*gen.*), | *purorum*, | hreinna; hinna hreinu; | *purarum*, | hreinna; hinna hreinu; | *purorum*, | hreinna; hinna hreinu. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *puris*, | hreinum; hinum hreinu; | *puris*, | hreinum; hinum hreinu; | *puris*, | hreinum; hinum hreinu. |

β, lýsingarorðið *totus*, allur, heill, er frábrugðið *purus* að því, að það hefir *totīus* í eignarf. eintöl. (*gen. singul.*) í öllum kynjum, og *totī* í þáguf. eintöl. (*dat. singul.*).

*b*, ***liber***, frjáls (í karlk.), ***libera***, frjáls (í kvennk.), ***liberum***, frjálst (í hvorugk.).

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *liber*, | frjáls; | *libĕra*, | frjáls; | *libĕrum*, | frjálst. |
| Þolf. (*acc.*), | *libĕrum*, | frjálsan; | *libĕram*, | frjálsa; | *libĕrum*, | frjálst, |

o. s. frv. sem *purus*, *pura*, *purum*.

87. gr. Öll þau lýsingarorð, er endast á *r*, *ra*, *rum*, hafa *e* næst á undan *r* í nefnif. og ávarpsf. eintöl. (*nominat.* og *vocat. singul.*), nema *satur*, *satŭra*, *satŭrum*, mettur, saddur; en í nær helmingi þeirra er *e* eigi haft í neinu öðru falli eða kyni í eintöl. eða fleirtöl.: *creber*, *crebra*, *crebrum*, iðulegur, tíður; þèttur; (eigi *crebera*, *creberum* í kvennkyni og hvorugk.).

*b*, í *dexter*, hægri, er *e* ýmist eigi haft, og hneigist *dexter* þá sem *creber*: *dexter*, *dextra*, *dextrum*; eða *e* er haft sem í *liber*: *dexter*, *dextera*, *dexterum*.

88. gr. Lýsingarorð annars flokks hneigjast svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *gravis*, | þungur; | *gravis*, | þung; | *grave*, | þungt. |
| Þolf. (*acc.*), | *gravem*, | þungan; | *gravem*, | þunga; | *grave*, | þungt. |
| Eignarf. (*gen.*), | *gravis*, | þungs; | *gravis*, | þungrar; | *gravis*, | þungs. |
| Þáguf. og ávarpsf. (*dat.* og *abl.*), | *gravi*, | þungum; | *gravi*, | þungri; | *gravi*, | þungu. |

3

Fleirtala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *graves*, | þungir; | *graves*, | þungar; | *gravia*, | þung. |
| Þolf. (*acc.*), | *graves*, | þunga; | *graves*, | þungar; | *gravia*, | þung. |
| Eignarf. (*gen.*), | *gravium*, | þungra; | *gravium*, | þungra; | *gravium*, | þungra. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *gravibus*, | þungum; | *gravibus*, | þungum; | *gravibus*, | þungum. |

89 gr. Nokkur lýsingarorð hafa tvífalda mynd, *er* (og *ris*), í nefnif. og ávarpsf. eintöl. (*nom.* og *voc. singul.*) í karlkyni; þau eru *acer* (og *acris*) í karlkyni, hvass; hvatur; snarpur; harður; í kvennkyni *acris*, í hvorugk. *acre; alăcer* (og *alacris*), fjörugur; hvatlegur; hvatur; fús; *celĕber* (og *celebris*), fjölsóttur; fjölfarinn; fjölbygður; frægur, ágætur; *equester* (og *equestris*), riddaralegur, riddara-; ríðaralegur, ríðara-; *paluster* og *palustris*, mýrlegur; mýr-, mýrar-; *pedester* og *pedestris*, fótgangandi, fótgöngu-; fótgöngumanns-; fótgöngumanna-; land-; *terrester* og *terrestris*, jarðlegur; jarð-; landlegur, land-; *volŭcer* (og *volucris*), fleygur; skjótur. Orðin *september*, sjöundi; sjöunda mánaðar; *octōber*, áttundi; áttunda mánaðar; *november*, níundi; níunda mánaðar, og *december*, tíundi; tíunda mánaðar, endast og á *er* og *ris;* þó er *er*- endingin tíðkanlegri í þeim.

β, *celer* (og *celĕris*), fljótur, hefir í kvennk. *celĕris*, og í hvorugk. *celĕre* (eigi *celris* og *celre*).

*b*, tvífalda mynd, *ris* og *er*, í nefnif. og ávarpsf. eintölu í karlkyni hafa orðin *campestris* (og *campester*), flatlendur; *salubris* (og *saluber*), heilsamlegur, heilnæmur, og *silvestris* (og *silvester*), skóglendur, skógi vaxinn; skógar-.

90. gr. Orðmyndin *dis* (í karlkyni og kvennk., stytt fyrir *dives*, auðugur) hefir í hvorugkyni *dite;* þolf. *ditem* og *dite;* eignarf. *ditis*, o. s. frv.; fleirtala *dites*, *ditia*, o. s. frv.

91. gr. Lýsingarorð þriðja flokks hneigjast svo.

a, *ferax*, frjósamur, frjósöm, frjósamt.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *ferax*, | frjósamur; | *ferax*, | frjósöm; | *ferax*, | frjósamt. |
| Þolf. (*acc.*), | *ferācem*, | frjósaman; | *feracem*, | frjósama; | *ferax*, | frjósamt. |
| Eignarf. (*gen.*), | *ferācis*, | frjósams; | *feracis*, | frjósamrar; | *feracis*, | frjósams. |
| Þáguf. (*dat.*), | *ferāci*, | frjósömum; | *feraci*, | frjósamri; | *feraci*, | frjósömu. |
| Staðarf. (*abl.*), | *ferāci* (og *ferace*), | frjósömum; | *feraci* (og *ferace*), | frjósamri; | *feraci* (og *ferāce*), | frjósömu. |

Fleirtala.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *ferāces*, | frjósamir; | *ferāces*, | frjósamar; | *feracĭa*, | frjósöm. |
| Þolf. (*acc.*), | *ferāces*, | frjósama; | *ferāces*, | frjósamar; | *feracĭa*, | frjósöm. |
| Eignarf. (*gen.*), | *feracĭum*, | frjósamra; | *feracĭum*, | frjósamra; | *feracĭum*, | frjósamra. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *feracĭbus*, | frjósömum; | *feracĭbus*, | frjósömum; | *feracĭbus*, | frjósömum. |

b, *sapiens*, spakur, spök, spakt.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *sapiens*, | spakur; | *sapiens*, | spök; | *sapiens*, | spakt. |
| Þolf. (*acc.*), | *sapientem*, | spakan; | *sapientem*, | spaka; | *sapiens*, | spakt, |

o. s. frv. sem *ferax*.

92. gr. Lýsingarorð þriðja flokks hafa í staðarf. eintölu (*abl. sing.*) venjulega *i*, sjaldnar *e*: *ferācī* og *feracĕ*; *sapienti* og *sapiente*; *i* eingöngu hafa *par*, jafn, og samsetning þess *dispar*, ójafn; svo og *memor*, minnugur, og samsetning þess *immemor*, óminnugur; (*compar*, samjafn, og *impar*, ójafn, hafa *i* og *e*); *e* eingöngu hafa *caelebs*, eignarf. *caelĭbis*, ókvæntur, konulaus; mannlaus; *deses*, eignarf. *desĭdis*, aðgjörðalaus; *pauper*, eignarf. *paupĕris*, fátœkur; *princeps*, eignarf. *princĭpis*, fyrstur, fremstur, helztur; *pubes* (og *puber*), eignarf. *pubĕris*, frumvaxta; *senex*, eignarf. *senis* (og úrelt *senĭcis*), gamall, aldraður; *sospes*, eignarf. *sospĭtis*, heill, óskaddur; *superstes*, eignarf. *superstĭtis*, (sá) er lifir eftir; og enn fremur samsetningar af *pos* (eða *potis*): *compos*, eingarf. *compŏtis*, ráðandi, hafandi, og *impos*, eignarf. *impŏtis*, eigi ráðandi, eigi hafandi. *Dives*, eignarf. *divĭtis*, auðugur, og *vetus*, eignarf. *vetĕris*, gamall, forn, hafa *e* (og *i*).

93. gr. Lýsingarorð annars flokks endast í hvorugk. fleirtölu í nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*) á *ia*: *gravis*, *gravia*; *acer*, *acria*; *celer*, *celeria*.

94. gr. Lýsingarorð þriðja flokks endast og í hvorugkyni fleirtölu í nefnif., ávarpsf. og þolf. á *ia*: *ferax*, *ferācia*; *sapiens*, *sapientia*.

*b*, *vetus*, gamall, gömul, gamalt, hefir í hvorugk. fleirtölu *a*: *vetera* (eigi *veteria*).

95. gr. Af lýsingarorðum þriðja flokks hafa þau, er endast á *ax*, *ix*, *ox*, *ans*, *ens*, *as*, *rs*, nefnif., ávarpsf. og þolf. í hvorugkyni fleirtölu: *ferax*, *ferācia*; *felix* (farsæll), *felīcia*; *atrox* ([svartur, svartleitur]; greypur, grimmlegur, harður), *atrōcia*; *elegans* (snotur, fagur), *elegantia*; *sapiens*, *sapientia*; *Arpinas* (arpínskur), *Arpinatia*; *iners* (löskur, dáðlaus), *inertia*; *concors* (samlyndur), *concordia*; svo og nokkur einstök orð með ýmsum öðrum endingum í nefnif. eintölu, t. d. *hebes* (slær, sljór), í nefnif., ávarpsf. og þolf. hvorugkyns í fleirtölu *hebĕtia*; *locuples* (landauðugur; auðugur; skilríkur, áreiðanlegur), *locuplētia*; *par* (jafn), *paria*; og enn fremur samsetningarnar af *caput*: *anceps* (tvíhöfðaður; tvíeggjaður; tvískiftur; tvísýnn), *ancipĭtia*, og *praeceps* (á höfuðið; sem fœtur toga; snarbrattur, þvergníptur), *praecipĭtia*.

*b*, af nokkurum lýsingarorðum þessa flokks hefir eigi fundizt nefnif., ávarpsf. og þolf. fleirtölu í hvorugkyni, t. d. af *compos*, *dives*, *memor*, *pauper*, *princeps* (fyrstur; fremstur); *supplex* (auðmjúkur, mjúklátur, bljúgur); *trux* (ýgur, illúðlegur); *vigil* (vakandi);

þó eru sum af þessum orðum stundum höfð í staðarf. (og þáguf.) fleirtölu í hvorugk., t. d. *supplicibus verbis*, með mjúklátlegum orðum (*Virgill*).

96. gr. Lýsingarorð annars flokks hafa *ium* í eignarf. fleirtölu (*gen. plur.*): *gravis*, *gravium; acer*, *acrium; salubris*, *salubrium.*

*b*, af lýsingarorðinu *celer* (í nefnif. fleirtölu *celeres* og *celeria*) hefir eigi fundizt eignarf. fleirtölu; hið fleirtallega nafnorð *celeres* (hraðfara menn), riddarar (konungs-lífvörður), hefir í eignarf. fleirtölu *celerum.*

97. gr. Lýsingarorð þriðja flokks hafa og *ium* í eignarf. fleirtölu: *ferax, ferācium; sapiens*, *sapientium.*

*b*, nokkur lýsingarorð þessa flokks, einkum sum þeirra, er hafa eigi fundizt í nefnif., ávarpsf. og þolf. fleirtölu í hvorugkyni, hafa *um* í eignarf. fleirtölu, t. d. *cicur*, tamur, mannvanur; eignarf. fleirt. *cicurum; dives*, auðugur; eignarf. fleirt. *divitum; memor*, minnugur, *memorum; pauper,* fátœkur, *pauperum; princeps*, *principum; supplex*, *supplicum; vigil*, vakandi, *vigilum; bipes*, tvífœttur, *bipedum.*

*c*, af sumum lýsingarorðum þessa flokks hefir eigi fundizt eignarf. fleirt., t. d. af *hebes*, eignarf. eintöl. *hebĕtis.*

98. gr. Nokkur lýsingarorð hafa tvífalda ending, t. d. *opulentus* og *opulens*, máttugur, auðugur; *violentus* (og *violens*), ofbeldissamur, ofsalegur.

99. gr. Nefnifall eintölu í karlkyni finst eigi af nokkurum lýsingarorðum, t. d. karlkynsmyndin *ceter* eða *cetĕrus*, annar; hinn; kvennk. er *cetĕra*, hvorugk. *cetĕrum.*

100. gr. Nokkur lýsingarorð eru lítið höfð í eintölu, t. d. *paucus*, fár; *plerusque*, flestur.

101. gr. Þágufallsmyndin *frugi*, gagnlegur, nýtur, siðsamur, hófsamur (af *frux*), er höfð sem óbreytilegt lýsingarorð, svo og orðmyndin *nequam*, illur.

102. gr. Lýsingarorðið *necessis*, nauðsynlegur; óhjákvæmilegur, óumflýjanlegur, er að eins haft í hvorugkyni eintölu í orðasamböndunum *necesse est* og *necesse habeo.*

103. gr. Nafnorðið *opus*, verk, er í merkingunni *þörf* haft að óbreytilegu lýsingarorði í nefnif. og þolf. í eintölu og fleirt.: *opus est, opus sunt*, *opus esse.*

### Stigbreyting (*comparatio*) lýsingarorða.

104. gr. Lýsingarorð hafa þrjú stig (*gradūs*): frumstig (*gradus positīvus*), miðstig (*gradus comparatīvus*), og yfirstig (*gradus superlatīvus*).

105. gr. Miðstigsendingarnar eru *ior* í karlkyni og kvennk., og *ius* í hvorugk. Yfirstigsendingarnar eru *issĭmus* í karlk., *issĭma* í kvennk., og *issĭmum* í hvorugk.

106. gr. Endingum miðstigs og yfirstigs er bœtt við meginhlut lýsingarorðsins, þann er eftir verður, þá er eignarfallsending eintölu er burt tekin, t. d. *purus*, eignarf. eintölu (*gen. sing.*), *pur-i*, *pur-ae*, *pur-i;* miðstig *pur-ior*, hreinni; heldur hreinn, í hreinna lagi; *liber*, *liber-ior; creber*, *crebr-ior; gravis*, *gravior; ferax*, *feracior; sapiens*, *sapientior;* yfirstig, *pur-issimus*, hreinastur; mjög hreinn; *gravissimus*, *feracissimus*, *sapientissimus*.

107. gr. Miðstig (*comparativus*) og yfirstig (*superlativus*) hneigjast svo.

*a*) miðstig.

Eintala.

| | Karlkyn og kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *purior*, | hreinni; | *purius*, | hreinna. |
| Þolf. (*acc.*), | *puriōrem*, | hreinna; hreinni; | *purius*, | hreinna. |
| Eignarf. (*gen.*), | *puriōris*, | hreinna; hreinni; | *puriōris*, | hreinna. |
| Þáguf. (*dat.*), | *puriōri*, | hreinna; hreinni; | *puriōri*, | hreinna. |
| Staðarf. (*abl.*), | *puriōre* (og *puriori*), | hreinna; hreinni; | *puriōre* og *puriori*, | hreinna. |

Fleirtala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Nefnif., ávarpsf. og þolf. (*nom.*, *voc.* og *acc.*), | *puriōres*, | hreinni; | *puriōra*, | hreinni. |
| Eignarf. (*gen.*), | *puriōrum*, | hreinni; | *puriōrum*, | hreinni. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *puriōrĭbus*, | hreinni; | *puriōrĭbus*, | hreinni. |

*b*, yfirstig.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *purissimus*, | hreinastur; | *purissima*, | hreinust; | *purissimum*, | hreinast. |
| Ávarpsf. *voc.*), | *purissime*, | hreinastur; | *purissima*, | hreinust; | *purissimum*, | hreinast. |
| Þolf. (*acc.*), | *purissimum*, | hreinastan; | *purissimam*, | hreinasta; | *purissimum*, | hreinast. |
| Eignarf. (*gen.*), | *purissimi*, | hreinasts; | *purissimae*, | hreinastrar; | *purissimi*, | hreinasts. |
| Þáguf. (*dat.*), | *purissimo*, | hreinustum; | *purissimae*, | hreinastri; | *purissimo*, | hreinustu. |
| Staðarf. (*abl.*), | *purissimo*, | hreinustum; | *purissima*, | hreinastri; | *purissimo*, | hreinustu. |

Fleirtala.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *purissimi*, | hreinastir; | *purissimae*, | hreinastar; | *purissima*, | hreinust. |
| Þolf. (*acc.*), | *purissimos*, | hreinasta; | *purissimas*, | hreinastar; | *purissima*, | hreinust. |
| Eignarf. (*gen.*), | *purissimorum*, | hreinastra; | *purissimarum*, | hreinastra; | *purissimorum*, | hreinastra. |
| Þáguf. og staðarf. (*dat.* og *abl.*), | *purissimis*, | hreinustum, | í öllum kynjum. | | | |

108. gr. Ef lýsingarorðið endast á *er*, bœtist *rĭmus* aftan við *er* í yfirstigi: *liber*, *liberrĭmus*, frjálsastur; *creber*, *creberrimus; acer*, *acerrimus; pauper*, *pauperrimus*. *Vetus* (forn mynd *veter*) hefir *veterrimus; salubris* (og *saluber*), *saluberrimus; prospĕrus* (og *prosper*), hamingjusamlegur, giftusamlegur, *prosperrimus; matūrus*, fullþroska, fullvaxinn; snemmgrœr, snemmkvæmur, *maturissimus* og *maturrimus*.

109. gr. Í lýsingarorðunum *facĭlis*, auðveldur; *diffĭcĭlis*, torveldur; *gracĭlis*, grannur; *humĭlis*, lágur; *simĭlis*, líkur, og *dissimĭlis*, ólíkur, bœtist yfirstigsendingin *lĭmus* aftan við meginhlutann: *facillĭmus*, auðveldastur.

110. gr. Orðin *benefĭcus*, góðvirkur; *benevŏlus*, (og *benevŏlens*), velviljaður, góðfús; *maledĭcus* (og *maledĭcens*), illmáll; *malefĭcus*, illvirkur; *malevŏlus* (og *malevŏlens*), illviljaður, og *munifĭcus*, gjöfull, örlátur, hafa *entior* í miðstigi, og *entissimus* í yfirstigi, t. d. *beneficentior*, góðvirkari; *beneficentissĭmus*, góðvirkastur.

111. gr. Stigbreyting (*comparatio*) nokkurra lýsingarorða er afbrigðileg, og er stofn sumra þeirra ýmislegur í ýmsum stigum; þau eru:

| Frumstig (*positiv.*). | Miðstig (*comparativ.*). | Yfirstig (*superlativ.*). |
|---|---|---|
| *a, bŏnus,* góður; | *mĕlior,* betri; | *optĭmus,* beztur. |
| *b, mălus,* illur, vondur; | *pējor,* verri; | *pessĭmus,* verstur. |
| *c, magnus,* mikill, stór; | *mājor,* meiri, stœrri; | *maxĭmus,* mestur; stœrstur. |
| *d, parvus,* lítill; | *mĭnor,* minni; | *minĭmus,* minstur. |
| *e, propinquus,* náinn, nálægur; | *propior,* nánari, nálægari; | *proxĭmus,* nánastur, næstur. |
| *f, multus,* margur, | (vantar); | *plurĭmus,* flestur, |
| *multa,* mörg, | | *plurĭma,* flest, |
| *multum,* margt; | | *plurĭmum,* flest; |
| mikill, | | mestur, |
| mikil, | | mest, |
| mikið. | | mest. |

β, hvorugkynsmynd eintölu höfð með nafnorðseðli (*neutrum singulare* haft *substantivaliter*).

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *multum,* mikið; | *plūs,* meira; | *plurimum,* mest. |
| Þolf. (*acc.*), | *multum,* mikið; | *plus,* meira; | *plurimum,* mest. |
| Eignarf. (*gen.*), | (vantar); | *plūris,* meira; | *plurimi,* mests. |
| Staðarf. (*abl.*), | *multo,* miklu; | (*plure,* meira); | *plurimo,* mestu. |

Fleirtala.

| | | |
|---|---|---|
| *multi,* margir; | *plures,* fleiri; | *plurimi,* flestir. |
| *multae,* margar; | *plures,* fleiri; | *plurimae,* flestar. |
| *multa,* mörg; | *plura,* fleiri; | *plurima,* flest. |

Eignarf. *plurium.*

β, hvorugkynsmynd eintölu höfð með nafnorðseðli.

| | | |
|---|---|---|
| *multa,* margt; | *plura,* fleira; | *plurima,* flest. |
| *g, nēquam,* ónýtur, illur; | *nequior,* verri; | *nequissimus,* verstur. |
| *h, frūgi,* hófsamur; sparsamur; | *frugālior,* hófsamari; | *frugalissimus,* hófsamastur. |
| *i, jŭvĕnis,* ungur; | *jūnior,* yngri. | |
| *j, sĕnex,* gamall; | *senior,* eldri. | |

112. gr. Nokkur orð eru altíð í miðstigi og yfirstigi, en lítið, eða alls eigi, höfð í frumstigi, nema í ýmsum orðatiltækjum; þau eru:

| Miðstig. | Yfirstig. | Frumstig. |
|---|---|---|
| *a, citĕrior,* hèðari, nánari; | *citĭmus,* hèðastur, nánastur, næstur; | *citer* (hèrlegur), lítið haft. |

| Miðstig. | Yfirstig. | Frumstig. |
|---|---|---|
| b, *extĕrior,* ytri; | *extrēmus* (og *extĭmus*), yztur; | *exter* og *extĕrus* (útlegur); |

frumstig lítið haft, nema í fleirtölu í ýmsum orðasamböndum, t. d. *extĕrae nationes,* útlenzkar þjóðir.

| | | |
|---|---|---|
| c, *infĕrior,* neðri; | *infĭmus* og *īmus,* neðstur; | *infer* og *infĕrus* (neðarlegur); |

frumstig lítið haft, nema í orðasambandinu: *Inferum Mare,* Niðurhafið (þ. e. hafið fyrir vestan og útsunnan Ítalíu); og í fleirtölumyndinni *inferi,* undirheimabúar.

| | | |
|---|---|---|
| d, *intĕrior,* innri; | *intĭmus,* innstur; | sbr. *intra,* fyrir innan. |
| e, *postĕrior,* aftari, eftri; *síðari*; | *postrēmus,* aftastur; síðastur; og *postŭmus* (síðlegur); eftirfœddur, *síðfœddur*; | *poster* eða *postĕrus* (eftirlegur); eftirkvæmur; |

frumstig lítið haft, nema í orðasamböndunum *posterum diem,* daginn eftir; *postero die,* næsta dag; *postĕro die mane,* næsta morgun; og í fleirtölumyndinni *posteri,* niðjar, eftirkomendur.

| | | |
|---|---|---|
| f, *prior,* fremri; fyrri; | *prīmus,* fremstur; fyrstur; | sbr. *prō,* fyrir; fyrir framan; |
| g, *supĕrior,* efri; | *suprēmus,* síðastur, hinztur; og *summus,* efstur; ofanverður; mestur; | *super* og *supĕrus* (yfirlegur); |

frumstig lítið haft, nema í orðasambandinu *Superum Mare,* Upphafið (þ. e. hafið fyrir landnorðan og austan Ítalíu); og í fleirtölumyndinni *supĕri,* uppheimsbúar.

| | | |
|---|---|---|
| h, *ultĕrior,* handari, firnari; | *ultĭmus,* handastur, firstur; síðastur; | sbr. *ultra,* fyrir handan. |
| i, *detĕrior,* lakari; | *deterrĭmus,* lakastur; | sbr. *detĕro,* eg gný af. |
| j, *ōcior,* skjótari; | *ocissimus,* skjótastur; | sbr. gríska orðið ὠκύς, skjótur. |
| k, *pŏtior,* heldri, fremri; | *potissimus,* helztur, fremstur; | *potis,* máttugur; forn mynd, sama sem *potens.* |

113. gr. Mörg lýsingarorð hafa enga stigbreyting (*comparatio*), og kemur það oftast af því, að engi stigbreyting á við þau eftir merkingu þeirra: *aureus,* gull-, af gulli; *pedester,* fótgöngu-; *vivus,* lifandi; *mortĭfer,* banvænn; *praedūrus,* mjög harður.

114. gr. Þau lýsingarorð, er endast á *eus*, *ius* og *uus*, hafa sjaldan hina venjulegu stigbreyting, af því að viðbót endinga miðstigs og yfirstigs hefir þótt óþægileg í framburði; myndast þá miðstig þeirra með *magis*, meir; og yfirstig með *maxĭme*, mest: *idoneus*, hagkvæmur; *magis idoneus*, hagkvæmari; *maxĭme idoneus*, hagkvæmastur. Svo myndast og stigbreyting nokkurra lýsingarorða, t. d. *mirus*, undarlegur; *magis mirus*, undarlegri; *maxime mirus*, undarlegastur.

115. gr. Nokkur lýsingarorð mynda miðstig á venjulegan hátt, en yfirstig með *maxime*, t. d. *credibĭlis*, trúlegur; *credibilior*, trúlegri; *maxime credibĭlis*, trúlegastur.

116. gr. Nokkur lýsingarorð mynda yfirstig á venjulegan hátt, en miðstig með *magis*, t. d. *sacer*, heilagur; *magis sacer*, helgari; *sacerrimus*, helgastur. *Novus*, nýr; yfirstig *novissimus*, aftastur; síðastur; miðstig *recentior*, nýrri, af *recens*, nýr; *vetus*, gamall, forn; yfirstig *veterrimus*, elztur; miðstig venjulega *vetustior*, eldri (*veterior*, *Cato* hjá *Priscian*).

117. gr. Auk þeirra þriggja flokka af lýsingarorðum, er að framan eru nefndir, eru enn höfð nokkur lýsingarorð með ýmsum endingum í ýmsum kynferðum, t. d. með endingunni *a* í karlk. og kvennk. eftir fyrstu fallbreytingu; með endingunni *tes* í karlk. eftir sömu fallbreytingu; með endingunni *tis* (eða *is*; í eignarf. *tĭdis* eða *tĭdos*, *ĭdis* eða *ĭdos*) í kvennk. eftir þriðju fallbreytingu, og með endingunni *as* (í eignarf. *ădis* eða *ădos*) í kvennk. eftir sömu fallbreytingu: *advenae reges*, konungar komnir annars staðar að (*Livius*); *advenae volucres*, aðkomufuglar (*Varro*); *rex alienigena*, konungur borinn annars staðar (*Cicero*); *pueri Spartiatae*, ungir sveinar í Spörtu (sami); *Maeotis Palus*, Mæóta-vatn, asóvska Hafið (*Plinius* eldri); *Sicelides musae*, sikileyskar ljóðdísir (*Virgill*); *Cyclades Insulae*, Hringeyjar (*Caesar*).

*b*, þessi lýsingarorð hafa enga stigbreyting.

## VII. Sjöundi kafli.

### Töluorðin (nomina numeralia).

118. gr. Töluorð heyra til flokks lýsingarorða; þau deilast í fjórar höfuðtegundir, 1) höfuðtölur (*numeralia cardinalia*); 2) raðartölur (*numeralia ordinalia*); 3) deilitölur (*numeralia distributīva*); 4) margföldunartölur (*numeralia multiplicatīva*). Töluorðum fylgja og nokkur teljandi atviksorð (*adverbia numeralia*).

119. gr. Höfuðtölurnar (*cardinalia*) eru:

*Unus* (I), einn.
*Duo* (II), tveir.
*Tres* (III), þrír.
*Quattuor* (eða *quatuor,* IV), fjórir.
*Quinque* (V), fimm.
*Sex* (VI), sex.
*Septem* (VII), sjö.
*Octo* (VIII), átta.
*Novem* (IX), níu.
*Decem* (X), tíu.
*Undĕcim* (XI), ellefu.
*Duodĕcim* (XII), tólf.
*Decem et tres, tres et decem, tredĕcim* (XIII), þrettán.
*Quattuordĕcim* (XIV), fjórtán.
*Quindĕcim, decem et quinque* (XV), fimtán.
*Sedĕcim, sexdĕcim, decem et sex* (XVI), sextán.
*Septendĕcim* (*septemdĕcim*), *septem et decem, decem et septem* (XVII), sautján, seytján.
*Duodeviginti, decem et octo* (XVIII), átján.
*Undeviginti, decem et novem* (XIX), nítján.
*Viginti* (XX), tuttugu, tvítján.
*Unus et viginti, viginti unus* (XXI), tuttugu og einn, einn og tuttugu, einn hins þriðja tigar.
*Duo et viginti, viginti duo* (XXII), tuttugu og tveir, o. s. frv.
*Duodetriginta, octo et viginti, viginti octo* (XXVIII), tuttugu og átta.
*Undetriginta, novem et viginti, viginti novem* (XXIX), tuttugu og níu.
*Triginta* (XXX), þrír tigir, þrjátíu.
*Unus et triginta, triginta unus* (XXXI), þrjátíu og einn, o. s. frv. sem *viginti.*
*Duodequadraginta, octo et triginta, triginta octo* (XXXVIII), þrjátíu og átta.
*Undequadraginta, novem et triginta, triginta novem* (XXXIX), þrjátíu og níu.
*Quadraginta* (XL), fjórir tigir, fjörutíu, o. s. frv. sem *viginti.*
*Quinquaginta* (L), fimm tigir, fimmtíu.
*Sexaginta* (LX), sex tigir, sextíu.
*Septuaginta* (LXX), sjö tigir, sjötíu.
*Octoginta* (LXXX), átta tigir, áttatíu.
*Nonaginta* (XC), níu tigir, níutíu.
*Nonaginta octo, octo et nonaginta* (XCVIII), níutíu og átta.
*Nonaginta novem, novem et nonaginta, undecentum* (XCIX), nítíu og níu.
*Centum* (C), hundrað, smátt hundrað, tíu tigir.
*Centum et unus, centum unus* (CI), hundrað og einn.
*Centum et duo, centum duo* (CII), hundrað og tveir, o. s. frv.
*Centum et decem, centum decem* (CX), hundrað og tíu, ellefu tigir.
*Centum et viginti, centum viginti* (CXX), hundrað og tuttugu, stórt hundrað.
*Centum viginti unus, centum et viginti unus* (CXXI), hundrað tuttugu og einn, o. s. frv.
*Ducenti* (CC), tvö hundruð.

*Trecenti* (ccc), þrjú hundruð.
*Quadringenti* (cccc), fjögur hundruð.
*Quingenti* (IↃ,D), fimm hundruð.
*Sexcenti* (DC), sex hundruð.
*Septingenti* (DCC), sjö hundruð.
*Octingenti* (DCCC), átta hundruð.
*Nongenti* (DCCCC), níu hundruð.
*Mille* (CIↃ,M), þúsund, þúshundrað.
*Duo millia* (eða *duo milia*, MM), tvær þúsundir, o. s. frv.
*Quinque millia* (IↃↃ), fimm þúsundir.
*Decem millia* (CCIↃↃ), tíu þúsundir.
*Quinquaginta millia* (IↃↃↃ), fimm tigir þúsunda.
*Centum millia* (CCCIↃↃↃ), hundrað þúsunda.
*Decies centena millia, decies centum millia,* þúsund þúsunda, miljón.
*Vicies centena millia, vicies centum millia,* tvær miljónir.

120. gr. Við þenna talnaflokk eiga enn nokkur töluorð, t. d. — *a,* vísitalan (*numerus demonstratīvus) tot,* svo margir; — *b,* hin ákveðna tilfœrslutala (*numer. relativus definītus*) *quot,* sem; svo margir sem; — *c,* hin óákveðna tala (*numer. indefinitus*) *alĭquot,* nokkurir; — *d,* hin óákveðna tilfœrslutala (*numer. relativ. indefinitus) quotcunque,* hve margir sem; — *e,* spurnartalan (*numer. interrogativus*) *quot,* hve margir; — *f,* vísitalan (*numer. demonstr.*) *totĭdem,* svo margir; jafnmargir; og enn fremur orðin *ambo,* báðir; *uterque,* hvortveggi, og *solus,* einn saman, einn.

121. gr. Þrjár hinar fyrstu höfuðtölur, *unus, duo, tres,* eru hneigilegar, svo og hundraðatölurnar frá *ducenti* til *nongenti,* og enn fremur fleirtölumyndin *millia* (þúsundir, af *mille,* þúsund); hinar tölurnar allar, frá *quattuor* til *centum,* eru óhneigilegar, svo og eintölumyndin *mille,* og enn fremur þau orð, er nefnd eru í næstu grein hèr að framan, nema orðin *ambo, uterque* og *solus,* þau eru hneigileg.

*a, unus* og *solus* hneigjast sem lýsingarorðið *totus,* eignarf. eintöl. (*gen. sing.*) *unīus, solīus;* þáguf. (*dat.*) *unī, solī;* sbr. 86. gr., β, 32. bls.

b, ***duo*** hneigist svo.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. (*nom.* og *voc.*), | *duo,* | tveir; | *duae,* | tvær; | *duo,* | tvö; tvent. |
| Þolf. (*acc.*), | *duo* og *duos,* | tvo; | *duas,* | tvær; | *duo,* | tvö; tvent. |
| Eignarf. (*gen.*), | *duorum,* | tveggja; | *duarum,* | tveggja; | *duorum,* | tveggja. |
| Þáguf. og ávarpsf. (*dat.* og *abl.*), | *duōbus,* | tveimur; | *duābus,* | tveimur; | *duōbus,* | tveimur. |

β, svo hneigist og orðið *ambo,* báðir.

c, ***tres*** hneigist svo.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. | *tres,* | þrír; | *tres,* | þrjár; | *tria,* | þrjú; þrent. |
| Þolf. | *tres,* | þrjá; | *tres,* | þrjár; | *tria,* | þrjú; þrent. |
| Eignarf. | *trium,* | þriggja, í öllum kynjum. | | | | |
| Þáguf. og staðarf. | *tribus,* | þremur, í öllum kynjum. | | | | |

*d,* hundraðatölurnar *ducenti* til *nongenti* hneigjast sem *puri* (*purae, pura*), fleirtalan af *purus;* sb. 86. gr., *a,* 32. bls.

*e,* fleirtölumyndin *millia* hneigist sem *cubilia,* fleirtala af *cubile;* sb. 57. gr., 14. bls.

f, ***uterque*** hneigist svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | *uterque,* | hvortveggi; | *utraque,* | hvortveggja; | *utrumque,* | hvorttveggja. |
| Þolf. | *utrumque,* | hvorntveggja; | *utramque,* | hvoratveggju; | *utrumque,* | hvorttveggja. |
| Eignarf. | *utrīusque,* | hvorstveggja; | *utriusque,* | hvorrartveggju; | *utriusque,* | hvorstveggja. |
| Þáguf. | *utrīque,* | hvorumtveggja; | *utrique,* | hvorritveggju; | *utrique,* | hvorutveggja. |
| Staðarf. | *utroque,* | hvorumtveggja; | *utraque,* | hvorritveggju; | *utroque,* | hvorutveggja. |

Fleirtala.

| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | *utrique,* | hvorirtveggju; | *utraeque,* | hvorartveggju; | *utraque,* | hvortveggju; hvorttveggja. |
| Þolf. | *utrosque,* | hvoratveggju; | *utrasque,* | hvorartveggju; | *utraque,* | hvortveggju; hvorttveggja. |
| Eignarf. | *utrorumque,* | hvorratveggju; | *utrarumque,* | hvorratveggju; | *utrorumque,* | hvorratveggju; hvorstveggja. |
| Þáguf. og staðarf. | *utrisque,* | hvorumtveggjum; | *utrisque,* | hvorumtveggjum; | *utrisque,* | hvorumtveggjum; hvorutveggja. |

122. gr. Höfuðtölurnar eru lýsingarorð upp að orðinu *mille;* það orð er oftast lýsingarorð í eintölumynd: *mille milĭtes,* þúsund hermanna; *cum mille militĭbus,* með þúsund hermanna; en er þó og stundum (í nefnif. og þolf.) haft sem nafnorð: *mille hominum,* þúsund manna; fleirtölumyndin *millia* er jafnan nafnorð: *duo millia militum,* tvær þúsundir hermanna; *cum duobus millibus militum,* með tveimur þúsundum hermanna.

123. gr. Raðartölurnar (*ordinalia*) eru:

*Primus* (og *unus*), fyrstur, fyrsti.
*secundus, alter* (*alius*), annar.
*Tertius,* þriðji.
*Quartus,* fjórði.
*Quintus,* fimti.
*Sextus,* sjötti, sètti.
*Septĭmus,* sjöundi.
*Octāvus,* áttundi, átti.
*Nonus,* níundi.
*Decĭmus,* tíundi.
*Undecĭmus,* ellefti.
*Duodecĭmus,* tólfti.
*Tertius decimus, decimus dertius, decimus et tertius,* þrettándi.

*Quartus decimus,* o. s. frv. sem *tertius decimus,* fjórtándi.

*Quintus decimus,* fimtándi,

*Sextus decimus,* sextándi.

*Septĭmus decimus,* sautjándi, seytjándi.

*Duodevicesĭmus* (og *octavus decimus*), átjándi.

*Undevicesĭmus* og *nonus decimus,* nítjándi.

*Vicesĭmus* eða *vigesĭmus,* tuttugasti, tvítjándi, tuttugti.

*Unus et vicesĭmus* (*primus et vicesimus, vicesĭmus primus*), tuttugasti og fyrsti, fyrsti og tuttugasti, fyrsti hins þriðja tigar.

*Alter et vicesĭmus* (*vicesĭmus alter, duoetvicesĭmus, secundus et vicesĭmus*), tuttugasti og annar, o. s. frv. sem tuttugasti og fyrsti.

*Tertius et vicesĭmus, vicesĭmus tertius,* tuttugasti og þriðji, o. s. frv.

*Duodetricesĭmus, octāvus et vicesĭmus, vicesĭmus octāvus,* tuttugasti og áttundi.

*Undetricesĭmus, nonus et tricesĭmus, tricesĭmus nonus,* tuttugasti og níundi.

*Tricesĭmus* (*trigesĭmus*), þrítugasti, þrítugandi.

*Unus et tricesĭmus* (*primus et tricesĭmus, tricesĭmus primus*), þrítugasti og fyrsti, o. s. frv. sem *vicesĭmus.*

*Quadragesĭmus,* fertugasti, fertugandi.

*Quinquagesĭmus,* fimmtugasti, fimmtugandi.

*Sexagesĭmus,* sextugasti, sextugandi.

*Septuagesĭmus,* sjötugasti, sjötugandi.

*Octogesĭmus,* áttatugasti, áttatugandi.

*Nonagesĭmus,* nítugasti, nítugandi.

*Centesĭmus,* hundraðasti.

*Centesĭmus primus,* hundraðasti og fyrsti.

*Centisĭmus decĭmus,* hundraðasti og tíundi, ellef-tugasti.

*Centesĭmus vicesĭmus,* hundraðasti og tuttugasti.

*Centesĭmus vicesĭmus primus,* hundraðasti tuttugasti og fyrsti, o. s. frv.

*Ducentesĭmus,* tvöhundraðasti.

*Trecentesĭmus,* þrjúhundraðasti.

*Quadringentesĭmus,* fjögurhundraðasti.

*Quingentesimus,* fimmhundraðasti.

*Sexcentesĭmus,* sexhundraðasti.

*Septingentesĭmus,* sjöhundraðasti.

*Octingentesĭmus,* átt-hundraðasti.

*Nongentesĭmus,* ní-hundraðasti.

*Millesĭmus,* þúsundasti.

*Bis millesĭmus,* tvöþúsundasti, o. s. frv. með tölulegum atviksorðum, t. d. *quater millesĭmus.*

*Decies millesĭmus,* tí-þúsundasti.

*Vicies millesĭmus,* tuttuguþúsundasti.

*Centies millesĭmus,* hundraðþúsundasti.

124. gr. Við þenna talnaflokk á orðið *quotus*, hve margur, hver í tölu.

125. gr. Raðartölurnar hneigjast sem *purus, pura, purum*, í eintölu og fleirtölu, nema *alter* og *alius*.

*a, alter* hneigist sem *liber*, nema eignarfall eintölunnar er *alterīus* (og *alterĭus);* þágufall *alterī*, í öllum kynjum.

*b, alius* hneigist svo:

Eintala.

Nefnif. *alius, alia, aliud*, annar, önnur, annað.
Þolf. *alium, aliam, aliud*, annan, aðra, annað.
Eignarf. *alīus*, annars, annarar, annars.
Þáguf. *alĭī*, öðrum, annari, öðru.
Staðarf. *alio, alia, alio*, öðrum, annari, öðru.

Fleirtalan (*alii, aliae, alia)* hneigist sem fleirtalan af *purus*.

*c, unus et vicesimus* (eða *unusetvicesimus*) hefir í kvennkyni *una et vicesima* eða *unetvicesima; duoetvicesimus* hefir *duoetvicesima*.

126. gr. Deilitölur (*distributiva*) eru:

*Singŭli*, einn hverjum; þolf. *singŭlos*, einn hver.
*Bini*, tveir hverjum; *binos*, tvo hver.
*Terni*, þrír hverjum, o. s. frv.
*Quaterni*, fjórir, o. s. frv.
*Quini*, fimm.
*Seni*, sex.
*Septēni*, sjö.
*Octōni*, átta.
*Novēni*, níu.
*Dēni*, tíu.
*Undēni*, ellefu.
*Duodēni*, tólf.
*Terni deni*, þrettán, o. s. frv.
*Octōni deni, duodevicēni*, átján.
*Novēni deni, undeviceni*, nítján.
*Vicēni*, tuttugu.
*Viceni singuli*, tuttugu og einn, o. s. frv.
*Triceni*, þrír tigir, þrjátíu.
*Quadragēni*, fjórir tigir, fjörutíu.
*Quinquagēni*, fimm tigir, fimmtíu.
*Sexagēni*, sex tigir, sextíu.
*Septuagēni*, sjö tigir, sjötíu.
*Octogēni*, átta tigir, áttatíu.
*Nonagēni*, níu tigir, níutíu.
*Centēni*, hundrað.
*Centēni singŭli*, hundrað og einn.
*Ducēni*, tvö hundruð.
*Trecēni*, þrjú hundruð.
*Quadringēni*, fjögur hundruð.
*Quingēni*, fimm hundruð.
*Sexcēni*, sex hundruð.
*Septingēni*, sjö hundruð.
*Octingēni*, átta hundruð.
*Nongēni*, níu hundruð.
*Singŭla millia*, eða *millia*, þúsund.
*Bina millia*, tvær þúsundir.
*Dena millia*, tíu þúsundir.
*Centena millia*, hundrað þúsunda.
*Decies centena millia*, miljón.

127. gr. Við þenna flokk á orðið *quoteni*, hve margir hverjum.

128. gr. Deilitölurnar eru að eins hafðar í fleirtölu hjá hinum betri lesmálshöfundum, og hneigjast þær sem fleirtala af *purus* (*singŭli, singŭlae, singŭla*).

129. gr. Þær deilitölur, er endast á *ni* (*bini, deni*, o. s. frv.), hafa venjulega *um* (sjaldan *orum, arum, orum*) í eignarfalli.

130. gr. Margföldunartölur (*multiplicativa*) endast á *plex*, eignarf. *plĭcis*, og hneigjast sem lýsingarorðið *ferax* (sb. 91. gr. *a*, 35. bls.). Af þeim finnast að eins fáar hjá hinum fornu rithöfundum, og eru þær þessar:

*Simplex*, einfaldur.
*Duplex*, tvöfaldur, tvífaldur.
*Triplex*, þrefaldur, þrífaldur.
*Quadruplex*, fjórfaldur, ferfaldur.
*Quincuplex*, fimmfaldur.
*Septemplex*, sjöfaldur.
*Decemplex*, tífaldur.
*Centuplex*, hundraðfaldur.

131. gr. Við margföldunardeildina eiga nokkur orð, er endast á *plus*, t. d. *duplus*, tvífalt meiri, helmingi stœrri; *triplus*, þrefalt meiri; en þessi orð eru einkum höfð í hvorugkyni: *duplum*, tvífalt meira; *triplum*, þrefalt meira; *quadruplum, octuplum*.

132. gr. Með nafnorðum (*substantiva*), er að eins eru höfð í fleirtölu (um samsetta hluti), eru höfð töluorðin *uni*, einir; einn (eigi deilitalan *singuli*); *bini*, tvennir; tveir; *trini*, þrennir; þrír (eigi deilitalan *terni*); *quaterni*, fernir; fjórir, o. s. frv. deilitölurnar, t. d.: *unae literae*, eitt brèf; *una castra*, einar herbúðir; *trinae literae*, þrjú brèf.

133. gr. Við talning nokkurra daga og ára hafa Latínumenn einkennilega aðferð; svo hafa þeir t. d. venjulega *biduum*, tveir dagar; *triduum*, þrír dagar; *quadriduum*, fjórir dagar; *biennium*, tvö ár; *triennium*, þrjú ár; *quadriennium*, fjögur ár; *quinquennium*, fimm ár; *sexennium*, sex ár (síður *duo dies, tres dies*, o. s. frv.; *duo anni, tres anni*, o. s. frv.).

*b*, ársgamall, eða veturgamall, er á latínu *annicŭlus;* tveggja ára gamall eða tvævetur, *bimŭlus* og *bimus;* þriggja ára gamall eða þrevetur, *trimŭlus* og *trimus;* fjögurra ára gamall eða fjögurra vetra, *quadrīmus;* fimm ára gamall eða fimm vetra, *quinquennis;* sex ára gamall eða sex vetra, *sexennis;* sjö ára gamall eða sjö vetra, *septennis*.

134. gr. Töluleg atviksorð (*adverbia numeralia*), er tákna, hve oft eitthvað gjörist, eru:

*Semel*, einu sinni, um sinn.
*Bis*, tvisvar, tveim sinnum.

*Ter,* þrisvar, þrem sinnum.
*Quatter* (og *quater*), fjórum sinnum.
*Quinquies,* fimm sinnum.
*Sexies,* sex sinnum.
*Septies,* sjö sinnum.
*Octies,* átta sinnum.
*Novies,* níu sinnum.
*Decies,* tíu sinnum.
*Undecies,* ellefu sinnum.
*Duodecies,* tólf sinnum.
*Terdecies,* þrettán sinnum.
*Quatterdecies* og *quattuordecies,* fjórtán sinnum.
*Quindecies,* fimtán sinnum.
*Sedecies,* sextán sinnum.
(*Septiesdecies,* seytján sinnum).
(*Duodevicies,* átján sinnum).
(*Undevicies,* nítján sinnum).
*Vicies,* tuttugu sinnum.
*Semel et vicies* og *vicies semel,* tuttugu og einu sinni.
*Tricies,* þrjátigi sinnum, þrem tigum sinna.
*Quadragies,* fjörutíu sinnum, o. s. frv. sem við *tricies.*
*Quinquagies,* fimmtigi sinnum.
*Sexagies,* sextigi sinnum.
*Septuagies,* sjötigi sinnum.
*Octogies,* áttatigi sinnum.
*Nonagies,* níutigi sinnum.
*Centies,* hundrað sinnum.
*Centies decies* og *centies et decies,* hundrað og tíu sinnum.
*Centies vicies ter,* hundrað tuttugu og þrem sinnum.
*Ducenties,* tvö hundruð sinnum, tveim hundruðum sinna.
*Trecenties,* þrjú hundruð sinnum, o. s. frv. sem við *ducenties.*
*Quadringenties,* fjögur hundruð sinnum.
*Quingenties,* fimm hundruð sinnum.
*Sexcenties,* sex hundruð sinnum.
*Septingenties,* sjö hundruð sinnum.
*Octingenties,* átta hundruð sinnum.
*Nongenties,* níu hundruð sinnum.
*Millies,* þúsund sinnum.
*Bis millies,* tvö þúsund sinnum, o. s. frv.
*Decies millies,* tíu þúsund sinnum.
*Centies millies,* hundrað þúsund sinnum.

*b,* fyrir endinguna *es,* t. d. í *quinquies,* er oft höfð endingin *ens*: *quinquiens, sexiens,* o. s. frv.

135. gr. Við þenna talnaflokk eiga töluleg atviksorð (*adverbia numeralia*), og eru þau, — *a,* vísitalan (*numerus demonstrativus*) *toties,* svo oft; — *b,* hin ákveðna tilfærslutala (*num. relat. definitus*) *quoties,* sem; svo oft sem; — *c,* spurnartalan (*num. interrog.*) *quoties,* hve oft; — *d,* hin óákveðna tala (*num. indefinit.*) *aliquoties,* nokkurum sinnum, og — *e,* hin óákveðna tilfærslutala (*num. relat. indefinit.*) *quotiescunque,* hve oft sem, svo oft sem.

# VIII. Áttundi kafli.

## Fornöfn (pronomina).

136. gr. Fornöfn latínskrar tungu deilast í sex flokka, — 1) persónuleg fornöfn (*pronomĭna personalia*); — 2) afturbeygilegt fornafn (*pronōmen reflexīvum*); — 3) vísifornöfn (*pronomĭna demonstratīva*); — 4) tilfœrslufornöfn (*pronomĭna relatīva*); — 5) spurnarfornöfn (*pronomĭna interrogatīva*); — 6) óákveðin fornöfn (*pronomĭna indefinīta*).

137. gr. Hin persónulegu fornöfn (*pronom. person.*) eru *ego*, eg, fornafn hinnar fyrstu persónu (*pronomen primae persōnae*), og *tu*, þú, fornafn annarar persónu (*pronomen secundae persōnae*); sem fornafn hinnar þriðju persónu (*pronom. tertiae personae*) er, auk ýmsra annara fornafna, haft *is* í merkingunni hann.

138. gr. *Ego* hneigist svo.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. (*nom.*), | *ego*, | eg. |
| Þolf. (*acc.*), | *me*, | mig. |
| Eignarf. (*gen.*), | *mei*, | mín. |
| Þáguf. (*dat.*), | *mihi*, | mèr. |
| Staðarf. (*abl.*), | *me*, | mèr. |

Fleirtala (og tvítala).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. | *nos*, | vèr; við. |
| Þolf. | *nos*, | oss; okkur. |
| Eignarf. | *nostri* og *nostrum*, | vor; okkar. |
| Þáguf. og staðarf. | *nobis*, | oss; okkur. |

139. gr. *Tu*, hneigist svo.

Eintala.

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. | *tu*, | þú. |
| Þolf. | *te*, | þig. |
| Eignarf. | *tui*, | þín. |
| Þáguf. | *tibi*, | þèr. |
| Staðarf. | *te*, | þèr. |

Fleirtala (og tvítala).

| | | |
|---|---|---|
| Nefnif. og ávarpsf. | *vos*, | þèr; þið. |
| Þolf. | *vos*, | yður; ykkur. |
| Eignarf. | *vestri* og *vestrum*, | yðar; ykkar. |
| Þáguf. og staðarf. | *vobis*, | yður; ykkur. |

140. gr. *Is*, hann, hneigist svo.

| | Eintala. | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
| Nefnif. | *ĭs,* | hann; | *ea,* | hún; | *ĭd,* | það. |
| Þolf. | *eum,* | hann; | *eam,* | hana; | *id,* | það. |
| Eignarf. | *ējus,* | hans; | *ejus,* | hennar; | *ejus,* | þess. |
| Þáguf. | *ei,* | honum; | *ei,* | henni; | *ei,* | því. |
| Staðarf. | *eo,* | honum; | *ea,* | henni; | *eo,* | því. |
| | Fleirtala. | | | | | |
| Nefnif. | *ii* (og *ei*), | þeir; | *eae,* | þær; | *ea,* | þau; það. |
| Þolf. | *eos,* | þá; | *eas,* | þær; | *ea,* | þau; það. |
| Eignarf. | *eorum,* | þeirra; | *earum,* | þeirra; | *eorum,* | þeirra; þess. |
| Þáguf. og staðarf. | *iis* (og *eis*), | þeim; | *iis* (og *eis*), | þeim; | *iis* (og *eis*), | þeim; því. |

141. gr. Hið afturbeygilega fornafn (*pronomen reflexīvum*) er *se*, sig, og hneigist svo.

| | Eintala og fleirtala. | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Þolf. | *se,* | sig. | Þáguf. | *sibi,* | sèr. |
| Eignarf. | *sui,* | sín. | Staðarf. | *se,* | sèr. |

142. gr. Samstöfunni *met* er stundum bætt aftan við öll föll af *ego, tu* og *se,* nema við eignarf. fleirtölu af *ego* og *tu*, og við nefnifallsmyndina *tu,* og herðir þessi viðbót merking orðanna: *egomet,* eg (með áherzlu); *nosmet ipsos,* sjálfa oss.

*b,* við nefnifallið *tu* er og stundum bætt áherzluendingunni *te.*

*c*, fallmyndin *se* er oft tvífölduð til áherzlu: *sese,* sig; sèr.

143. gr. Vísifornöfn (*pronomina demonstratīva*) eru, — 1) *is,* sá; — 2) *iste,* sá (hjá þèr eða yður); — 3) *ille*, sá (hjá honum eða þeim); — 4) *hic,* þessi; — 5) *ipse,* sjálfur; — 6) *idem*, samur, sami; sá sami, hinn sami.

144. gr. *Is,* sá, hneigist svo.

| | Eintala. | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | Karlkyn. | | Kvennkyn. | | Hvorugkyn. | |
| Nefnif. | *ĭs,* | sá; | *ea,* | sú; | *ĭd,* | það. |
| Þolf. | *eum,* | þann; | *eam,* | þá; | *id,* | það. |
| Eignarf. | *ējus,* | þess; | *ejus,* | þeirrar; | *ejus,* | þess. |
| Þáguf. | *ei,* | þeim; | *ei,* | þeirri; | *ei,* | því. |
| Staðarf. | *eo,* | þeim; | *ea,* | þeirri; | *eo,* | því. |
| | Fleirtala. | | | | | |
| Nefnif. | *ii* (og *ei*), | þeir; | *eae,* | þær; | *ea,* | þau; það. |

Þolf. *eos*, þá, o. s. frvv. sem fleirtalan af hinu persónulega fornafni *is* (140. gr.).

145. gr. Af *re*, staðarf. eintölu af *res*, hlutur, og *apse*, þ. e. *eā-pse* (staðarf. eintölu af *is* með viðaukaendingunni *pse*), myndast orðið *reapse*, í raun og veru, reyndar.

146. gr. *Iste* hneigist svo.

Eintala.

| | |
|---|---|
| Nefnif. | *iste, ista, istud*, sá, sú, það. |
| Þolf. | *istum, istam, istud*, þann, þá, það. |
| Eignarf. | *istīus*, þess, þeirrar, þess. |
| Þáguf. | *isti*, þeim, þeirri, því. |
| Staðarf. | *isto, ista, isto*, þeim, þeirri, því. |

Fleirtala *isti, istae, ista*, þeir, þær, þau; það, hneigist sem fleirtala af *purus*.

147. gr. *Ille, illa, illud*, hneigist að öllu sem *iste*; sömuleiðis *ipse*, nema nefnifall og þolfall eintölu í hvorugkyni er *ipsum* (eigi *ipsud*).

148. gr. *Hic* hneigist svo.

Eintala.

| | |
|---|---|
| Nefnif. | *hic, haec, hoc*, þessi, þessi, þetta. |
| Þolf. | *hunc, hanc, hoc*, þenna, þessa, þetta. |
| Eignarf. | *hūjus*, þessa, þessarar, þessa. |
| Þáguf. | *huic*, þessum, þessari, þessu. |
| Staðarf. | *hoc, hac, hoc*, þessum, þessari, þessu. |

Fleirtala.

| | |
|---|---|
| Nefnif. | *hi, hae, haec*, þessir, þessar, þessi; þetta. |
| Þolf. | *hos, has, haec*, þessa, þessar, þessi; þetta. |
| Eignarf. | *horum, harum, horum*, þessara; þessa. |
| Þáguf. og staðarf. | *his*, þessum; þessu. |

149. gr. *Idem* hneigist svo.

Eintala.

| | |
|---|---|
| Nefnif. | *īdem, eadem, ĭdem*, samur, söm, samt; hinn sami, hin sama, hið sama. |
| Þolf. | *eundem, eandem, idem*, saman, sama, samt; hinn sama, hina sömu, hið sama. |
| Eignarf. | *ējusdem*, sams, samrar, sams; hins sama, hinnar sömu, hins sama. |
| Þáguf. | *eidem*, sömum, samri, sömu; hinum sama, hinni sömu, hinu sama. |

Staðarf. *eodem, eadem, eodem,* sömum, samri, sömu; hinum sama, hinni sömu, hinu sama.

Fleirtala.

Nefnif. *iidem* (og *eidem*), *eaedem, eadem,* samir, samar, söm; hinir sömu, hinar sömu, hin sömu; hið sama.

Þolf. *eosdem, easdem, eadem,* sama, samar, söm; hina sömu, hinar sömu, hin sömu; hið sama.

Eignarf. *eorundem, earundem, eorundem,* samra; hinna sömu; hins sama.

Þáguf. og staðarf. *iisdem* (og *eisdem*), sömum; hinum sömu; hinu sama.

150. gr. Fornöfnin *iste* og *ille* eru stundum aukin með *c* í nokkurum föllum (*iste* í nefnifalli, þolf. og staðarf. eintölu, og nefnif. og þolf. fleirtölu í hvorugkyni, *nom., acc.* og *abl. sing.,* og *nom.* og *acc. plur. neutri generis; ille* í sömu föllum eintölu), og breytist þá stundum hin upphaflega ending þessara orða á undan *c*.

a, *istic* hneigist svo.

Eintala.

Nefnif. *istic, istaec, istuc* og *istoc,* þessi, þessi, þetta.
Þolf. *istunc, istanc, istuc* og *istoc,* þenna, þessa, þetta.
Staðarf. *istoc, istac, istoc,* þessum, þessari, þessu.

Fleirtala.

Nefnif. og þolf. hvorugkyns *istaec,* (þessi); þetta.

b, *illic,* þessi, hneigist í eintölu sem *istic.*

151. gr. Niðurlagið *c* í fornafninu *hic* var upphaflega *ce,* og kemur sú mynd eigi sjaldan fyrir hjá fornum skáldum (*hice = hic, haece = haec, hoce = hoc, hunce = hunc, hance = hanc*). Þessi upphaflega ending *ce* er og stundum í almennu lesmáli höfð við *s*-endingar af *hic* (*hujus-ce,* þessa; *hisce,* þessum).

152. gr. Með spurnarorðinu *nĕ,* hvort, eru hafðar hinar upphaflegu myndir, *hice, haece, hoce* (en eigi *hic, haec, hoc*), og breytist þá *ce* í *ci: hicine,* hvort þessi; *haecine, hocine, huncine, hancine.*

153. gr. Vísifornöfnin (*pronomina demonstratīva*) *iste, ille, hic, ipse* og *idem,* eru og höfð sem fornöfn hinnar þriðju persónu (*pronomina tertiae personae*): *iste,* hann (hjá þér, hjá yður); *ille,* hann (hjá honum, hjá þeim); *hic,* þessi; hann (hér, hjá mér, hjá oss); *ipse,* hann sjálfur; *idem,* hinn sami.

154. gr. Tilfœrslufornöfnin (*pronomina relativa*) eru, — 1) hið ákveðna tilfœrslufornafn (*pronōmen relatīvum definītum*), *qui,* (sá) er, sem, (hver); og — 2) hin óákveðnu tilfœrslufornöfn

(*pronomĭna indefinīta relatīva*), *uter* og *utercunque*, hvor er (af tveimur), og *quicunque* og *quisquis*, hver er (af þremur eða fleirum), hvergi er; (hver er vera skal).

155. gr. *Qui* hneigist svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *qui*, (sá) er; | *quae*, (sú) er; | *quod*, (það) er. |
| Þolf. | *quem*, (þann) er; | *quam*, (þá) er; | *quod*, (það) er. |
| Eignarf. | *cūjus*, (þess) er; er... hans; | *cūjus*, (þeirrar) er; er... hennar; | *cujus*, (þess) er; er... þess. |
| Þáguf. | *cui*, (þeim) er; | *cui*, (þeirri) er; | *cui*, (því) er. |
| Staðarf. | *quo*, (þeim) er; | *qua*, (þeirri) er; | *quo*, (því) er. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *qui*, (þeir) er; | *quae*, (þær) er; | *quae*, (þau) er; (það) er. |
| Þolf. | *quos*, (þá) er; | *quas*, (þær) er; | *quae*, (þau) er; (það) er. |
| Eignarf. | *quorum*, (þeirra) er; er... þeirra; | *quarum*, (þeirra) er; er... þeirra; | *quorum*, (þeirra) er; er... þeirra; (þess) er; er... þess. |

Þáguf. og staðarf. *quibus*, (þeim) er; (því) er.

156. gr. Fyrir staðarfall (*abl.*) eintölu í karlk. og hvorugk. (*quo*), sjaldnar í kvennk. fyrir (*qua*), er stundum höfð orðmyndin *quī*; svo er og orðmyndin *quīs* stundum höfð fyrir *quibus* í þáguf. og staðarf. fleirtölu.

157. gr. *Uter* hneigist sem fyrri hluti töluorðsins *uterque*; nefnif.: *uter, utra, utrum*; þolf. *utrum, utram, utrum*, o. s. frv. (121. gr., *f*, 45. bls.).

158. gr. Af *quicunque* hneigist fyrri hlutinn *qui* sem hið ákveðna tilfœrslufornafn *qui*, en viðaukinn *cunque* helzt óbreyttur í hneigingu: nefnif. eintölu *quicunque*, hver er; *quaecunque*, hver er; *quodcunque*, hvert er; hvað er; þolf. *quemcunque*, *quamcunque*, *quodcunque*, o. s. frv. Í *utercunque* hneigist fyrri hlutinn *uter* sem fyrri hluti töluorðsins *uterque*, en *cunque* helzt óbreytt.

159. gr. *Quisquis* er í venjulegu máli að eins haft í nefnif. og staðarf. (*nom.* og *abl.*) eintölu í karlkyni, og í nefnif., þolf. og staðarf. eintölu í hvorugk.; það hneigist svo.

| | Karlkyn. | Hvorugk. |
|---|---|---|
| Nefnif. | *quisquis*, hver er, hvergi er; | *quicquid* (eða *quidquid*), hvað er, hvatki er. |
| Þolf., | eigi haft. | *quicquid* (eða *quidquid*), hvað er, hvatki er. |
| Staðarf. | *quoquo*, hverjum er, hverjungi er. | *quoquo*, hverju er, hvígi er. |

*b*, *quisquis*, nefnif. eintölu í kvennk., hver er, kemur fyrir hjá Plátusi; *cuicui*, eignarfallsmynd eintölu í karlk., er höfð í orðasambandinu: *cuicui modi*, hvers háttar er; *quiqui*, nefnifallsmynd fleirtölu í karlk., hverjir er, kemur fyrir hjá *Cicero*; *quibusquibus*, þáguf. í fleirtölu í karlk., hverjum er vera skal, kemur fyrir hjá *Livius*.

160. gr. Spurnarfornöfnin (*pronomina interrogatīva*) eru *quis* og *qui* (óauknar myndir), og *quisnam* og *quinam* (auknar myndir), hver, og *uter* hvor (af tveimur).

161. gr. *Quis* og *qui* hneigist svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | | Kvennk. | | Hvorugk. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | *quis* og *qui*, | hver; | *quae*, | hver; | *quod*, *quid*, | hvert; hvað. |
| Þolf. | *quem*, | hvern; | *quam*, | hverja; | *quod*, *quid*, | hvert; hvað. |
| Eignarf. | *cujus*, | hvers; | *cujus*, | hverrar; | *cujus*, | hvers. |
| Þáguf. | *cui*, | hverjum; | *cui*, | hverri; | *cui*, | hverju; |
| Staðarf. | *quo*, | hverjum; | *qua*, | hverri; | *quo*, | hverju. |

Fleirtala.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nefnif. | *qui*, | hverjir; | *quae*, | hverjar; | *quae*, | hver; hvað. |
| Þolf. | *quos*, | hverja; | *quas*, | hverjar; | *quae*, | hver; hvað. |
| Eignarf. | *quorum*, | hverra; | *quarum*, | hverra; | *quorum*, | hverra; hvers. |
| Þáguf. og staðarf. | *quibus*, | hverjum; hverju. | | | | |

*b,* forn staðarfallsmynd eintölu í hvorugk., *quī*, er höfð í merkingunni hví; hversu. *Quīs* er og stundum haft fyrir *quibus* í þáguf. og staðarf. fleirtölu.

162. gr. Í orðunum *quisnam* og *quinam* hneigist fyrri hlutinn, *quis* og *qui*, sem spurnarfornafnið *quis* og *qui*, en *nam* helzt óbreytt. Myndirnar *quis* og *quisnam* eru oftast hafðar sem nafnorð, *qui* og *quinam* sem lýsingarorð. Spurnarfornafnið *uter, utra, utrum*, hvor, hvor, hvort, hneigist sem tilfærslufornafnið *uter* (157. gr.).

163. gr. Óákveðin fornöfn (*pronomina indefinīta*) greinast í fimm deildir eftir höfuðmerkingum þeirra.

*a,* í fyrstu deild eru þau, er merkja: einhver, nokkur (í jálegu sambandi), — 1) *quis* og *qui,* einhver, nokkur; — 2) *aliquis* og *aliqui,* (einhver annar), einhver, nokkur; — 3) *quispiam,* einhver, nokkur; — 4) *quidam,* nokkur (sbr. maður nokkur, hjá oss); nokkurs konar; — 5) *nonnullus,* nokkur.

*b,* í annari deild eru þau, er merkja: neinn, nokkur (í neilegu sambandi), — 1) *quis* og *qui,* (nè einn), neinn; — 2) *quisquam,* neinn, nokkur (nafnorð); og — 3) *ullus,* neinn, nokkur (lýsingarorð).

*c,* í þriðju deild eru þau, er merkja eins konar deiling eða greining (frá öðrum), — 1) *quisque,* hver, hvergi; — 2) *unusquisque,* hver einn, hver einstakur, einn hver; — 3) *uter,* hvor (um sig); hinn; — 4) *alteruter,* annarhvor.

*d,* í fjórðu deild eru þau, er merkja: hver er vill, hver, — 1) *quivis,* (hver er þú vilt), hver er vill, hver; — 2) *quilibet,* hver er vill, hver; — 3) *utervis,* (hvor er þú vilt), hvor er vill; — 4) *uterlibet,* hvor er vill.

*e,* í fimtu deild eru neitunarfornöfn, — 1) karlkynsmyndin *nemo* (af *ne,* eigi, og *homo,* maður; mangi), engi; — 2) hvorugkynsmyndin *nihil* (og *nihilum,* af *ne,* eigi, og *hilum,* eitthvað lítið, ögn), ekkert, ekki; — 3) *nullus* (af *ne,* eigi, og *ullus,* neinn), engi; — 4) *neuter* (af *ne,* og *uter,* óákveðið fornafn), hvorugur, hvorgi.

164. gr. Fornafnið *quis* og *qui* hneigist svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *quis* og *qui,* einhver; nokkur; neinn; | *qua* og *quae,* einhver; nokkur; nein; | *quod,* eitthvert; nokkurt; neitt; *quid,* eitthvað; nokkuð; neitt. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þolf. | *quem*, einhvern; nokkurn; neinn; | *quam*, einhverja; nokkura; neina; | *quod*, eitthvert; nokkurt; neitt; *quid*, eitthvað; nokkuð; neitt. |
| Eignarf. | *cujus*, einhvers; nokkurs; neins; | *cujus*, einnhverrar; nokkurrar; neinnar; | *cujus*, einhvers; nokkurs, neins. |
| Þáguf. | *cui*, einhverjum; nokkurum; neinum; | *cui*, einhverri; nokkurri; neinni; | *cui*, einhverju; nokkuru; neinu. |
| Staðarf. | *quo*, einhverjum; nokkurum; neinum; | *qua*, einhverri; nokkurri; neinni; | *quo*, einhverju; nokkuru; neinu. |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *qui*, einhverjir; nokkurir; neinir; | *quae*, einhverjar; nokkurar; neinar; | *qua* og *quae*, einhver; nokkur; nein; eitthvað; nokkuð; neitt. |
| Þolf. | *quos*, einhverja; nokkura; neina; | *quas*, einhverjar; nokkurar; neinar; | *qua* og *quae*, einhver, nokkur; nein; eitthvað; nokkuð; neitt. |
| Eignarf. | *quorum*, einhverra; nokkurra; neinna; | *quarum*, einhverra; nokkurra; neinna; | *quorum*, einhverra; nokkurra; neinna; einhvers, nokkurs; neins. |
| Þf. og stf. | *quibus*, einhverjum, nokkurum; neinum; | *quibus*, einhverjum; nokkurum; neinum; | *quibus*, einhverjum, nokkurum; neinum; einhverju; nokkuru; neinu. |

*b*, framan við *quis* og *qui*, í merkingunni nokkur, bœtist stundum *ec*, og fá þá þessar orðmyndir spurnarmerking: *ecquis* og *ecqui*, hvort nokkur (*ecqua* og *ecquae*, *ecquod* og *ecquid*, o. s. frv.).

165. gr. *Aliquis* og *aliqui* hneigist sem hið óákveðna fornafn *quis* og *qui*, nema nefnif. eintölu í kvennk., og nefnif. og þolf. fleirtölu í hvorugk., er *aliqua* (eigi *aliquae*).

166. gr. Í *quispiam* hneigist fyrri hlutinn *quis* sem spurnarfornafnið *quis* (*quispiam*, *quaepiam*, *quodpiam*, *quidpiam*), en endingin *piam* helzt óbreytt í hneigingunni.

167. gr. Í *quidam* hneigist fyrri hlutinn *qui* sem spurnarfornafns-myndin *qui* (eigi *quis*), nema *m* verður í hneigingunni að *n* næst á undan *d*: nefnif.eintölu *quidam*, *quaedam*, *quoddam*, *quiddam*; þolf. eintölu *quendam*, *quandam*, *quoddam* og *quiddam*, o. s. frv.

168. gr. Í *quivis* og *quilibet* hneigist fyrri hlutinn *qui* sem spurnarfornafns-myndin *qui* (eigi *quis*): nefnif. eintölu *quivis*, *quaevis, quodvis, quidvis; quilibet*, *quaelibet*, o. s. frv.

169. gr. Í *quisquam* hneigist fyrri hlutinn *quis*, í karlk. og hvorugk. eintölu, sem spurnarfornafns-myndin *quis* (eigi *qui*), nema nefnif. og þolf. eintölu í hvorugk. er *quicquam* (eða *quidquam*, eigi *quodquam*). Hjá fornum skáldum er nefnifallsmyndin *quisquam*, og þolfallsmyndin *quemquam*, höfð í kvennk. Fleirtala er eigi höfð af þessu orði.

170. gr. *Ullus, nullus* og *nonnullus* hneigjast sem lýsingarorðið *totus* (68. gr., β., 32. bls.).

171. gr. Í *quisque* hneigist fyrri hlutinn *quis* sem spurnarfornafns-myndin *quis: quisque, quaeque, quodque, quidque.* Í *unusquisque* hneigist *unus* sem *unus*, og *quisque* sem *quisque: unusquisque, unaquaeque, unumquodque, unumquidque;* eignarf. *uniuscujusque*, o. s. frv.

172. gr. Hið óákveðna fornafn *uter* hneigist sem fyrri hluti töluorðsins *uterque;* svo er og um fyrra hlutann í *utervis* og *uterlibet*, og síðara hlutann í *neuter*.

173. gr. *Alteruter* er sett saman af töluorðinu *alter*, og hinu óákveðna fornafni *uter*, og hneigist svo.

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennk. | Hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Nefnif. | *alteruter* (eða *alteruter*); | *alterutra ;* | *alterutrum*, *alterum utrum.* |
| Þolf. | *alterutrum, alterum utrum;* | *alterutram, alteram utram;* | *alterutrum*, *alterum utrum.* |
| Eignarf. | *alterius utrius*, í öllum kynjum. | | |
| Þáguf. | *alterutri* eða *alteri utri* í öllum kynjum. | | |
| Staðarf. | *alterutro, altero utro;* | *alterutra, altera utra;* | *alterutro*, *altero utro.* |

Fleirtala *alterutri*, o. s. frv., varla höfð.

174. gr. Hin karlkenda nafnorðsmynd *nemo* er hjá hinum betri lesmálshöfundum að eins höfð í þremur föllum eintölu, nefnif., þolf. og þáguf.: *nemo*, *nemĭnem*, *nemĭni;* eignarf. *nemĭnis*, og staðarf. *nemĭne*, eru lítið höfð, en í stað þeirra eru venjulega hafðar fallmyndirnar *nullīus* og *nullo*, af lýsingarorðinu *nullus;* af *nullus* er og þáguf. *nulli* eigi sjaldan haft fyrir *nemĭni*.

*b*, hin hvorugkenda nafnorðsmynd *nihil* (og hjá skáldum *nihilum*) hefir *nihil* í þolf. eintölu, ef það er haft sem frumlag (súbjekt),

eða viðurlag (objekt), en *nihĭlum*, ef það er haft með forsetningum; eignarf. *nihĭli* er haft, þá er talað er um verð einhvers hlutar; staðarf. *nihĭlo* er einkum haft, þá er talað er um verðlag, eður og með miðstigi lýsingarorða og atviksorða, og enn með forsetningum (þó og *nihĭlo satiari*, seðjast á engu, *Cicero Tusc.* 5,33,93). Þáguf. *nihĭlo* lítið haft (*nihilo proximum*, næst engu, *Seneca Ep.* 99,28).

*c*, til uppfyllingar við hinar eintallegu karlkendu og hvorugkendu nafnorðsmyndir, *nemo* og *nihil*, er haft,

1, í kvennk. eintölu: *nulla* (af lýsingarorðinu *nullus*): engi, t. d. *Ovid. Met.* 11,544: *Halcyone Cēyca movet; Ceycis in ore | nulla nisi Halcyone est.*

2, í fleirtölu: fleirtölumyndir lýsingarorðsins *nullus*: *nulli*, engir; *nullae*, engar; *nulla*, ekkert (ef talað er um e k k e r t í fleirtallegu sambandi, t. d. *Cic. Off.* 1,7,21: *sunt autem privatā nullā naturā*).

175. gr. Hin persónulegu fornöfn *ego* og *tu*, og hið afturbeygilega fornafn *se*, eru nafnorð (*substantiva*); hin fornöfnin eru flest ýmist lýsingarorð eða nafnorð.

176. gr. Við hin persónulegu fornöfn *ego* og *tu*, og hið afturbeygilega fornafn *se*, eiga fimm eignarfornöfn (*pronomĭna possessīva*): *meus*, minn; *tuus*, þinn; *suus*, sinn; *noster*, vor; okkar, og *vester*, yðvar; ykkar. Af þessum eignarfornöfnum hneigjast *meus*, *tuus*, *suus*, sem *purus*, nema að því, að *meus* hefir í ávarpsf. eintölu í karlk. *mī* (og *meus*); *tuus* og *suus* hafa ekki ávarpsfall. *Noster* og *vester* hneigjast sem *creber*, nema að því, að ávarpsfall er eigi haft af *vester*.

*b*, við sum föll af eignarfornöfnum þessum, einkum við staðarf. eintölu af *suus*, er stundum bœtt áherzluorðinu *pte*: *suāpte natūrā*, eftir eðli sínu.

*c*, við sum föll af *suus* er og stundum bœtt áherzluorðinu *met*: *suamet ipsum scelera occultare*, dylja sjálfur glœpi s í n a.

177. gr. Af spurnarfornafninu *quis*, hver (í eignarf *cūjus*, hvers), myndast lýsingarorðið *cūjas* (haft í karlk.), eignarf. *cujātis*: hvarrœnn, hvaðan (*cujas es?*).

178. gr. Við ýmsar deildir fornafna eiga enn nokkur lýsingarorð, þau er svo er háttað, að merking þeirra fer saman, og eru þau fyrir þá sök kölluð samfœrileg (*correlatīva*); þessi orð eru:

| Spyrjandi (*interrogatīva*). | Óákveðin (*indefinīta*). | Tilvísandi (*demonstratīva*). | Tilfœrileg (*relatīva*). | Tilfœrileg óákveðin (*relatīva indefinīta*). |
|---|---|---|---|---|
| *a, quantus,* hve mikill; | *aliquantus,* nokkuð mikill; nokkur; | *tantus,* svo mikill; | *quantus,* sem; svo mikill sem; | *quantuscunque,* hve mikill sem. |
| *b, qualis,* hvílíkur; | vantar; | *talis,* slíkur, þvílíkur; | *qualis,* sem; slíkur sem; | *qualiscunque,* hvílíkur sem. |

*b,* við hina fyrri deild þessara samfœrsluorða á orðið *quantuslibet,* svo mikill sem vill; við þá síðari *qualislibet,* slíkur sem vill.

# IX. Níundi kafli.

## Athugasemdir við lýsingarorð, töluorð og fornöfn.

179. gr. Af lýsingarorðum hefir orðið *totus* hinar afbrigðilegu myndir *īus* og *ī* (fyrir *i, ae, i,* og *o, ae, o*) í öllum kynjum eignarfalls og þágufalls í eintölu: *totius, toti.*

*b,* þessar myndir, *ius* og *i,* hafa og töluorðin *unus, solus, alter* og *alius:* eignarf. eintölu *unīus, solius, alterius, alius;* þáguf. *unī, soli, altĕri, alii.* Hinar venjulegu myndir eru mjög fátíðar: *aliae pecudis,* annarar skepnu (*Cic.*).

*c,* af fornöfnunum hafa þessar afbrigðilegu myndir (*ius* og *i*) orðin *ullus* (*nullus, nonnullus*), og *uter* (*neuter, uterque, utercunque, utervis, uterlibet*), og enn fremur orðin *ille, iste, ipse: ullīus, utrius, utriusque, illius,* o. s. frv.; *ullī, utri, utrique, illi,* o. s. frv.; *alteruter* (eða *alter uter*) hefir *alterius utrius. Neuter* hefir *neutri* í eignarf. hvorugkyns í orðasambandinu *neutri generis,* hvorugs kyns. Í eignarf. og þáguf. finnast og stundum ella af þessum orðum hinar venjulegu myndir (*nullo usui, Caesar*).

*d, jus* hafa í eignarf. eintölu, og *i* í þáguf. eint., orðin *is, idem, hic, quï, quis, quicunque,* o. s. frv.: eignarf. eintöl. *ējus, ejusdem, hūjus, cujus, cujuscunque,* o. s. frv.; þáguf. *ei, huic* (þ. e. *hui-ce*), *cui, cuicunque,* o. s. frv.

*e,* fyrir *ipse* er haft *ipsus* í fornlegu máli; fyrir *ille, ollus.*

*f, d* fyrir *m* að niðurlagi hafa í hvorugk. eintölu orðin *ille, iste, is, qui, quis,* o. s. frv.; hvorugk. eintölu í nefnif. og þolf.: *illud* (eigi *illum*), *istud, id, quod, quid,* o. s. fr.; *īdem* hefir *ĭdem* í hvk.

180. gr. Þá er lýsingarorð (*adjectiva*) eru höfð með nafnorðseðli (*substantivalĭter*), er hvorugkyn fleirtölu oft þýtt með eintal-

legum orðum á vora tungu: *pulcher,* fagur; *pulchra,* það er fagurt er, hið fagra; *multa,* margt; *pauca,* fátt.

*b,* þá er töluorð (*numerālia*), eða fornöfn (*pronomĭna*), eru höfð með nafnorðs-eðli, er hvorugkyn fleirtölu oftast þýtt með eintallegum orðum á vora tungu: *duo,* tvent (121. gr., b, 45. bls.); *tria,* þrent; *utraque,* hvorttveggja (46. bls.); *ea,* það (140. gr., 52. bls.); *quae,* (það) er, o. s. frv.

# X. Tíundi kafli.

### Sagnorð (verba).

181. gr. Sagnorð skiftast eftir merkingu sinni í tvær höfuðdeildir, áhrifssagnir (*verba transitīva*), og áhrifslausar sagnir (*verba intransitiva*).

182. gr. Áhrifssagnir merkja, að einhver gjörir eitthvað við einhvern eða við eitthvað, og er haft þolfall (*accus.*) með þeim: *deus mundum conservat,* guð varðveitir heiminn. Áhrifslausar sagnir merkja, að einhver eða eitthvað er í einhverju ásigkomulagi, eða að einhver hefst eitthvað það að, er eigi kemur niður á öðrum mönnum eða hlutum: *dormio,* eg sef; *curro* eg hleyp.

183. gr. Mörg sagnorð eru bæði höfð sem áhrifssagnir og áhrifslausar sagnir: *hoc saepe legi,* eg hefi oft lesið þetta; *Paulus bene legit,* Páll les vel.

184. gr. Þau sagnorð latneskrar tungu, er hafa verknaðarmynd (*forma actīva*), t. d. *curvo,* eg beygi (*senectus hominem curvat,* ellin beygir manninn), fá nýja mynd, er kölluð er þolmynd (*forma passīva*), og merkir hún, að eitthvað er gjört við einhvern eða eitthvað, eða, með öðrum orðum, að einhver eða eitthvað verður fyrir einhverju, t. d. *curvor,* eg er beygður (*homo senectute curvatur,* maðurinn beygist af ellinni).

185. gr. Áhrifslausar sagnir (*verba intransitīva*), eða áhrifssagnir, þá er þær eru hafðar sem áhrifslausar, hafa þolmynd (*formam passīvam*) að eins í þriðju persónu eintölu í hvorugkyni, í nafnhætti (*infinitīvo*), og í hvorugkyni hluttaksorðs í núlegri tíð og núliðinni (*neutro participii praesentis et perfecti*): *sedētur,* setið er; *sessum est,* setið hefir verið; *sedēri,* (að) vera setið; *sedendum,* sitjanda; *sessum,* setið.

186. gr. Sum sagnorð hafa eftir eðli sínu enga þolmynd, t. d. *niteo,* eg glói; *floreo,* eg er í blóma; *sum,* eg er.

187. gr. Oft er svo að orði komizt, að tvær sè tegundir

sagnorða (*genĕra verbōrum*), verknaðartegund (*genus activum: curvo*, eg beygi; *sedeo*, eg sit), og þoltegund (*genus passivum: curvor*, eg er beygður; *sedetur*, setið er). Er þá verknaðartegund (*genus activum*) reyndar sama sem verknaðarmynd (*forma activa*), og þoltegund (*genus passivum*), sama sem þolmynd (*forma passiva*).

188. gr. Hættir sagna (*modi verborum*) eru fjórir, — 1) framsöguháttur (*modus indicatīvus*); — 2) viðtengingarháttur (*modus conjunctīvus*); — 3) boðháttur (*modus imperatīvus*), og — 4) nafnháttur (*modus infinitīvus*).

189. gr. Auk þessara hátta (*modi*) hafa sagnorð aðrar þrennar myndir, — 1) hluttaksorð (*participia*); — 2) nafnháttar-auka (*gerundium*); — 3) sagnbœtur (*supīna*).

190. gr. Hluttaksorð (*participia*) eru fjögur, tvö í verknaðarmynd (*forma activa, activum*), — 1) núlegt, og — 2) ókomið (*participium praesentis tempŏris actīvum*, og *participium futūri tempŏris actīvum*), og tvö í þolmynd (*forma passiva, passivum*), — 1) núlegt og — 2) núliðið (*participium praesentis tempŏris passīvum*, og *participium perfecti temporis passīvum*): — 1) *curvans*, beygjandi, er beygir; — 2) *curvatūrus*, munandi beygja; ætlandi að beygja; er mun beygja; er ætlar að beygja; — 3) *curvandus*, beygjandist, er beygður er; eigandi að beygjast, er beygjast skal; þetta hluttaksorð er venjulega kallað skyldarorð (*gerundivum*); — 4) *curvātus*, beygður, hafandi verið beygður, er beygður hefir verið.

191. gr. Nafnháttar-auki (*gerundium*) hefir sömu mynd sem hvorugkyn hlutaksorðs núlegs tíma í þolmynd (*neutrum participii praesentis passivi*); hann er eftir eðli sínu eins konar uppfylling nafnháttar í verknaðarmynd (*complementum infinitivi activi*), og er að eins hafður í þolf., eignarf., þáguf. og staðarf. eintölu (*acc.*, *gen.*, *dat.* og *abl. sing.*).

192. gr. Sagnbœtur (*supina*) eru tvær, og er hin fyrri sem kvorugkyn hluttaksorðs núliðinnar tíðar í þolmynd (*neutrum participii perfecti passivi*): *curvatum*, að beygja, til að beygja; síðari myndin er eins, nema hún er *m*-laus að niðurlagi: *curvatu*, að beygja; í beygingu, að beygingu.

193. gr. Tíðir sagna (*tempora verborum*) eru sex, — 1) núleg tíð (*tempus praesens*); — 2) þáleg tíð (*tempus praeterĭtum imperfectum*); — 3) núliðin tíð (*tempus praeterĭtum perfectum*); — 4) þáliðin tíð (*tempus praeterĭtum plusquamperfectum*); — 5) núókomin tíð (*tempus futūrum simplex*); — 6) liðin ókomin tíð (*tempus futūrum exactum*).

194. gr. Allar þessar sex tíðir eru hafðar í framsöguhætti og viðtengingarhætti verknaðarmyndar (*indicativo* og *conjunctivo activi*), og í framsöguhætti þolmyndar (*indicativo passivi*); í viðtengingarhætti þolmyndar (*conjunctivo passivi*) vantar núókomna tíð (*futurum simplex*). Í boðh. (*imperat.*) eru hafðar tvær tíðir, núleg tíð og núókomin; í nafnh. (*infinit.*) eru hafðar í verknaðarmynd fjórar tíðir, núleg tíð, núliðin t., núókomin t., og þáliðin skildagatíð (*tempus plusquamperfectum conditionale*); í þolm. þrjár hinar fyrri.

195. gr. Tölur sagnorða (*numĕri verbōrum*) eru tvær, eintala og fleirtala; persónur þrjár: fyrsta persóna (eg; vèr; við); önnur persóna (þú; þèr; þið), og þriðja persóna (hann, hún, það; þeir, þær, þau).

196. gr. Beygingar sagna (*conjugationes verborum*) eru fjórar. Stofn þeirra orða, er hneigjast eftir fyrstu beygingu, endar á *a;* þeirra, er hneigjast eftir annari, á *e;* þeirra eftir þriðju á samhljóðanda eða *u,* og þeirra eftir fjórðu á *i.* Við þessar stofnendingar bœtast persónumerki og aðrar viðaukaendingar á ýmsan hátt og með ýmsum breytingum.

197. gr. Í nokkurum sögnum hinnar þriðju beygingar er *i,* í sumum tíðum og háttum, haft aftan við stofn, er endast á samhljóðanda (*cap-i-o,* eg tek).

198. gr. Til þess að beygja (conjugera) latínsk sagnorð, er einkum áríðanda að þekkja fjórar sagnmyndir í verknaðarmynd (*activo*), og eru þær fyrir því kallaðar kennimyndir; þær eru, — 1) fyrsta persóna eintölu í núlegri tíð í framsöguhætti (*prima persona singularis praesentis indicativi*); — 2) fyrsta persóna eintölu í núliðinni tíð í framsöguhætti (*prima persona singularis perfecti indicativi*); — 3) hin fyrri sagnbót (*supinum prius*); — 4) nafnháttur núlegrar tíðar (*infinitivus praesentis*). Þessar myndir eru í hinni fyrstu beygingu (conjugation): *o, āvi, ātum, āre;* í annari: *eo, ui, ĭtum, ēre;* í hinni þriðju: *o, si, tum, ĕre;* í hinni fjórðu: *io, īvi, ītum, īre.*

199. gr. Sögnin *sum,* eg er, er í sumum tíðum og háttum (*temporibus* og *modis*) höfð sem hjálparsögn við hinar almennu beygingar, og setjum vèr því beyging hennar hèr á undan beygingu hinna.

### A, Verknaðarmynd (*activum*).

#### 1, Framsöguháttur (*indicativus*).

##### a, núleg tíð (praesens).

| | Eintala. | Fleirtala. |
|---|---|---|
| 1. persóna, | *sum,* eg er, eg em. | *sŭmus,* vèr erum (við erum). |

215. gr. Hluttaksorð, er endast á *us* (*tus, sus, xus, urus, dus*) hafa þrjár endingar (með þremur kynferðum), og hneigjast sem *purus*: *vestītus, vestita, vestitum*, klæddur, klædd, klætt; *vestiti, vestitae, vestita*, klæddir, klæddar, klædd.

*b*, hluttaksorð, er endast á *ans* og *ens*, hafa (í nefnifalli eintölu) eina ending (með þremur kynferðum), og hneigjast sem lýsingarorðið *sapiens* (91. gr., *b*, 35. bls.): *curvans*, beygjandi, (sá) er beygir; *curvans*, beygjandi, (sú) er beygir; *curvans*, beygjanda, (það) er beygir; — þolfall: *curvantem*, beygjanda, (þann) er beygir; *curvantem*, beygjandi, (þá) er beygir; *curvans*, beygjanda, (það) er beygir, o. s. frv.; — fleirtala: *curvantes*, beygjandi (og beygjendur), (þeir) er beygja; *curvantes*, beygjandi (og beygjendur), (þær) er beygja; *curvantia*, beygjandi, (þau) er beygja, o. s. frv.

β, í sèrstœðum staðarföllum (*ablativi absoluti*) er *e* venjulega (sjaldan *i*) haft í staðarfalli eintölu: *oriente sole*, að upprennandi sólu, í sólarupprás; *Traquinio regnante*, þá er Tarkvín sat að ríki, á (ríkisstjórnar)dögum Tarkvíns.

216. gr. Auk þeirra þýðinga, er hafðar eru á sagnorðum hèr að framan, eru oft hafðar ýmsar aðrar þýðingar; svo er t. d.,

*a*, í staðinn fyrir: eg beygi, eg beygða, eg hefi beygt, o. s. frv. (202 gr., 67. bls., o. s. frv.), oft sagt, einkum í núveranda máli: eg er að beygja, eg var að beygja, eg hefi verið að beygja, o. s. frv.; sömuleiðis í þolmynd: verið er að beygja mig, verið hefir verið að beygja mig, o. s. frv.; eða: það er verið að beygja mig, það var verið að beygja mig, o. s. frv.

*b*, núliðin tíð framsöguháttar, t. d. *fui*, eg hefi verið (65. bls.), er oft þýdd svo í frásögn um þálega viðburði (*perfectum historicum, aoristos*), að sagt er: eg var; *curvāvi*, eg beygða; *curvātus est*, hann var beygður, o. s. frv.

*c*, núliðin tíð er og oft þýdd svo, að sagt er t. d.: *curvāvi*, eg er búinn að beygja; *carpsisti*, þú ert búinn að tína; — þáliðin tíð: *curvavĕram*, eg var búinn að beygja; *vestītus eram*, búið var að klæða mig, eða: það var búið að klæða mig, o. s. frv.

*d*, núókomin tíð framsöguháttar er oft þýdd með: skal, eða: ætla (að): *ero*, eg skal vera, eg skal verða; eg ætla að vera, eg ætla að verða; *capiam*, eg skal taka; eg ætla að taka; — þolmynd: *curvabĭtur*, hann skal verða beygður; — þessi tíð er og oft, einkum í aukagreinum, þýdd sem núleg tíð.

*e*, liðin ókomin tíð í báðum háttum (framsöguhætti og viðtengingarhætti) er oft þýdd með: eg mun verða búinn (eg skal verða

búinn, eg ætla að verða búinn, eg verð búinn, eg er búinn), og að með nafnhætti hinnar íslenzku sagnar, t. d.: *cum tu venies, ego literas scripsero,* þá er þú kemur, mun eg verða búinn að rita brèfið, eða: verð eg búinn að rita brèfið, o. s. frv.

*f,* núleg tíð viðtengingarháttar er oft þýdd með: muni og skuli (og mundi og skyldi); þáleg tíð hins sama háttar með mundi og skyldi; þáliðin tíð sama háttar með: mundi hafa og skyldi hafa: *vereor, ne quis hoc faciat,* eg er hræddur um, að einhver muni gjöra þetta; *amicus tuus mihi scribit, ut quam primum ad te veniam,* vinur þinn ritar mèr, að eg skuli koma sem fyrst til þín; *quis tale donum repudiet?* hver skyli drepa hendi við slíkri gjöf (eftir fornu máli)? eða: hver skyldi drepa hendi við slíkri gjöf? *dies me deficiat, si haec omnia commemorare velim,* mèr mundi verða dagfátt, ef eg vildi minnast á alt þetta; *si te consolari possem, jam pridem ad te venissem,* ef eg gæti huggað þig, skyldi eg hafa komið til þín fyrir löngu.

*g,* þær myndir núókominnar tíðar í viðtengingarhætti, er nefndar eru hèr að framan: *futurus sim* (199. gr., 66. bls.), *curvaturus sim* (69. bls.), *territurus sim* (74. bls.), o. s. frv., eiga við núlega ókominn tíma: *Agamemno non dubitat, quin brevi sit Troja peritura,* Agamemnon efar eigi, að Trója muni bráðum undir lok líða; — ef talað er um ókominn tíma í þálegu sambandi, er höfð þáleg tíð viðtengingarháttar af *sum*: *essem, esses, esset,* o. s. frv., með hluttaksorði núókominnar tíðar af hinni latnesku höfuðsögn: *non erat dubium, quin hostes urbem capturi essent,* eigi lèk efi á, að fjandmennirnir mundi taka borgina.

β, á líkan hátt er þáliðin tíð viðtengingarháttar (*plusquamperfectum conjunctivi*) höfð með merkingu liðinnar ókominnar tíðar (*significatione futuri exacti conjunctivi*), ef talað er um eitthvað í þálega ókomnum tíma, t. d.: *hospes dixit, viatorem, cum dies illuxisset, abiturum esse,* húsbóndi kvað ferðamann mundu fara á braut, þá er lýsti af degi.

*h,* um myndir núókominnar tíðar í nafnhætti er athuganda, að sömu myndirnar (*curvaturum esse, curvatum iri*) eru hafðar bæði um núlega og þálega atburði í ókominni tíð, hvort er tíð höfuðsagnar er núleg eða þáleg, þótt greining sè þar á gjör í íslenzku máli: *Agamemno dicit, Trojam brevi esse perituram,* Agamemnon kveður Tróju munu bráðum undir lok líða, eða: Agam. segir, að Trója muni (núleg tíð) bráðum undir lok líða; *Agamemno dixit, Trojam brevi perituram esse,* Agamemnon kvað

Tróju mundu bráðum undir lok líða, eða: Agamemnon sagði, að Trója mundi (þáleg tíð) bráðum undir lok líða; *advena dicit, se tertio die reversurum esse*, komumaður kveðst (þ. e. kveður sig) skulu aftur hverfa á þriðja degi, eða: komumaður segir, að hann skuli aftur hverfa á þriðja degi; *advena dixit, se tertio die reversurum esse*, komumaður kvaðst (þ. e. kvað sig) skyldu aftur hverfa á þriðja degi, eða: komumaður sagði, að hann skyldi aftur hverfa á þriðja degi.

β, á líkan hátt eru núleg tíð nafnháttar, og þáleg tíð sama háttar, hafðar með ýmislegri tímagreiningu: *fateor me hoc facĕre*, eg játa, að eg gjöri þetta; *fatēbar me hoc facere*, eg játaða, að eg gjörða þetta; *fateor me hoc fecisse*, eg játa, að eg gjörða (hefi gjört, hafða gjört) þetta, og fleira þvílíkt.

*i*, þau hluttaksorð latneskrar tungu, er höfð eru með nafnháttum af sagnorðinu *sum*, til þess að mynda nafnháttu sagna: *futurum esse* (199. gr., 67. bls.), *curvaturum fuisse* (70. bls.), *territum esse* (76. bls.), o. s. frv., höfum vèr haft í þolfalli, en eigi nefnifalli, af því að oss þótti það nærr eðli latneskrar tungu: *puto eum statim venturum esse*, eg hygg hann munu þegar koma; eg hygg, að hann muni þegar koma; *audio tres naves captas esse*, eg heyri þrjú skip tekin hafa verið, þ. e.: eg heyri, að þrjú skip hafi tekin verið.

β, þó er það oft í latínu (í þolmyndargreinum), að hluttaksorð nafnhátta (*participia infinitivorum*) eru höfð í nefnifalli: *urbes putantur captae esse*, borgirnar hyggjast teknar hafa verið, þ. e.: það er ætlan manna, að borgirnar hafi teknar verið.

*k*, þáliðna skildagatíð nafnháttar í verknaðarmynd: *futurum fuisse* (199. gr., 67. bls.), *curvaturum fuisse* (70. bls.), *territurum fuisse*, o. s. frv., höfum vèr tekið inn í hinar almennu sagnbeygingar, þótt svo sè eigi gjört í öðrum orðmyndafræðum; stenzt þessi nafnháttarmynd á við þáliðna tíð viðtengingarháttar (*plusquamperfectum conjunctivi*), þá er þessi tíð er höfð í höfuðlið skildagagreinar, t. d.: *Alexandro si vita data longior esset, oceanum manus Macedonum transvolasset*, ef Alexander hefði orðið lengra lífs auðið, hefði lið Macedóníumanna flogið út yfir útsæ; þáliðin skildagatíð nafnháttar: *puto, manum Macedonum, si Alexandro vita data longior esset, oceanum transvolaturam fuisse*, eg hygg lið Macedóníumanna mundu flogið hafa út yfir útsæ, ef Alexander hefði orðið lengra lífs auðið, eða: eg hygg, að lið Macedóníumanna mundi hafa flogið út yfir útsæ, ef Alexander, o. s. frv.

β, ef hafa þarf þáliðna skildagatíð nafnháttar í þolmynd, er

höfð sameining (*circumscriptio*), — α, þáliðinnar skildagatíðar nafnháttar af *sum*, og — β, samtengingarorðsins *ut*, og — γ, þálegrar tíðar viðtengingarháttar af sagnorði því, er við skal hafa: *nisi eo tempore hi nuncii essent allati, existimabant plerique, futurum fuisse, ut oppidum expugnaretur,* ef þessar fregnir hefði eigi borizt í það mund, ætluðu flestir, að borgin mundi hafa unnin orðið (sbr. *Caes. de bell. civ.,* 3,101).

*l,* svo sem vèr höfum hluttaksorð latneskrar tungu í þolfalli, þá er þau eru höfð með nafnháttum af sagnorðinu *sum* til þess að mynda nafnháttu sagna (sbr. *i*-liðinn hèr að framan), svo höfum vèr og hluttaksorð íslenzkrar tungu í þolfalli, þá er þau eru höfð með nafnháttum hjálporðanna vera, hafa, munu og verða; sbr. vera beygðan, hafa verið beygðan, munu verða beygðan (202. gr., 73. bls.). Höfum vèr gjört þetta, til þess að þýðingin færi sem næst latínunni, þótt slíkir nafnhættir sè venjulega öðruvís þýddir á íslenzku; sbr. þýðingarnar við i-liðinn.

*m,* þolmynd áhrifssagna með verknaðarmynd (*forma passiva verborum transitivorum formae activae*) hefir oft aftursveigilega merking (*significationem reflexivam*), eða jafnvel áhrifslausa merking (*significationem intransitivam*), t. d. *curvor,* eg beygist; eg bogna; *feror*, eg berst (af *fero,* eg ber); *frangor*, eg brotna (*frango,* eg brýt); *terreor*, eg skelfist, eg verð hræddur; þáleg tíð *curvābar*, eg beygðist, eg bognaða, o. s. frv.

## Tvíorðaðar sagnbeygingar (*conjugationes periphrasticae*).

217. gr. Tvíorðaðar sagnbeygingar myndast, — *a,* af hluttaksorði núókominnar tíðar í verknaðarmynd og sagnorðinu *sum* (*conjugatio periphrastica participii futuri activi et deponentis* með *sum*); — *b*, af hluttaksorði núliðinnar tíðar í þolmynd og sagnorðinu *sum* (*conjug. periphr. participii perfecti passivi* með *sum*); — *c*, af skyldarorði og sagnorðinu *sum* (*conjug. periphr. gerundivi* með *sum*), og — *d*, af hvorugkyni skyldarorðs og sagnorðinu *sum* (*conjug. periphr. neutri generis gerundivi* og *sum*).

### 218. gr. A, Tvíorðuð sagnbeyging hluttaksorðs núókominnar tíðar í verknaðarmynd og sagnorðsins *sum* (*conjugatio periphrastica participii futuri activi et deponentis* með *sum*).

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *curvatūrus sum*, eg ætla að beygja.

*curvatūrus es*, þú ætlar að beygja.
*curvatūrus est*, hann ætlar að beygja.
*curvatūri sumus*, vèr ætlum að beygja.
*curvatūri estis*, þèr ætlið að beygja.
*curvatūri sunt*, þeir ætla að beygja.

b, þáleg tíð, *curvatūrus eram*, eg ætlaða að beygja.
*curvatūrus eras*, þú ætlaðir að beygja, o. s. frv.

c, núliðin tíð, *curvatūrus fui*, eg hefi ætlað að beygja.
*curvatūrus fuisti*, þú hefir ætlað að beygja, o. s. frv.

d, þáliðin tíð, *curvatūrus fueram*, eg hafða ætlað að beygja, o. s. frv.

e, núókomin tíð, *curvatūrus ero*, eg mun ætla að beygja; eg ætla (síðar meir) að beygja, o. s. frv.

f, liðin ókomin tíð, *curvatūrus fuĕro*, eg mun hafa ætlað að beygja; eg hefi ætlað að beygja; eg ætla að beygja, o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *curvatūrus sim*, eg ætli að beygja.
*curvatūrus sis*, þú ætlir að beygja, o. s. frv.

b, þáliðin tíð, *curvatūrus essem*, eg ætlaði að beygja, o. s. frv.

c, núliðin tíð, *curvatūrus fuĕrim*, eg hafi ætlað að beygja, o. s. frv.

d, þáliðin tíð, *curvatūrus fuissem*, eg hefði ætlað að beygja, o. s. frv.

e, núókomin tíð, eigi höfð.

f, liðin ókomin tíð, *curvatūrus fuerim*, eg muni hafa ætlað að beygja; eg hafi ætlað að beygja; eg ætli að beygja, o. s. frv.

3, Nafnháttur.

a, núleg tíð, *curvatūrum esse*, ætla að beygja.

b, núliðin tíð, *curvatūrum fuisse*, hafa ætlað að beygja.

219. gr. B, Tvíorðuð beyging hluttaksorðs núliðinnar tíðar í þolmynd og sagnorðsins *sum* (*conjugatio periphrastica participii perfecti passivi* með *sum*).

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *divīsus sum*, eg er deildur.
*divīsus es*, þú ert deildur, o. s. frv.

b, þáleg tíð, *divīsus eram*, eg var deildur, o. s. frv.

c, núliðin tíð, *divīsus fui*, eg hefi verið deildur, o. s. frv.

d, þáliðin tíð, *divisus fuĕram,* eg hafða verið deildur, o. s. frv.
e, núókomin tíð, *divīsus ero,* eg mun verða deildur; eg verð deildur, o. s. frv.
f, liðin ókomin tíð, *divīsus fuĕro,* eg mun hafa verið deildur; eg hefi verið deildur; eg verð deildur, o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *divīsus sim,* eg sè deildur, o. s. frv.
b, þáleg tíð, *divīsus essem,* eg væri deildur, o. s. frv.
c, núliðin tíð, *divīsus fuĕrim,* eg hafi verið deildur, o. s. frv.
d, þáliðin tíð, *divīsus fuissem,* eg hefði verið deildur, o. s. frv.
e, núókomin tíð, eigi höfð.
f, liðin ókomin tíð, *divīsus fuĕrim,* eg hafi verið deildur; eg verði deildur, o. s. frv.

3, Boðháttur.

a, núleg tíð, *divīsus es,* ver þú deildur;
*divīsi este,* verið þèr deildir, o. s. frv.

4, Nafnháttur.

a, núleg tíð, *divīsum esse,* vera deildan; að vera deildur.
b, núliðin tíð, *divīsum fuisse,* hafa verið deildan; að hafa verið deildur.
c, núókomin tíð, *divīsum fore,* munu verða deildan.

*b,* beyging þessi táknar ásigkomulag, og hefir hluttaksorðið í henni nálega fengið eðli lýsingarorðs.

220. gr. c, Tvíorðuð beyging skyldarorðs og sagnorðsins *sum* (*conjugatio periphrastica gerundivi* með *sum*).

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *vestiendus sum,* eg er klæðandi, mig skal klæða, mig á að klæða.
*vestiendus es,* þig skal klæða, þig á að klæða, o. s. frv.
b, þáleg tíð, *vestiendus eram,* eg var klæðandi, mig skyldi klæða, mig átti að klæða, o. s. frv.
c, núliðin tíð, *vestiendus fui,* eg hefi verið klæðandi, mig hefir átt að klæða, o. s. frv.
d, þáliðin tíð, *vestiendus fuĕram,* eg hafða verið klæðandi, mig hafði átt að klæða, o. s. frv.
e, núókomin tíð, *vestiendus ero,* eg mun verða klæðandi, mig mun eiga að klæða, o. s. frv.

f, liðin ókomin tíð, *vestiendus fuĕro,* eg mun hafa verið klæðandi, mig hefir átt að klæða, mig á að klæða, o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *vestiendus sim,* eg sè klæðandi, mig skuli klæða, mig eigi að klæða.

b, þáleg tíð, *vestiendus essem,* mig skyldi klæða, mig ætti að klæða, o. s. frv.

c, núliðin tíð, *vestiendus fuĕrim,* mig hafi átt að klæða.

d, þáliðin tíð, *vestiendus fuissem,* mig hefði átt að klæða, o. s. frv.

e, núókomin tíð, eigi höfð.

f, liðin ókomin tíð, *vestiendus fuĕrim,* mig hafi átti að klæða; mig eigi að klæða, o. s. frv.

3, Nafnháttur.

a, núleg tíð, *vestiendum esse,* vera klæðanda, skulu verða klæddan, eiga að verða klæddan.

b, núliðin tíð, *vestiendum fuisse,* hafa átt að klæðast.

c, núókomin tíð, *vestiendum fore,* munu skulu klæðast, munu eiga að klæðast.

221. gr. D, Tvíorðuð beyging skyldarorðs í hvorugkyni og sagnorðsins *sum* (*conjugatio periphrastica gerundivi* í *neutro* með *sum*).

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *arandum est,* plœgjanda er, plœgja skal, plœgja á.

b, þáleg tíð, *arandum erat,* plœgjanda var, plœgja skyldi, plœgja átti.

c, núliðin tíð, *arandum fuit,* plœgja hefir átt, menn hafa átt að plœgja.

d, þáliðin tíð, *arandum fuĕrat,* hafði átt að plœgja, menn höfðu átt að plœgja.

e, núókomin tíð, *arandum erit,* mun eiga að plœgja; á að plœgja.

f, liðin ókomin tíð, *arandum fuĕrit,* hefir átt að plœgja; á að plœgja.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *arandum sit,* plœgjanda sè, skuli plœgja, eigi að plœgja.

b, þáleg tíð, *arandum esset,* skyldi plœgja, ætti að plœgja.

c, núliðin tíð, *arandum fuĕrit,* hafi átt að plœgja.

d, þáliðin tíð, *arandum fuisset,* hefði átt að plœgja.

e, núókomin tíð, eigi höfð.

f, liðin ókomin tíð, *arandum fuĕrit,* hafi átt að plœgja; eigi að plœgja.

3, Nafnháttur.

a, núleg tíð, *arandum esse*, plœgjanda vera, skulu plœgja, eiga að plœgja.
b, núliðin tíð, *arandum fuisse*, hafa átt að plœgja.
c, núókomin tíð, *arandum fore*, munu eiga að plœgja.

## Athugasemdir við sagnorð, einkum við tvíorðaðar sagnbeygingar (*conjugationes periphrasticas*).

222. gr. Tvíorðaðar sagnbeygingar eru oft þýddar á ýmsan annan hátt, en gjört er hèr að framan; svo er t. d. oft sagt: *vestiendus sum*, mig þarf að klæða; mig verður að klæða; menn skulu klæða mig, menn eiga að klæða mig; menn þurfa að klæða mig; menn verða að klæða mig; það skal klæða mig, það á að klæða mig; það þarf að klæða mig; það verður að klæða mig; — þáleg tíð: *vestiendus eram*, það þurfti að klæða mig, o. s. frv. (sbr. 220. gr., 97. til 98. bls.).

223. gr. Hjálpsagnarmyndirnar *fui*, *fuisti*, o. s. frv., eru stundum hafðar fyrir *sum*, *es*, o. s. frv., til að mynda með þeim núliðna tíð hinna almennu sagnbeyginga: *curvatus fui*, sama sem *curvatus sum*, eg hefi verið beygður (202. gr., 70. bls.); *curvatus fuisti*, sama sem *curvatus es*, o. s. frv. (sbr. *divisus sum*, eg er deildur (219. gr., 96. til 97. bls.); *divisus eram*, eg var deildur, o. s. frv.

*b*, á líkan hátt eru hjálpsagnarmyndirnar *fueram*, *fueras*, o. s. frv., eigi sjaldan hafðar fyrir *eram*, *eras*, o. s. frv.: *curvatus fueram*, eg hafða verið beygður, o. s. frv. (sbr. 71. bls.).

224. gr. Um stöðu hjálparorðsins *sum* (*es*, *est*, o. s. frv.) er athuganda, að það er eigi að eins haft eftir hluttaksorði því, er það á við, heldur og oft á undan því: *curvaturum esse*, og *esse curvaturum*; *territus est*, og *est territus*; *vestiendus fuit*, og *fuit vestiendus*.

*b*, sumum myndum hjálpsagnarinnar *sum* er oft slept, einkum *est*, *sunt* og *esse*: *curvatus*, sama sem *curvatus est*, var beygður; *curvati*, sama sem *curvati sunt*; *curvaturos*, sama sem *curvaturos esse*.

## Afbrigðileg sagnorð (*verba irregularia*; *verba anomala*).

225. gr. Flest sagnorð latneskrar tungu hneigjast eftir fyrstu beygingu, færri eftir hinum þremur.

226. gr. Þá er eitthvert sagnorð hneigist eftir einhverri beygingu á þann hátt, er sýnt er hèr að framan, er sagt um það, að

það hafi venjulega beyging (sè reglulegt), t. d.: *firmo,* eg styrki; *firmāvi,* eg hefi styrkt; *firmātum, firmāre;* þolmynd *firmor,* eg er styrktur; *firmātus sum,* eg hefi verið styrktur; *firmari; clamo,* eg kalla; *clamāvi, clamātum, clamāre;* þolmynd *clamatur,* kallað er; *clamātum est,* kallað hefir verið; *clamari,* o. s. frv.

*b,* eigi fá sagnorð hafa afbrigðilega mynd, annaðhvort, — *α,* bæði í núliðinni tíð (*perfecto*), og sagnbót (*supino*), og þeim myndum, er leiddar eru af þessum tveimur höfuðmyndum, eða — *β,* í annari hvorri þessara höfuðmynda, og þeim myndum, er þar af eru leiddar; t. d. *domo,* eg tem, *domābam,* eg tamda (eftir fyrstu beygingu); núliðin tíð *domui,* eg hefi tamið (eftir annari beygingu); þáliðin tíð *domueram;* sagnbót *domĭtum* (eftir annari); nafnháttur *domāre* (eftir fyrstu); *sepelio,* eg greftra; þáleg tíð *sepeliēbam;* núlið. tíð *sepelīvi* (eftir fjórðu); sagnbót *sepultum* (eigi *sepelītum*); *vĕnio,* eg kem; þáleg tíð *vĕniēbam*; núlið. tíð *vēni* (eigi *vĕnīvi*); nafnháttur *vĕnīre* (eftir fjórðu); þolmynd *vĕnītur,* komið er, menn koma; þálið. tíð *ventum est* (eigi *vĕnītum est*), komið hefir verið, menn hafa komið.

227. gr. Þau sagnorð, er hneigjast eftir þriðju beygingu (sem *carpo*), eru nálega öll, á einhvern hátt, meir eða minna afbrigðileg (*irregularia*); svo er og um flest þau, er hneigjast eftir annari. Af þeim, er hneigjast eftir fjórðu, eru nokkur afbrigðileg; af þeim eftir fyrstu eftir tiltölu heldur fá.

228. gr. Vèr setjum hèr í stafrófsröð ósamsettar myndir flestra afbrigðilegra latneskra sagnorða, og getum jafnfram ýmsra samsetninga þeirra.

229. gr. *Aboleo,* sjá oleo 1.

*Accendo,* sjá cando.

*Accerso,* sjá *arcesso.*

*Acuo, acui,* (acūtum), *acuĕre,* eg hvessi, hvet, brýni. Hluttaksorð núliðinnar tíðar (participium perfecti) *acūtus,* haft að lýsingarorði: beittur, hvass, snarpur.

*Adoleo,* sjá *oleo* 2.

*Adolesco,* sjá olesco.

*Adipiscor,* sjá *apiscor.*

*Ăgo, ēgi, actum, agĕre,* eg rek, hefi á undan mèr; eg gjöri, breyti; eg leik (eitthvað eða einhvern). *Abĭgo, abēgi, abactum, abigĕre,* eg rek á braut. Svo og *adĭgo* og fleiri. *Perăgo, perēgi, peractum, peragĕre; circumăgo, circumēgi, circumactum, circumagĕre. Dēgo* (af *de* og *ago*), *dēgi* (fátítt), —, *degĕre,* eg el, lifi (*aetatem*

*degĕre*). *Ambĭgo*, —, —, *ambigĕre*, eg er í óvissu. *Cōgo*, *cŏēgi*; *coactum*, *cogĕre*, eg rek saman; safna; neyði.

*Āio*, eg segi já, eg jái; eg segi, beygist svo.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *āio*, *ăis*, *ăit*, —, —, *āiunt*.

b, þáleg tíð, *āiēbam*, *āiēbas*, o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, —, *āias*, *āiat*, —, —, *āiant*.

b, hluttaksorð núlegrar tíðar, *āiens*, haft að lýsingarorði: játandi.

Ălesco, —, —, alescĕre, eg vex, þróast (fátítt). *Coalesco*, *coalui*, *coalĭtum*, *coalescĕre*, eg vex saman, renn saman.

*Algeo*, *alsi*, —, *algēre*, mèr er kalt.

*Ălo*, *alui*, *altum* og alĭtum, *alĕre*, eg fœði, nœri, el; glœði, efli. Hluttaksorð núókominnar tíðar *alĭtūrus*.

*Ambio*, sjá *eo*.

*Amicio*, sjá *iacio*.

*Amplector*, sjá *plecto*.

*Ango*, (anxi), —, *angĕre*, eg kreppi að; angra; þjái.

*Antecello*, sjá cello.

*Ăpăge*, önnur persóna eintölu boðháttar í núlegri tíð, haf á braut, (á gr. ἄπαγε): *apage te*, haf þig á braut; snáfaðu í burtu.

*Ăpĕrio*, *ăpĕrui*, *apertum*, *aperīre*, eg opna, lýk upp. Sbr. *operio*.

Ăpio, —, —, apĕre, eg bind, tengi (úrelt). Hluttaksorð núliðinnar tíðar í þolmynd *aptus*, haft að lýsingarorði: vel fallinn, hentur, hendur. Coepio (þ. e. co-apio, con apio), *coepi* og *coeptus sum*), *coeptum*, coepĕre, eg byrja, tek (núleg tíð og þær myndir, er þar af leiðast, úreltar; en í þeirra stað er haft *incipio*, og þær myndir, er þar af leiðast). Myndin *coeptus sum* er höfð með nafnhætti þolmyndar: *domus aedificāri coepta est*, tekið hefir verið að reisa hús; tekið var að reisa hús.

*Apiscor*, *aptus sum*, *apisci*, eg næ, öðlast (fátítt). *Adipiscor*, *adeptus sum*, *adipisci*, *a*, eg næ (einhverjum á ferð); — *b*, eg næ, öðlast.

*Arceo*, *arcui*, —, *arcēre*, eg lyk um; eg byrgi úti; held frá; held frá mèr. *Exerceo*, *exercui*, *exercĭtum*, *exercēre*, *a*, eg hefi í hreyfingu, eg læt starfa; — *b*, eg þjái; — *c*, eg hefi um hönd, frem; — *d*, eg ven við, tem við; í þriðju og fjórðu merkingunni fátítt í hluttaksorði núliðinnar tíðar í þolmynd, en í þess stað venjulega *exer-*

*citātus*, af *exercĭto* (eftir fyrstu beygingu). *Coërceo* beygist að öllu sem *terreo*.

*Arcesso* (eða *accerso*), *arcessīvi*, *arcessītum*, *arcessĕre*, eg gjöri orð eftir; læt sækja, sæki; nafnháttur þolmyndar *arcessi* og *arcessīri*.

*Ardeo*, *arsi*, *arsum*, *ardēre*, eg brenn (eigi brenni).

*Arguo*, *argui*, (argūtum), *arguĕre*, sæki (einhvern um eitthvað), saka um; sýni, sanna. *Argūtus*, lýsingarorð, glöggur, næmur, hvellur, og fleira þvílíkt.

*Assentior*, sjá *sentio*.

*Audeo*, *ausus sum*, *audēre*, eg þori, dirfi mig, dirfist. Af þessu orði eru í viðtengingarhætti hafðar myndirnar *ausim*, *ausis*, *ausit*, *ausint*, eg mundi þora, þú mundir þora, hann (hún, það) mundi þora, o. s. frv.

*Augeo*, *auxi*, *auctum*, *augēre*, eg eyk. Svo og *adaugeo*.

230. gr. *Bĭbo*, *bĭbi*, bĭbĭtum, *bibĕre*, eg drekk. Fyrir *bĭbĭtum* og samstofna myndir við það er venjulega haft *pōtum*, o. s. frv.

231. gr. *Cădo*, *cecĭdi*, *cāsum*, *cădĕre*, eg fell, dett. *Occĭdo*, *occĭdi*, *occāsum*, *occĭdere*, eg fell niður, eg fell; geng til viðar, geng í ægi, geng undir; svo og *recĭdo* og *incĭdo*. *Decĭdo*, *decĭdi*, —, *decĭdĕre*, eg fell niður; svo og *concĭdo*, *excĭdo* og fleiri. *Accĭdo*, *accĭdi*, —, *accidĕre*, eg fell til, fell að; *accĭdit*, *accĭdit*, —, *accidĕre*, einpersónuleg sögn, berst að, ber að höndum, ber við, svo ber við. Sbr. *caedo*.

*Caedo*, *cecīdi*, *caesum*, *caedĕre*, eg felli; högg; lýst, slæ. *Abs-cīdo*, *abs-cīdi*, *abs-cīsum*, *abs-cidĕre*, og fleiri. (Sbr. *scindo*).

Cando, —, —, candĕre, hugsuð orðmynd, eg brenni. *Accendo*, *accendi*, *accensum*, *accendĕre*, eg tendra, kveiki. Svo og *incendo*, eg kveiki í, legg eld í, og *succendo*, eg legg eld undir, kveiki í. (Sbr. καίω og καυστός).

*Căno*, *cecĭni*, (cantum), *canĕre*, eg syng; eg kveð; segi fyrir, spái; hluttaksorð núókominn. tíðar *canĭtūrus*, *Hieronym*. *Apocal*. 8,18. *Concĭno*, *concinui*, —, *concinĕre*, eg syng saman; er samkvæmur; svo og *occĭno*, eg kveð við, kveð í mót, og *praecĭno*, eg syng fyrir, segi fyrir.

*Capesso*, *capessīvi*, —, *capessĕre*, eg tek, leita til; hluttaksorð núókominnar tíðar *capessitūrus*.

*Capio*, *cēpi*, *captum*, *capĕre*, eg tek (sbr. 80. til 83. bls.). *Accĭpio*, *accēpi*, *acceptum*, *accipĕre*, eg tek við; tek; fæ, og fleiri. *Incĭpio*, eg byrja; fátítt í núliðinni tíð (incēpi), og í sagnbót (inceptum); sbr. *coepio*.

*Carpo*, *carpsi*, *carptum*, *carpĕre*, eg tíni, les; kroppa, bít.

*Decerpo, decerpsi, decerptum, decerpĕre*; svo og *excerpo*. (Sbr. 76. til 80. bls.).

*Căveo, cāvi, cautum, cavēre,* eg er var, eg er var um mig; eg vara mig, eg geld varhuga við, varast.

1. *cēdo, cessi, cessum, cedĕre,* eg þoka, þoka mèr; hörfa, vík; læt af hendi, sleppi (einhverju við einhvern), stend af (einhverju). Svo *accēdo, concēdo* og fleiri. (Sbr. χάζω). *Incēdo, a,* eg geng; — *b,* eg kem yfir; í síðari merkingunni fátítt í núlegri tíð og samstofna myndum (*Tac.* Ann. 3, 36).

2. *cĕdŏ,* önnur persóna boðháttar í eintölu, kom með; sýn; seg; fleirtala *cette* (þ. e. *cedĭte*) fátíð.

cello, hugsuð orðmynd, eg rek, slæ (κέλλω). *Percello, percŭli, perculsum, percellĕre,* eg slæ, lýst; *excello, excellui,* —, *excellĕre,* eg er umfram, ber af; *antecello,* —, —, *antecellĕre,* og *praecello,* —, —, *praecellĕre,* með sömu merkingu sem *excello.*

*Censeo, censui, censum* og cenĕĭtum, *censēre,* eg met, virði; tel; ætla, hygg; legg til, ræð. *Accenseo,* (accensui, accensum), *accensēre,* eg tel með; svo og *percenseo. Recenseo, recensui, recensum, recensĭtum* (og *recensītum*), *recensēre,* eg tel, kanna. (Sbr. *succenseo*).

*Cerno, crevi,* (crētum), *cerenĕre, a,* eg greini; — *b,* sálda, sældi; — *c,* eg sè. Vantar í síðustu merkingunni núliðna tíð og sagnbót. *Discerno, discrēvi, discrētum, discernĕre,* eg greini í sundur, greini, og fleiri samsetningar.

*Cieo* (og *cio*), *cīvi, cĭtum, ciēre* (og *cīre*), eg hrœri, hreyfi. *Concio* (og *concieo*), *concīvi, concĭtum* og *concītum, concīre* (og *conciēre*); svo og *excio* (og *excieo*). *Accio, accīvi, accītum, accīre,* eg kalla til mín, kveð til mín; gjöri orð eftir.

*Cingo, cinxi, cinctum, cingĕre,* eg gyrði; kringi um.

*Cio,* sjá *cieo.*

*Clango,* —, —, *clangĕre,* eg hljóma; hlakka.

*Claudo, clausi, clausum, claudĕre,* eg lýk, lyk, loka, byrgi. *Inclūdo, inclūsi, inclūsum, inclūdĕre,* eg lyk inni, byrgi inni.

Clĕpo, clepsi (og clēpi), cleptum, clepĕre, eg stel; fátítt (á gr. κλέπτω).

*Coalesco,* sjá alesco.

*Coepi* og *coepio,* sjá apio.

*Cŏlo, colui, cultum, colĕre,* eg yrki, rœkta; legg rœkt við; dýrka; tigna, göfga; blóta; stunda. Svo og *excŏlo,* eg laga; menta; bœti, og *recŏlo. Accŏlo, accolui,* —, *accolĕre,* eg byggi við, bý við; svo og *incŏlo, a,* eg byggi, bý í; — *b,* eg byggi, bý.

*Commĭniscor*, sjá meniscor.

*Cōmo*, sjá *ĕmo*.

*Compĕrio*, *compĕri*, *compertum*, *comperīre*, eg fæ að vita, fæ vitneskju um; eg fregn (sbr. *experior*, og *reperio*).

*Compesco*, sjá *pasco*.

*Complector*, sjá *plecto*.

*Congruo*, sjá *gruo*.

*Connīveo*, connīvi og connixi, —, *connīvēre*, eg hefi augun aftur; eg loka augunum; læt sem eg sjái eigi; eg er lokaður (sbr. νεύω).

*Consenesco*, sjá *senesco*.

*Consŭlo*, *consului*, *consultum*, *consulĕre*, eg ræð ráðum mínum, ræðst um; ræðst um við, leita ráða til; eg sè fyrir, veiti forsjá, annast.

*Convalesco*, sjá *valesco*.

*Cŏquo*, *coxi*, *coctum*, *coquĕre*, eg sýð; baka. Svo og *concoquo*, eg sýð saman; sýð saman við; melti.

*Crebresco*, —, —, *crebrescĕre*, eg verð tíður; eg eykst. Tíðkanlegri eru samsetningarnar *increbresco*, *increbrui*, —, *increbrescĕre*, og *percrebresco*, *percrebrui*, —, *percrebrescĕre*. Erri því, er fer eftir b í orðum þessum, er stundum slept, einkum í núliðinni tíð og samfara myndum.

*Crēdo*, sjá *do*.

*Crĕpo*, *crĕpui*, *crepĭtum*, *crepāre*, eg marra, braka, brest, snarka, spraka, glamra, hringla, smell, gaula, þýt, gnest. Svo og *concrepo* og fleiri.

*Cresco*, *crēvi*, crētum, *crescĕre*, eg vex; þróast. Hluttaksorð núliðinn. tíðar *crētus*, vaxinn; kominn af.

*Cŭbo*, *cubui*, *cubĭtum*, *cubāre*, eg ligg; haft einkum um menn, er liggja til hvíldar, eða sofa, eða eru sjúkir; sbr. *jaceo*. Svo og *accŭbo*, eg ligg við, haft oft um menn, er liggja við borð til matar; sbr. cumbo.

*Cūdo*, *cūdi*, *cūsum*, *cūdĕre*, eg slæ, móta. Svo og *excūdo*, eg slæ út, slæ, og fleiri.

Cumbo, cubŭi, cubĭtum, cumbĕre, hugsuð orðmynd, eg legst. Svo *accumbo*, eg legst við, haft einkum oft um menn, er leggjast við borð til matar; sbr. *cubo*.

*Cŭpio*, *cupīvi*, *cupītum*, *cupĕre*, eg girnist, mig fýsir, eg langa (fornt), mig langar (til).

*Curro*, *cucurri*, *cursum*, *currĕre*, eg hleyp, renn; skyndi,

skunda. Svo *accurro*, *accurri* (og *accucurri*), *accursum*, *accurrĕre*, eg hleyp til, renn til, og fleiri.

232. gr. *Defendo*, sjá fando.

*Defetiscor*, sjá fatiscor.

*Dego*, sjá *ago*.

*Dēleo*, *delēvi*, *delētum*, *delēre*, eg mái af, eyði.

*Dēmo*, sjá *emo*.

*Deliquesco*, sjá *liquesco*.

*Depso*, *depsui*, *depstum*, *depsĕre*, eg hnoða, elti. Svo og *condepso*.

*Devertor*, sjá *verto*.

*Dīco*, *dixi*, *dictum*, *dicĕre*, eg birti, geri kunnugt; eg segi, mæli; ræði um, tala um; tala til; nefni, kalla; ber fram; kveð upp; kýs. Svo og *addīco* og fleiri. Önnur persóna boðháttar í eintölu nálegrar tíðar venjulega *dic* (úrelt *dice*).

*Disco*, *didĭci*, —, *discĕre*, eg nem, læri; fæ að vita. Svo og *addisco* og fleiri. Hluttakssorð núókominnar tíðar *discĭtūrus* (*Apul*).

*Dis-pesco*, sjá *pasco*.

*Divĭdo*, *divīsi*, *divīsum*, *dividĕre*, eg deili í sundur, skifti í sundur, greini í sundur; deili, skifti, greini; skifti á milli.

*Do*, *dĕdi*, *dătum*, *dăre*, eg gef; fæ (í hendur); læt; legg. Svo beygjast og samsetningar af tvíkvæðum orðum og *do*: *circumdo*, eg legg um, læt um; *pessumdo* eða *pessundo*, eg steypi, glata, fyrirfer; *satisdo*, eða *satis do* (í tveimur orðum), eg geng í ábyrgð, geng í borgan; *venumdo* eða *venundo*, eg sel, sama sem *vendo*. Samsetningar af einkvæðum orðum og *do* hafa *dĭdi* í núliðinni tíð, og *dĭtum* í sagnbót: *abdo*, *abdĭdi*, *abdĭtum*, *abdĕre*, eg fjarlægi, fer á braut með; eg fer í felur með, eg fel. Svo og *condo*, *ēdo*, og fleiri forsetninga-orð, og enn fremur orðið *crēdo*, *credĭdi*, *credĭtum*, *credĕre*, eg lè, lána; eg trúi fyrir; trúi; hygg, ætla. Hin tvífalda samsetning *abscondo*, hefir í núliðinni tíð *abscondi* (og *abscondĭdi*). Um þolmynd sagnorðanna *vendo* (stytt fyrir *venundo*, eg sel) og *perdo* (eg fyrirfer; spilli; eyði, týni, glata; læt), sjá *eo*, *e* og *e* β.

*Dŏceo*, *docui*, *doctum*, *docēre*, eg kenni, læri (einhvern); gjöri kunnugt, sýni. *Doceor*, mèr er kent. *Dedoceo*, —,—, eg læt týna niður, læt gleyma; ven (einhvern) af (einhverju); ven (einhvern) af (að gjöra eitthvað).

*Dŏmo*, *domui*, *domĭtum*, *domāre*, eg tem; legg undir mig; sigra. Svo og *perdomo* og fleiri.

*Dūco*, *duxi*, *ductum*, *ducĕre*, eg leiði, hefi með mèr; ætla,

hygg. Svo og *abdūco* og fleiri. Önnur persóna boðháttar í eintölu núlegrar tíðar venjulega *duc, abduc,* o. s. frv.

*Duresco, durui, —, durescĕre,* eg harðna, verð harður. Svo og *obduresco* og fleiri.

233. gr. *Ĕdo, ēdi, ēsum, edĕre,* eg et, matast, snæði. Svo og *comĕdo* og fleiri. Í þeim myndum, er í sögninni *sum* byrja á *es,* hefir *ĕdo* og samsetningar þess tvífalda beyging, og eru þá myndir hinnar síðari beygingar slíkar sem sömu myndir af *sum*: *edis* og *es;* þú etur; *edit* og *est; edĭtis* og *estis; edĕrem* og *essem,* eg æti, o. s. frv.; *ede* og *es,* et þú, o. s. frv.; *edere* og *esse; comedis* og *comes,* o. s. frv.

*Emĭneo,* sjá mĭneo.

*Ĕmo, ēmi, emptum* (og *emtum*), *emĕre,* (eg nem, eg tek; úrelt merking); eg kaupi. Samsetningar, — *a, adĭmo, adēmi, ademptum* (og *ademtum*), *adimĕre,* (eg tek til mín), eg tek frá; svo og *exĭmo, redĭmo,* og fleiri; — *b, coëmo, coēmi, coëmptum* (og *coëmtum*), *coëmĕre,* eg kaupi (saman); — *c, cōmo, compsi, comptum* (og *comtum*), *comĕre,* eg tek saman (upphafleg merking); laga, prýði, skreyti. Svo og *dēmo,* eg tek af, tek frá; *prōmo,* eg tek fram, tek út; tek; *sūmo,* eg tek upp, tek; og enn fremur hinar tvíföldu samsetningar: *deprōmo, exprōmo, absūmo,* og fleiri.

*Emungo,* sjá mungo.

*Eo, īvi, ĭtum, īre,* eg fer, geng, beygist svo í núlegri tíð verknaðarmyndar og samfara myndum.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *eo, īs, ĭt, īmus, ītis, eunt.*

b, þáleg tíð, *ībam, ības, ībat,* o. s. frv.

c, núókomin tíð, *ībo, ībis, ībit,* o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *eam, eas, eat,* o. s. frv.

b, þáleg tíð, *īrem, īres, īret,* o. s. frv.

3, Boðháttur.

a, núleg tíð, eint., 2. pers. *ī*; fleirt. *īte.*

b, núókomin tíð, eint., 2. og 3. pers. *īto;* fleirt.: 2. pers. *itōte;*
3. pers. *eunto.*

4, Nafnháttur, núleg tíð, *īre.*

5, Hluttaksorð, núleg tíð, *iens, euntem* (eigi *ientem*), *euntis,* o. s. frv.

6, Nafnháttarauki, *eundum* (eigi *iendum*), o. s. frv.

*b,* aðrar verklegar myndir beygjast á venjulegan hátt af *īvi* og *ĭtum:* núliðin tíð *ivi, ivisti* og *isti,* o. s. frv.; þálið. tíð *īveram* og *ĭeram,* o. s. frv.; liðin ókomin tíð *ivero* og *iero,* o. s. frv.; *itūrus sim, iturus sis,* o. s. frv.;

*ivisse* og *isse; iturum esse,* o. s. frv. Þolmynd í þriðju persónu: *ītur,* farið er; *ībātur, ĭtum est,* o. s. frv.; *eātur, īrētur,* o. s. frv.

*c,* samsetningar eru t. d.: *abeo, abii* (og *abīvi*), *abĭtum, abīre;* svo og *redeo* og fleiri. Sumar samsetningar hafa áhrifsmerking, t. d. *adeo,* eg fer til, geng til, kem til, geng fyrir, geng á fund (einhvers); hafa slíkar samsetningar þá fulla þolmynd: *adeor,* farið er til mín, gengið er til mín, o. s. frv.; 2. pers. *adīris,* farið er til þín, o. s. frv.; *aditus est, aditus erat, adeundus,* o s. frv.

*d, praeterĭtus,* þolmyndað hluttaksorð núliðinn. tíðar af *praetereo,* eg fer fram hjá, hefir oft áhrifslausa merking (significatio intransitiva): liðinn, orðinn. Svo hefir og *inĭtus,* þolmyndað hluttaksorð núliðinn. tíðar af *ineo,* í merkingunni: eg geng inn, byrja, stundum áhrifslausa merking: inngenginn, byrjaður, t. d.: *initā proximā aestate* (*Caes*).

*e, veneo* (þ. e. venum eo), núlíð. tíð *venii,* sagnbót *venĭtum,* nafnháttur *venīre,* eg geng til sölu, eg selst; eg er seldur, er venjulega haft að þolmynd sagnorðins *vendo* (sbr. *do* á 105. bls.): *bona veniērunt,* eigurnar voru seldar (síður *vendita sunt*). *Venditus,* sem hluttaksorð, er algengt; orðmyndin *vendendus* er bæði höfð sem hluttaksorð, t. d. í: *in rebus vendendis,* í sölum, og sem skyldarorð: *hae res vendendae sunt,* þessa hluti skal selja.

β, *pereo,* eg fyrirferst, týnist, glatast, er venjulega haft með áhrifslausri merkingu, er stenzt á við áhrifsmerkingu sagnarinnar *perdo,* eg fyrirfer, o. s. frv. (sbr. *do,* á 105. bls.): *exercitus periit,* herinn týndist (sbr. *pecuniae coactae sunt . . . classes amissae et perditae, Cic. in Verr., act. prior,* 5,13; og enn fremur *perditus sum, atque etiam eradicatus sum,* mín heill er horfinn, o. s. frv, *Plaut. Bacchid.* 5,1,6). Skyldarorð *perdendus,* týnandi, er týna skal: *perdendum mortale genus est,* dauðlegu (mann)kyni skal týna, *Ovid. Metam.* 1,188. *Perditus,* lýsingarorð, glataður, týndur, spiltur, er algengt.

*f, ambio,* eg fer um, geng um, beygist að öllu sem *vestio.* Sbr. enn fremur *queo.*

*Excello,* sjá cello.

*Exolesco,* sjá olesco.

*Expergiscor, experrectus sum, expergisci,* eg vakna; sbr. *pergo* (við *rego*).

*Expĕrior, expertus sum, experīri,* eg reyni, kemst að raun um; kenni á, verð fyrir; freista; sbr. þerior.

*Exuo, exui, exūtum, exuĕre,* eg fer úr, fer af; losa úr; fletti, svifti; fœri úr; sbr. *induo.*

234. gr. *Facesso, facessīvi, facessītum, facessĕre,* eg gjöri; baka, veld; hefi mig á braut, fer.

*Făcio, fēci, factum, facĕre,* eg gjöri; veld; læt; breyti, haga mèr. Sem þolmynd þessa orðs er haft *fīo;* sjá það á sínum stað.

*b,* samsetningar af sagnstofnum eða orðinu *satis* annars vegar, og *facio* hins vegar, halda *a* óbreyttu, og beygjast að öllu sem *facio*: *calefăcio*, eg vermi, heiti, hita; *calefēci, calefactum, calefacĕre*; þolmynd *calefio,* eg er vermdur. Svo og *patefăcio,* eg lýk upp, opna; *satisfăcio,* eg fullnœgi, bœti, og fleiri.

*c,* samsetningar af forsetningum og *făcio* breyta *a* í *i,* og hafa oftast hina venjulegu þolmynd á *or*: *efficĭo, effēci, effectum, efficĕre,* eg kem til leiðar; *efficior, effectus sum, effīci.* Svo og *afficĭo, interfĭcio,* og fleiri.

β, stundum hafa þessar síðari samsetningar hvoratveggju myndina, *or* og *io,* í þolmynd: *conficio,* þolm. *conficior,* og (en síður og sjaldnar) *confio; deficio*: *deficior* og *defio.*

*d,* Önnur persóna eintölu í núlegri tíð boðháttar sleppir venjulega *e* í *facio* og þeim samsetningum, er halda *a* óbreyttu: *fac, calefac;* aðrar semsetningar halda *e*: *effĭce.*

*e,* fyrsta persóna ókominnar tíðar í eintölu er stundum (í heitum og hótunum) *faxo.* Í viðtengingarhætti eru og stundum hafðar (í óskum eða hvatningum) myndirnar *faxim, faxis, faxit, faxīmus, faxitis, faxint.*

*Fallo, fefelli,* (falsum), *fallĕre,* eg leik á, tæli, bregzt, svík, pretta; dylst (sbr. σφάλλω, eg verð að falli, felli; leik á, tæli). *Falsus,* lýsingarorð, rangur; ósannur. *Refello, refelli,* —, *refellĕre,* eg rek aftur, hrind, ónýti; afsanna, ósanna. *Aliquem refello,* eg rek aftur orð einhvers.

Fando, hugsuð orðmynd, eg slæ (sbr. πταίω, παίω og πατάσσω). *Defendo, defendi, defensum, defendĕre,* (eg slæ frá), bægi á braut, hrind af höndum mèr (*bellum defendere, Caes.*); ver, vernda. Svo og *offendo,* eg slæ við, rek í; meiði, styggi; hitti, og infendo, slæ á, (úrelt). Sbr. enn fremur *infensus* og *infestus.*

*Farcio, farsi, fartum, farcīre,* eg treð, treð í; *refercio, refersi, refertum, refercīre.*

*Făteor, fassus sum* (fátítt), *fatēri,* (eg birti, gjöri kunnugt), játa. *Confĭteor, confessus sum, confitēri,* eg játa; *diffiteor,* —, *diffitēri,* eg ber á móti, neita (sbr. *infitior*).

*Fătisco,* —, —, *fatiscĕre,* eg opnast, gliðna, rifna; lýist, þreytist; sbr. fatiscor.

Fătiscor, fessus sum, fatisci, eg lýist, þreytist (fátítt); *fessus,*

þreyttur, lýsingarorð (venjulegt). *Defetiscor, defessus sum, defetisci,* eg þreytist; hluttaksorð núlið. tíðar *defessus,* al-títt.

*Făveo, fāvi, fautum, favēre,* eg vil vel, ann góðs, er vel viljaður; dreg fram.

Fendo, hugsuð orðmynd, að ætlun sumra frummynd orðanna *defendo* og *offendo;* sbr. fando.

*Fĕrio,* —,—, *ferīre,* eg slæ, lýst; að núliðinni tíð haft īci eða *percussi;* sbr. ico, og *percutio* (við *quatio*).

*Fĕro,* —, —, *ferre* (þ. e. *fer-ĕ-re*), eg ber; færi, flyt; þoli uni (einhverju svo eða svo); núliðin tíð *tŭli* (og úrelt tĕtŭli, af stofninum ταλ —); sagnbót *lātum* (fyrir *tlātum,* af sama stofni); sbr. *tollo.*

*b,* í núlegri og þálegri tíð hverfur bandstafurinn ĕ (stutt *e*) fyrir framan *r,* og í núlegri og núókominni tíð ĭ fyrir framan *s* og *t;* svo hverfur og endastafurinn ĕ í eintölu boðháttar í núlegri tíð.

*c,* beyging þeirra mynda, er *e* og *i* hverfur í á þann hátt, er hèr er sagt (í b-liðnum).

## A, Verknaðarmynd.

### 1, Framsöguháttur.

Núleg tíð, *fero, fers* (fyrir *fer-ĭ-s*), *fert* (fyr. *fer-ĭ-t*), *ferĭmus, fertis, ferunt.*

### 2, Viðtengingarháttur.

þáleg tíð, *ferrem* (fyrir *fer-ĕ-rem*), *ferres, ferret,* o. s. frv.

### 3, Boðháttur.

a, núleg tíð, *fer, ferte.*

b, núókomin tíð, eint., 2. og 3. pers. *ferto;* fleirt.: 2. pers. *fertōte;* 3. pers. *ferunto.*

4, Nafnháttur, núleg tíð, *ferre.*

## B, Þolmynd.

### 1, Framsöguháttur.

Núleg tíð, *feror, ferris, fertur, ferĭmur, ferimĭni, feruntur.*

### 2, Viðtengingarháttur.

þáleg tíð, *ferrer, ferrēris, ferrētur,* o. s. frv.

### 3. Boðháttur.

a, núleg tíð, *ferre, ferimĭni.*

b, núókomin tíð, eint., 2. og 3. pers. *fertor;* fleirt., 3. pers. *feruntor.*

4, Nafnháttur, núleg tíð, *ferri.*

*d,* aðrar myndir beygjast á venjulegan hátt; þáleg tíð framsöguháttar í verknaðarmynd: *ferēbam;* þáliðin tíð *tulĕram;* núliðin tíð þolmyndar: *lātus sum;* núókomin tíð *ferar, ferēre* (og *ferēris*), *ferētur,* o. s. frv.

*e,* samsetningar eru t. d. *affĕro, attŭli, allātum, afferre; confero, contŭli, collātum, conferre; rĕfĕro, rettŭli* eða *rētŭli, rĕlatum, referre; aufĕro* (þ. e. *abfero*), *abs-tŭli, ablātum, auferre.*

β, *differo, distŭli, dilātum, differre,* 1, eg ber í sundur, eg ber í ýmsar áttir, dreifi; — 2, eg fresta; — 3, eg er ólíkur, eg er öðruvís. Í hinni þriðju merkingu vantar núliðna tíð og sagnbótarmyndir.

γ, *suffero,* —, —, *sufferre,* 1, eg ber undir, eg færi; — 2, eg veiti; — 3, eg verð fyrir, þoli. Mynd núliðinnar tíðar, *sustŭli* (þ. e. *subs-tuli*), er tátíð, t. d. *sustulit,* hann þoldi (*Cic. de N. D.* 3,33,82); sbr. *tollo;* í merkingunni: eg þoli, er venjulega haft *sustinui* af *sustineo;* sjá *teneo.*

*f, rēfert* (þ. e. *refe-r-it*), *rētŭlit,* —, *rēferre,* einpersónuleg sögn, varðar, skiftir, stendur á, liggur við, er undir.

*Ferveo* og ferbo, *fervi* og *ferbui,* —, *fervēre* og ferbĕre, eg vell, sýð, ólga.

*Fīdo, fīsus sum, fīdĕre,* eg treysti, eg treystist, eg treysti mèr. Svo og *confīdo* og *diffīdo.*

*Fīgo, fixi, fixum, fīgĕre,* eg festi, nisti; rek; skýt. Svo og *affīgo,* eg festi við, nisti við; *confīgo,* eg festi saman, nisti saman; skýt, og fleiri.

*Findo, fĭdi, fissum, findĕre,* eg klýf. Svo og *diffindo.*

*Fingo, finxi, fictum, fingĕre,* eg mynda, laga; bý til. Svo og *affingo* og fleiri.

*Fīo,* —, —, *fĭĕri,* 1, með áhrifslausri merkingu: eg verð; eg gjörist; — 2, með þolmerkingu: eg er gjör; hefir í núlegri tíð og samstofna myndum verklega beyging, og beygist svo.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *fīo, fīs, fīt,* fīmus, fītis, *fīunt.*

b, þáleg tíð, *fīēbam, fīēbas, fīēbat,* o. s. frv.

c, núókomin tíð, *fīam fīēs, fīēt,* o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, *fīam, fīās, fīăt,* o. s. frv.

b, þáleg tíð, *fĭĕrem, fĭĕres, fĭĕret,* o. s. frv.

3, Boðháttur.

Núleg tíð, fī, fīte, verðið þèr.

4, Nafnháttur.

Núleg tíð, *fĭĕri,* verða, gjörast; vera gjörvan.

*b,* núliðin tíð og aðrar samkynja myndir eru saman settar af hluttaksorði núliðinnar tíðar í þolmynd af *facio* (*factus*) og *sum*: *factus sum,* eg hefi verið gjör; eg hefi orðið, eg hefi gjörzt; *factus eram, factus essem, factum esse,* o. s. frv.

*c*, núókomin tíð viðtengingarháttar af *fio* (í merkingunni eg verð, gjörist) er sem núókomin tíð viðtengingarháttar af *sum:*

*futurus sim*, eg muni verða, eg muni gjörast.

*futurus sis*, o. s. frv. (Sbr. *causa, cur et ea, quae praeterierunt, facta sint, et, quae instant, fiant, et, quae sequuntur, futura sint*, orsök til þess, að bæði það, er liðið er, hefir orðið, og það, er yfir stendur, verður, og það, er í hönd fer, mun verða, *Cic. de Div.* 1, 55, 126).

*d*, nafnháttur,

*α*, núókomin tíð, *futurum esse* og *fore*, munu verða, munu gjörast; mundu verða, mundu gjörast.

*β*, þáliðin skildagatíð, *futurum fuisse*, mundu hafa orðið, mundu hafa gjörzt.

*Flecto, flexi, flexum, flectĕre*, eg beygi, sveigi. Svo og *deflecto* og fleiri.

*Fleo, flēvi, flētum, flēre, a*, eg græt; — *b*, eg græt (einhvern), eg græt yfir (einhverjum). Svo og *defleo*, eg græt yfir, græt.

Flīgo, flixi, flictum, flīgĕre, eg slæ; úrelt. Svo og *afflīgo, conflīgo*, og fleiri.

*Fluo, fluxi*, fluxum, *fluĕre*, eg renn, flýt; núókomin tíð hluttaksorðs, *fluxurus* (*Lucan.* 6, 61.). Svo og *affluo* og fleiri.

*Fŏdio, fōdi, fossum, fodĕre*, eg gref; pæli, sting upp. Svo og *defŏdio* og fleiri. (Sbr. *sepelio*).

(For), *fātus sum, fāri*, eg tala, mæli; oftast haft hjá skáldum. Það beygist svo.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, —, —, *fātur*, hann mælir.

b, þáleg tíð, fabar, o. s frv., að eins höfð í samsetningum.

c, núliðin tíð, *fātus sum, fātus es*, o. s. frv.

d, þáliðin tíð, *fātus eram, fātus eras*, o. s. frv.

e, núókomin tíð, *fābor*, —, *fābitur*.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, fer, o. s. frv., eigi höfð.

b, þáleg tíð, *fārer*, eg mælti.

c, núliðin tíð, *fatus sim*, o. s. frv.

a, þáliðin tíð, *fatus essem*, o. s. frv.

3, boðháttur, núleg tíð, 2. pers.: *fāre*, mæl þú.

4, Nafnháttur, núleg tíð, *fari*, að mæla.

5, Hluttaksorð með verklegri merkingu: a, núleg tíð fans; þolf. *fantem;* eignarf. *fantis.*

b, nálið. tíð, *fātus.*

6, Nafnháttarauki, α, eignarf. *fandi;* — β, staðarf. *fando.*

7, Síðari sagnbót, *fātu.*

β, Hluttakssorð nálegrar tíðar með þolmerking, og skyldarorð, *fandus.*

*b,* samsetningar (*affor, effor, praefor*) hafa nokkurar fleiri myndir en hin ósamsetta sögn for, t. d. *affāmur, affamĭni, affābar, affabĭmur; praefāmur, praefabantur, praefātus fuĕro* (sama sem *praefātus ĕro*).

*Fŏveo, fōvi, fōtum, fovēre,* eg hlý, velgi, vermi; hlynni fyrir, hlynni að. Svo og *refŏveo.*

*Frango, frēgi, fractum, frangĕre,* eg brýt; buga, beygi. *Confringo, confrēgi, confractum, confringĕre,* og fleiri.

*Frĕmo, fremui, fremĭtum, fremĕre,* eg gný; gnyð; kurra; frýsa. Svo og *confrĕmo.*

*Frendo* og frenbeo, —, *fressum* og *frēsum, frendĕre* og frenbēre, eg brýt, mel, myl; gnísti (*dentibus frendo,* eg gnísti tönnum). *Infrendo,* —, —, *infrendĕre.*

*Frĭco, fricui, frictum* og *fricātum, fricāre,* eg gný, ný, nugga. Svo og *perfrico.* (Sbr. *frigo*).

*Frīgeo,* nafnháttur *frigēre,* eg er kaldur; mèr er kalt. *Friguit, Hieronymi Epist.* 52,2, er annaðhvort af þessu orði eða *frigesco.*

*Frīgesco, frixi* (*Liv. Andr. ap. Serv.*), —, *frigescĕre,* eg verð kaldur, eg kólna; mèr verður kalt, mèr kólnar. Svo og *perfrigesco.*

*Frīgo,* frixi, *frictum* og frixum, *frigĕre,* eg steiki, baka.

*Fruor,* fructus sum og fruĭtus sum (hvorttveggja fátítt), *frui,* eg nýt. Hluttaksorð nákominnar tíðar *fruitūrus. Perfruor,* perfructus sum (*Cic. ap. Priscian.*), *perfrui.*

*Fūgio, fūgi,* fugĭtum, *fugĕre, a,* eg flý; — *b,* eg flý (einhvern), eg flý fyrir; eg firrist, forðast. Svo og *aufugio* og fleiri.

*Fulcio, fulsi, fultum, fulcīre,* eg styð. Svo og *suffulcio.*

*Fulgeo, fulsi,* —, *fulgēre,* eg leiftra; blika, skín, ljóma. *Fulget,* einpersónuleg sögn, leiftrar, eldingar ganga. Svo og *affulgeo* og fleiri.

*Fundo, fūdi, fūsum, fundĕre,* eg helli; eys, steypi; stökk (einhverjum). Svo og *affundo* og fleiri.

*Fungor, functus sum, fungi,* eg hefi á hendi, fer með (sbr. fara með goðorð). Svo og *defungor* og *perfungor.*

*Fūro,* (furui, *Serv.*), —, *furĕre,* eg er óður, eg er vitlaus.

235. gr. *Gaudeo, gavīsus sum, gaudēre,* eg er glaður, eg gleðst.

*Gĕmo, gemui,* gemĭtum, *gemĕre,* eg styn, andvarpa. Svo og *ingĕmo* og fleiri.

*Gĕro, gessi, gestum, gerĕre,* eg ber; fer með, hefi á hendi; hey; frem, gjöri. Svo og *aggĕro* og fleiri.

*Gigno* (þ. e. *gi-gĕno*), *gĕnui, genĭtum, gignĕre,* eg get, fœði, el; ber, gýt. Svo og *ingigno* og fleiri.

*Glisco, —, —, gliscĕre,* eg eykst; elst, nœrist, glœðist, vex. Svo og *perglisco.*

*Glūbo,* (glupsi, gluptum), *glubĕre,* eg flysja; eg berki, tek börk af. Sbr. λέπω. *Deglūbo,* (deglupsi), *degluptum, deglubĕre,* eg afhýði, tek húð af; flæ.

*Grădior, gressus sum, gradi,* eg geng. *Aggrĕdior, aggressus sum, aggredi; ingredior* og fleiri.

*Grandĭnat,* (grandinavit), —, *grandināre,* einpersónuleg sögn, heglir, er hagl.

*Gruo,* haft sem síðari hluti samsetningar. *Congruo, congrui,* —, *congruĕre,* eg er samkvæmur, mèr ber saman við. Svo og *ingruo.*

236. gr. *Haereo, haesi, haesum, haerēre,* eg er fastur, eg sit fastur; tolli, loði. Svo og *adhaereo* og fleiri.

*Haurio, hausi, haustum, haurīre,* eg eys; drekk, sloka. Hluttaksorð núókominnar tíðar *haustūrus* og *hausūrus.* Svo og *exhaurio.*

237. gr. Ĭco (eða Ĭcio), *ĭci, ictum,* icĕre, *a,* eg slæ; — *b,* eg sem, gjöri. Núleg tíð og samstofna myndir fátíðar í báðum merkingum, svo og núliðin tíð í hinni fyrri merkingu.

*Imbuo, imbui, imbūtum, imbuĕre,* eg væti, vökva; ven við, kem inn hjá (*aliquem aliqua re imbuere,* koma einhverju inn hjá einhverjum).

*Immineo,* sjá mineo.

*Incendo,* sjá cando.

*Incesso, incessīvi, —, incessĕre,* eg ræð á.

*Indulgeo, indulsi, indultum, indulgēre,* eg læt eftir, hefi eftirlæti á.

*Induo, indui, indūtum, induĕre,* eg fer í; tek á mig; fœri í; sbr. ἐνδύω og *exuo.*

(Infio), eg byrja, tek; eg tek til máls; 3. pers. eintölu *infit;* 3. pers. fleirt. infiunt; *infit* skáldlegt og fornlegt; hinar tvær myndirnar lítið hafðar.

*Ingruo,* sjá *gruo.*

*Inquam,* (eg segi), segi eg, mæli eg, beygist svo.

B, Sögnin *nōlo, nolui, —, nolle,* eg vil eigi, er saman sett af *ne,* eigi, og *volo;* svo er og um sögnina *mālo, mālui, —, malle,* eg vil heldur, að hún er saman sett af *mage,* meir, heldur, og *volo.*

*Nolo* beygist svo.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *nōlo, non vis, non vult, nōlŭmus, non vultis, nōlunt.*

b, þáleg tíð, núlið. tíð, og þálíð. tíð, *nolēbam, nōlui, noluĕram,* sem *volēbam,* o. s. frv.

c, núókom. tíð, (nōlam), *nōles,* o. s. frv. sem *volam.*

d, lið. ókom. tíð, *noluĕro, noluĕris,* o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, þáleg tíð, núlið. tíð, þálið. tíð, *nōlim, nollem, noluerim, noluissem,* sem *velim,* o. s. frv.

b, núókom. tíð. eigi höfð.

c, lið. ókom. tíð, *noluerim,* o. s. frv.

3, Boðháttur.

a, núleg tíð, 2. pers. *nōlī,* hirð eigi, þú skalt eigi (vilja); fleirt., 2. pers. *nolīte,* hirðið eigi, þèr skuluð eigi (vilja).

b, núókom. tíð, 2. pers. *nolīto,* þú skalt eigi (vilja); 3. pers. *nolīto,* hann skal eigi (vilja); fleirt., 2. pers. *nolitōte,* þèr skuluð eigi (vilja); 3. pers. *nolunto,* þeir skulu eigi (vilja).

4, Nafnháttur, núleg tíð, *nolle;* núlið. tíð, *noluisse;* núókom. tíð, eigi höfð.

5, Hluttaksorð, núleg tíð, *nolens;* hluttakso. núókominn. tíðar, eigi haft.

6, Nafnháttarauki, *nolendum,* o. s. frv.; sbr. *volendum* við *volo* (á 134. bls.).

7, Sagnbœtur og þolmynd, eigi hafðar.

C, *Mālo* beygist svo.

1, Framsöguháttur.

a, núleg tíð, *mālo, māvis, māvult, mālŭmus, māvultis, mālunt.*

b, þáleg tíð, núlið. tíð og þálið. tíð, *malēbam, mālui, maluĕram,* sem *volēbam,* o. s. frv.

c, núókom. tíð, (mālam), *males,* o. s. frv.

d, lið. ókom. tíð, *maluĕro,* o. s. frv.

2, Viðtengingarháttur.

a, núleg tíð, þáleg tíð, núlið. tíð og þáliðin tíð, *mālim, mallem, maluĕrim, maluissem,* o. s. frv.

b, núókom. tíð, eigi höfð.

c, lið. ókom. tíð, *maluĕrim*, o. s. frv.

3, Boðháttur, eigi hafður.

4, Nafnháttur, núleg tíð, *malle;* núlið. tíð, *maluisse;* núókom. tíð, eigi höfð.

5, Hluttaksorð öll, nafnháttarauka, sagnbœtur og þolmynd vantar.

*Volvo, volvi, volūtum, volvĕre,* eg velti. Svo *advolvo* og fleiri.

*Vŏmo, vomui, vomĭtum, vomĕre,* eg spý; sel upp; æli; á gr. ἐμέω. *Evŏmo, evomui, —, evomĕre;* svo og *revŏmo.*

*Vŏveo, vōvi, vōtum, vovēre,* 1, eg heit, lofa (haft einkum, þá er guðunum er heitið einhverju; sbr. *promitto,* við *mitto,* og *polliceor*); — 2, eg œski, óska; í þessari merkingu skáldlegt.

## Athugasemdir við sagnorð, einkum þau hin afbrigðilegu.

250. gr. Mörg sagnorð annarar beygingar hafa að vísu venjulega mynd í núliðinni tíð, en vantar sagnbót og samstofna myndir, t. d. *vigeo,* eg er í blóma (núlið. tíð *vigui*); önnur vantar bæði núliðna tíð og sagnbót, t. d. *maereo,* eg syrgi, eg er hryggur. Flestum slíkum orðum hefir verið slept í upptalningu hinna afbrigðilegu sagnorða hèr að framan.

251. gr. Sum sagnorð hafa ýms önnur og meiri afbrigði, en talað er um í 226. gr., *b*-liðnum (á 100. bls.), og eru þessi orð sèr í lagi kölluð óskipuleg (*anomăla*); slík orð eru t. d. *sum* á 64. til 67. bls.; *edo* á 106. bls.; *fero, possum, volo,* og fleiri.

252. gr. Sum orð vantar með öllu ýmsar myndir, er ella eru algengar í flestum orðum, og eru þau kölluð vanmynduð (vanmynda; *defectīva*); svo er t. d. um *ajo* á 101. bls., *inquam, memini,* salveo.

253. gr. Af því að þau orð, er hneigjast að öllu á venjulegan hátt eftir þriðju beygingu, sem *carpo,* á 76. til 80. bls. (og *capio,* á 80. til 83. bls.), eru örfá, t. d. *scalpo, sculpo,* (og *jacio*), höfum vèr tekið þau inn í upptalning hinna afbrigðilegu orða.

*b,* í sumum þeirra orða, er hneigjast eftir þessari beygingu, og hafa varastafinn *b* að kennistaf, t. d. *scribo, nubo,* eru afbrigði eigi önnur en þau, að *b* herðist í *p* fyrir framan *s* og *t* (*scripsi, nuptum*); sbr. 13. gr., 2. bls.; svo er og um *v* í *vivo*: *victum, vixi.*

*c*, í mörgum þeirra orða, er hafa gómstafinn *g* (og *h*) að kennistaf, eru afbrigði eigi önnur en þau, að *g* og *h* herðast í *c* fyrir framan *t*, en samlagast *s*, er eftir fer, svo að *x* verður úr: *rego, rectum, rexi; traho, tractum, traxi;* sbr. 14. gr., 2. bls.

254. gr. Þau orð, er hneigjast eftir annari beygingu, og hafa að öllu venjulega hneiging, eru: *caleo, careo*; *coërceo* (samsetning af *arceo*); *doleo; habeo* með ýmsum samsetningum, t. d. *adhibeo, cohibeo, debeo* (þ. e. *de-hibeo*), *exhibeo, praebeo* (þ. e. *praehibeo*), *redhiheo; jaceo* með samsetningum, t. d. *adjaceo; liceo* (eg er falur); *noceo; pareo* með samsetningu *appareo; placeo; taceo* með samsetningu *reticeo; terreo, valeo.*

255. gr. Flest sagnorð, er endast á *sco*, tákna byrjun (eru byrjunarorð, *verba inchoatīva*); þau eru ýmist leidd af sögnum (*inchoatīva verbalia*), eða lýsingarorðum (og nafnorðum; *inchoatīva nominalia*).

*b*, ef byrjunarorð eru mynduð af sagnorðum, og frumsögn hefir núliðna tíð, hafa byrjunarorð sömu ending í núliðinni tíð sem frumsögnin, en vantar oftast sagnbótarmyndir, t. d. *conticesco, conticui*, —, *conticescĕre*, eg þagna, af *taceo* (eg þegi, núlið. tíð *tacui*); *ingemisco, ingemui*, —, *ingemiscĕre*, eg tek að stynja við; eg styn við, af *gemo* (eg styn); nokkur hafa bæði núliðna tíð og sagnbót frumsagnarinnar, t. d. *exardesco, exarsi, exarsum, exardescĕre*, eg tek að brenna; blossa upp, af *ardeo* (eg brenn); *concupisco, concupīvi, concupītum, concupiscĕre*, eg fæ löngun til, eg girnist, mig fýsir, mig lystir, af *cupio* (eg girnist).

β, ef frumsögn hefir eigi núliðna tíð, vantar og afleidda byrjunarsögn venjulega þá tíð.

*c*, ef byrjunarorð eru leidd af lýsingarorðum fyrstu og annarar hneigingar, hafa sum þeirra *ui* í núliðinni tíð, en vantar sagnbót, t. d. *maturesco, maturui*, —, *maturescĕre*, eg næ þroska, þroskast, af *matūrus* (þroskaður), og *obmutesco, obmutui* —, *obmutescĕre*, eg verð mállaus; þagna, af *mutus* (dumbur, mállaus). Svo er og um *evilesco, evilui*, —, *evilescĕre*, eg rýrna, minkast (af *vilis* eftir þriðju beygingu).

*d*, mörg byrjunarorð hafa hvorki núliðna tíð né sagnbót.

256. gr. Nafnháttarauki, hluttaksorð núlegrar tíðar í þolmynd, og skyldarorð, hafa oft fornlega ending, *undum, undus* (fyrir *endum, endus*), einkum þau orð, er endast á *io*: *capiundum*, sama sem *capiendum; potiundus*; *jus dicundum.*

257. gr. *Do* hefir stundum fornlegar myndir, *duim, duis*,

*duit* (fyrir *dem, des, det)* í eintölu núlegrar tíðar viðtengingarháttar í verknaðarmynd; svo hefir og *perdo* stundum *perduim, perduis, perduit* (fyrir *perdam,* o. s. frv.); *di te perduint,* goð týni þèr, goð sè þèr gröm (*Cic.*); sbr. *sim, velim, nolim, malim.*

258. gr. Stofn-*a* er venjulega langt í sagnbótarmyndum; undantekningar: *dătum* (af *do*); *sătum* (af *sero* 1); *stătum* (af *sisto*); *rătus* (af *reor*).

*b*, ef núliðin tíð einhvers sagnorðs endast á *īvi,* og sagnbót á *itum,* er sagnbótar-*i*-ið venjulega langt; undantekningar: *ĭtum* af *eo* (*īvi*); *sĭtum* af *sino* (*sīvi*); *desĭtum* af *desino; lĭtum* af *lĭno* (*līvi* og *lēvi*); *cĭtum* af *cieo* (eða *cīo; cīvi*).

*c*, *a* er nálega jafnan langt í nafnháttum hinnar fyrstu beygingar; undantekning *dăre* (af *do*), *circumdăre*, o. s. frv.

259. gr. Þá er núliðin tíð verknaðarmyndar er svo löguð, að tekinn er upp hinn fyrsti, eða teknir eru upp tveir hinir fyrstu stafir sagnstofnsins með raddstaf (*e, o* eða *u*), er þetta kölluð tvífaldan (*reduplicatio*), og er raddstafur tvífaldanar jafnan skammur: *do, dĕdi; tango, tĕtigi; mordeo, mŏmordi; spondeo, spŏpondi; curro, cŭcurri; sto, stĕti.*

260. gr. Hluttaksorð núliðinnar tíðar af aflagssögnum hafa stundum þollega merking auk hinnar verklegu, t. d. *expertus,* (sá) er hefir reynt, og: (sá) er reyndur hefir verið.

261. gr. Um þau orð, er hafa verknaðarmynd með verknaðarmerkingu, og eru þar að auki höfð í þolmynd að aflagssögnum (*lavo, lavor; pasco, pascor; veho, vehor*), er athuganda, að mynd hluttaksorðs núlegrar tíðar (*lavans, pascens, vehens*) hefir bæði áhrifsmerking: *lavans,* laugandi, er laugar; og aftursveigismerking, eða jafnvel áhrifslausa merking: *lavans,* laugandist, er laugast; *vehens,* farandi, er fer; *pascens,* (sá) er á beit er; (sá) er bítur (með áhrifsmerkingu).

*b*, svo er og um *versans* af *verso* og *versor* (eftir fyrstu beygingu), að það hefir tvífalda merking: (sá) er snýr; og: snúandist, (sá) er snýst; (sá) er fer (um einhvern stað), eða: er (á einhverjum stað).

262. gr. Þau orð, er hafa verknaðarmynd í núlegri tíð og samstofna myndum, en þolmynd í núliðinni tíð og samstofna myndum, eru kölluð: hálfgörvar aflagssagnir (*semideponentia;* aflagssagnir núliðinnar tíðar); þessi orð eru: *audeo, gaudeo, soleo,* eftir annari beygingu; *fīdo,* með samsetningum *confīdo* og *diffido,* eftir þriðju beygingu.

*b, revertor* og *devertor* eru aflagssagnir núlegrar tíðar; sbr. *verto, b,* á 133. bls.

263. gr. Þau orð hinnar þriðju beygingar, er venjulega fella enda-*e*-ið aftan af annari persónu eintölu í núlegri tíð boðháttar, eru: *dico; duco* með samsetningum þess; *fero* með samsetningum þess, og *facio* með samsetningum þess, þá er stofn-*a*-ið helzt óbreytt.

264. gr. Ef sagnbótarmyndir vantar af einhverju orði (t. d. *contingit*), og hafa þarf nafnhátt ókominnar tíðar í verknaðarmynd (*infinitiv. futuri activi*), þá er höfð sameining, *a*, af *fore* (eða *futurum esse*), mynd ókominnar tíðar í nafnhætti af *sum*, og — *b*, af samtengingarorðinu *ut*, og — *c*, af núlegri eða þálegri tíð viðtengingarháttar af sagnorði því, er við skal hafa: eg kveð þèr munu hlotnast þetta, *dico fore, ut hoc tibi contingat* (eigi: *dico hoc tibi contacturum esse*); spámaður sagði fyrir, að sveininum mundi hlotnast að gjöra þetta, *vates praedixit, fore, ut puero contingeret, ut hoc faceret*; sbr. 216. gr., *k*, β, á 94. til 95. bls.

*b*, *posse*, mynd núlegrar tíðar af *possum*, er höfð bæði með merkingu núlegrar tíðar og ókominnar tíðar: (að) geta; munu geta, mundu geta.

## Ellefti kafli.

Stigbreyting atviksorða (*comparatio adverbiorum*).

265. gr. Atviksorð hafa eigi aðra beyging en stigbreyting, og geta venjulega að eins þau atviksorð fengið stigbreyting, er endast á ē, ō, eða *ter*, og mynduð eru af stigbreytilegum lýsingarorðum (hvort sem þau eru upphafleg lýsingarorð, eða hafa upphaflega verið hluttaksorð), og er þá miðstig (*comparatīvus*) atviksorðs eins og miðstig samstofna lýsingarorðs í nefnifalli hvorugkyns, en yfirstig (*superlatīvus*) sem yfirstig lýsingarorðsins, nema það hefir endinguna *e* (stökum sinnum *um*), þar er karlkyn lýsingarorðsins hefir endinguna *us* í yfirstigi: *longe*, langt (af *longus*, langur); *longius*, lengra; *longissĭme*, lengst; *docte*, með (mikilli) kunnáttu (af *doctus*, sá er kann); *doctius*, með meiri kunnáttu; *doctissime*, með mestri kunnáttu; með mestu kunnáttu; *libere*, frjálslega, *liberius, liberrime; pulchre*, fagurlega, *pulchrius, pulcherrime; raro*, sjaldan, *rarius, rarissime; crebro*, iðulega, *crebrius, creberrime; fortiter*, vasklega, *fortius, fortissime; acriter*, snarplega, *acrius, acerrime; feliciter*, giftusamlega, *felicius, felicissime*; *diligenter*, kostgæflega, *diligentius, diligentissime; amanter*, ástsamlega, *amantius, amantissime; simĭlĭter*, líkt, á líkan hátt, *similius, simillime;* — *b*, sbr. lýsingarorð, 85. til 110. gr., 31. til 39. bls.

266. gr. Ef stigbreyting lýsingarorðs er afbrigðileg eða ó-

fullkomin (sbr. 111. og 112. gr., 40. til 41. bls.), er stigbreyting atviksorðs það og, t. d. *bene*, vel, *melius*, betur, *optime*, bezt; *male*, illa, *pejus*, ver, *pessime*, verst; *parum*, lítt; *minus*, miður, minnur (fornt), síður; *minime*, minst, sízt (*minimum*, í minsta lagi); *deterius* (af *deterior*, lakari), laklegar, *deterrime*, laklegast; *prope* (samstofna við fyrra hlutann af *propinquus*, nálægur), nær, nálægt; *propius*, nærr, nærmeir, *proxime*, næst; *potius* (af *potior*, heldri), *potissimum*, helzt; *prius* (af *prior*, fyrri), fyrr, *primum*, fyrst; í fyrsta sinni (*primo*, í fyrstu).

*b*, miðstigsmyndina *magis*, meir, fremur, heldur, og yfirstigsmyndina *maxime*, mest, helzt, vantar frumstigsmynd, en í stað hennar eru höfð ýms orð, t. d. *valde, admŏdum, per-, magno opere*, mjög, mikillega.

267. gr. Sèr í lagi getum vèr hèr stigbreytingar nokkurra staðlegra og tíðlegra atviksorða (*adverbia loci* og *temporis*).

| Frumstig. | Miðstig. | Yfirstig. |
|---|---|---|
| a, *citrā*, þessum megin; | *citerius*, hèr nær; | vantar. |
| b, *extrā*, fyrir utan; | *exterius*, utar; | —. |
| c, *infrā*, fyrir neðan; niðri; | *inferius*, neðar; | —. |
| d, *intrā*, fyrir innan; inni; | *interius*, innar; | (*intĭme*, ástsamlegast). |
| e, *post*, fyrir aftan; hèr eftir; síðan; síðar; | *posterius*, síðar; | *postrēmum*, síðast; í síðasta sinni; *postremo*, að síðustu, að lokum. |
| f, *suprā*, fyrir ofan; | *superius*, ofar; | (*summe*, mest; stórum; *summum*, í mesta lagi). |
| g, *ultrā*, hinum megin; lengra; meir; framar; | *ulterius*, lengra; | (*ultĭmum*, síðast). |

Sbr. 112. gr., 40. til 41. bls.

268. gr. Fáein önnur atviksorð, er hafa stigbreyting, eru:

a, *diu*, lengi, *diutius, diutissime*.
b, *nuper*, nýlega, —»— *nuperrime*, síðast.
c, *saepe*, oft, oftlega; *saepius, saepissime*.
d, *sĕcus*, laklega; *sēcius*, síður.
illa; öðruvís; eigi.

269. gr. Af mörgum lýsingarorðum myndast ekkert atviksorð, og mörg atviksorð vantar annaðtveggja alla stigbreyting, eða annaðhvort miðstig eða yfirstig.

# Tólfti kafli.

## Forsetningar (*praepositiones*).

270. gr. Forsetningar latneskrar tungu eru ýmist hafðar með þolfalli (*acc.*), eða staðarfalli (*abl.*), eða bæði með þolfalli og staðarfalli; ein að eins er höfð með staðarfalli og eignarfalli (*gen.*).

a, með þolfalli eru hafðar:

*Ad*, til; við, hjá.

*Adversus* og *adversum*, gegn, í mót; við.

*Ante*, fyrir framan; fram fyrir; fyrir.

*Apud*, hjá, við.

*Circĭter*, nær (fornt), um, hèrumbil.

*Circum* og *circā*, umhverfis, í kring um.

*Cis* og *citrā*, þessum megin, hèrna megin við; hingað yfir.

*Contrā*, í mót, gegn.

*Ergā*, við (um hugarfar og breytni).

*Extrā*, fyrir utan; út fyrir.

*Infrā*, fyrir neðan; niður fyrir.

*Inter*, á milli, meðal; inn á milli.

*Intrā*, fyrir innan; inn fyrir.

*Juxtā*, nær, við, hjá.

*Ŏb*, fyrir; fyrir sakir, sakir, sökum.

*Penes*, hjá, á valdi, í höndum.

*Per*, um, í gegnum; fyrir.

*Pone*, fyrir aftan, að baki; aftur fyrir.

*Post*, fyrir aftan, að baki; aftur fyrir; eftir.

*Praeter*, fram hjá; fremur, framar; umfram, að auki; í mót.

*Prope*, nær, nálægt, í nánd (*propius*, nærr, nærmeir; *proxime*, næst).

*Propter*, nálægt, nær; fyrir sakir, sakir, sökum.

*Suprā*, fyrir ofan, yfir; upp yfir, upp fyrir; fyrir framan; áður.

*Secundum*, með, fram með, upp með, niður með; næst; eftir, samkvæmt.

*Trans*, hinum megin, hinum megin við, fyrir handan; yfir um.

*Ultrā*, hinum megin, hinum megin við, fyrir handan; fram yfir, út yfir.

b, með staðarfalli eru hafðar:

*Ab, a, abs*, frá; af. *Ab* haft fyrir framan raddarstafi og samhljóðendur; *a* að eins fyrir framan samhljóðendur (nema *h*); *abs*, lítið haft, nema fyrir framan *te* (*a te* og *abs te*).

Absque, án (sama sem *sine*).

*Coram*, fyrir, frammi fyrir.

*Cum*, með; við. *Cum* er tengt aftan við hin persónulegu fornöfn *ego* og *tu*, hið afturbeygilega fornafn *se*, og oftast aftan við tilfærslufornafnið *qui* (*mecum, nobiscum; tecum, vobiscum; secum; quo-*

*cum, quīcum, quacum, quibuscum*; þó er stundum haft *cum quo, cum qua, cum quibus*, en eigi *cum qui*).

*De*, af; niður af; um; eftir, samkvæmt.

*Ex, e*, úr; af; eftir, samkvæmt. *Ex* haft fyrir framan raddarstafi og samhljóðendur, *e* að eins fyrir framan samhljóðendur (nema *h*).

*Palam*, fyrir, frammi fyrir; í augsýn; í áheyrn.

*Prae*, fyrir, fyrir framan; í samanburði við; fyrir, fyrir sakir.

*Pro*, fyrir, fyrir framan; fyrir, í staðinn fyrir; fyrir, til gagns fyrir; eftir, samkvæmt.

Procul, fjarri, langt frá; án, (sama sem *procul ab* og *sine*).

*Sine*, án, fyrir utan.

c, með staðarfalli og þolfalli eru hafðar:

*Abhinc*, fyrir (*abhinc annos quattuordecim; abhinc triginta diebus*).

*Clam*, á laun við.

*In*, 1) með staðarfalli: í; á; hjá; meðal; — 2) með þolfalli: í; á; til; við, gegn, í mót.

*Sub*, 1) með staðarfalli: undir, niðri undir, neðan undir; — 2) með þolfalli: undir, upp undir, inn undir, niður undir; um, nær; eftir.

*Subter*, 1) með staðarfalli: undir, neðan undir; — 2) með þolfalli, haft bæði um veru og hreyfingu: undir.

*Super*, 1) með staðarfalli: ofan á, á; um; — 2) með þolfalli: yfir, ofan á; fyrir ofan; yfir, fram yfir.

d, með staðarfalli og eignarfalli er höfð forsetningin:

*Tenus*, að, alt að, upp að; einungis að; að, eftir; jafnan höfð fyrir aftan það orð, er hún stýrir.

271. gr. Sumar af þessum forsetningum eru og hafðar sem atviksorð, t. d. *ante*, fyrir framan; áður; *post*, fyrir aftan; síðan, síðar. *Procul* er hjá hinum betri rithöfundum venjulega haft sem atviksorð, með *ab* eða *a* (*procul ab urbe, procul a me*).

*b*, *prope* (*propius, proxime*) er haft, *α*, ýmist sem atviksorð, með *ab* (eða *a*) og staðarfalli, eða, sem forsetning, með þolfalli, þá er talað er um návist við einhvern stað: *prope a meis aedibus sedebas*, þú sazt (nær frá þ. e.) nálægt húsi mínu (*Cic.*); *prope aliquem habitare*, sami; *propius a terris*, nærr jörðunni, sami; *proxime Pompejum sedebam*, sami; eða — β, sem atviksorð með *ad* og þolfalli, þá er talað er um stefnu eða nálgan til einhvers staðar: *propius ad aliquid accedere*, fœra sig nærr einhverju (*Cic.*).

*c*, orðin *pridie*, daginn fyrir, og *postridie*, daginn eftir, eru eigi sjaldan, einkum við dagsetning, höfð sem (eins kyns) forsetningar með þolfalli (og eignarfalli): *pridie calendas januarias*, daginn fyrir

upphafsdag janúarmánaðar, þ. e. síðasta dag desembermánaðar; *postridie ludos Apollinares*, daginn eftir leiki Apollons; *postridie ejus diei, pridie ejus diei; pridie insidiarum (Tac.)*.

## Þrettándi kafli.

### Samtengingar (*conjunctiones*).

272. gr. Samtengingar eru ýmislegar eftir eðli sínu,

1) sambandstengingar (*conjunctiones copulativae*): *et*, og; *que* (tengt aftan við orð), og; *atque* og *ac*, og; *itaque* (með áherzlu á *a*), og svo, og þannig; *neque* og *nec*, og eigi; *neve* og *neu*, og eigi; *et — et*, bæði — og; *neque — neque*, hvorki — nè; *cum — tum*, bæði — og.

2) greinitengingar (*conj. disjunctivae*): *aut*, eða; *vel*, eða; *ve* (tengt aftan við orð), eða; *sive*, eða ef; eða; *aut — aut, vel — vel*, annaðhvort — eða; *sive — sive*, hvort er — eða.

3) gagnstöðutengingar (*conj. adversativae*): *sed, verum*, en; heldur; *autem, vero*, en; *at*, en; þó; *atqui*, en nú, en þó.

4) skildagatengingar (*conj. condicionales*): *si*, ef; *sin*, ef, en ef; *nisi*, ef eigi; nema.

5) viðurkunnartengingar (*conj. concessivae*): *quamquam, quamvis, etsi, etiamsi, tametsi, si, cum, ut, licet*, þó að, þótt.

6) samburðartengingar (*conj. comparativae*): *ut, uti*, sem, svo sem, eins og; *sicut, velut*, svo sem, eins og; *quam*, sem; en; *atque, ac*, og, sem; en; *quasi*, svo sem, eins og.

7) tíð-tengingar (*conj. temporales*): *cum, ut, ubi*, þá er, er, þegar; *simul atque, ut primum, cum primum*, þegar er, jafnskjótt sem, undir eins og; *antequam, priusquam*, áður en, fyrr en; *postquam, posteaquam*, síðan er, eftir það er, eftir að; *dum, quoad*, meðan; þar til er, til þess er; *donec*, þar til er; *quamdiu*, svo lengi sem.

8) orsakartengingar (*conj. causales*): *quia, quoniam, quando, quod, cum*, fyrir því að, með því að, af því að, alls (fornt), þar eð; *nam, namque, enim, etenim*, því að.

9) ályktartengingar: (*conj. conclusivae*): *ergo, igitur*, þá; *itaque* (með áherzlu á *i*; sbr. fyrsta staflið), *ideo, idcirco*, fyrir því, því; *quare, quapropter, quocirca*, og af þeirri sök, og því.

10) fyrirætlanartengingar (*conj. finales*): *ut, uti*, til þess að, að; *quo* (= ut eo), til þess að ... því; *nē*, til þess að eigi, svo að eigi; *neve, (neu)*, og til þess að eigi.

11) afleiðingar-tengingar (*conj. consecutivae*): *ut*, svo að; *ut non*, svo að eigi.

12) andlagstengingar (*conj. objectivae*): *ut, uti*, að; að eigi (eftir óttaorð eða hættuorð); *ne*, að eigi; að (eftir óttaorð eða hættuorð); *quo minus* (þ. e. að því síður), að eigi; að; *quin* (þ. e. *quī ne*, hvernig eigi), að.

13) frumlagstengingar (*conj. subjectivae*): *ut, uti*, að; að eigi; *ne*, að eigi; að; *quo minus*, að eigi; *quin*, að.

14) spurnartengingar (*conj. interrogativae*): *nĕ, num*, hvort; *si*, ef (í fornri merkingu), hvort; *nonnĕ* (þ. e. *non nĕ*), hvort eigi; *an*, eða; hvort; nema (*nescio, an*, eg veit eigi, nema); *annon, necne* (þ. e. *nec nĕ*), eða eigi; *utrum* — *an*, hvort — eða.

# Fjórtándi kafli.

## Meðalorpningar (*interjectiones*).

273. gr. Meðalorpningar eru hafðar til að tákna ýmsar geðshrœringar, t. d. undran, hrygð, gleði: *en, ecce*, sjá; þetta er, tarna er! *euge*, vel og gott, 'gott! *ha*, æ! *ha ha he*, ha ha ha! *hem*, a, á! *heu*, æ! *heus*, heyrðu mèr, heyrðu! *hui*, mikil ósköp, sei sei, uss! *o*, ó, æ! *phui, phy*, bía, svei, fý, fussum! *pro, proh*, æ, ó! *vae*, æ, vei!

# Fimtándi kafli.

## Orðmyndunarfrœði.

274. gr. Við myndun orða er athugandi rót (*radix*) þeirra og viðauki; t. d. í *urbs*, borg, er *urb* rót, en viðaukinn *s* nefnifallsmerki (*nota nominativi*); í *duco*, eg leiði, er *duc* rót, en *o* persónumerki; en í *dux* (fyrir *ducs*), leiðtogi, er *duc* rót, en *s* nefnifallsmerki. Sum orð eru að eins rót viðaukalaus, t. d. *et*, og, *ad*, til. Enn fremur er athugandi hneigingarstofn orða eða beygingarstofn, er stundum er sama sem rót þeirra, t. d. í *urbs, duco* og *dux*, en stundum lengri en rótin; t. d. í *stabilitas*, stöðugleiki, er hneigingarstofninn *stabilitat*; í *stabilis*, stöðugur, *stabil*; í *sto*, eg stend, er *sta* bæði rót og beygingarstofn.

### Helztu endingar afleiddra nafnorða (*nomina derivata, nomina derivativa*).

275. gr. Nafnorð myndast, *a*, af sagnorðastofnum, með endingunum *io, or* (*tor, sor*), *ūra* (*tūra, sūra*), *us* (*tus, sus*), *bŭla, bŭlum, cŭlum, men, mentum*, t. d. *opinio*, ætlan (af *opīnor*); *lectio*, lestur (af sagnbótarstofninum *lect* í *lego*); *amor*, ást (af *amo*); *audītor*, heyrandi (af *audit*, af *audio*); *cursor*, hlaupari (af *curs*, af

*curro)*; *cultūra*, yrking, ræktan (af *cult*, af *colo)*; *audītus*, heyrn (af *audio)*; *cursus*, hlaup (af *curro)*; *fibŭla*, spenna, hringja, dálkur, nisti (fyrir *figbŭla*, af *figo)*; *pabŭlum*, fóður (af stofninum *pa* í *pasco)*; *gubernacŭlum*, stýri (af *guberna* í *guberno)*; *opercŭlum*, lok (af *operio)*; *flumen*, straumur; fljót (af *fluo)*; *ornamentum*, skrúð, skraut, prýði (af *orna* í *orno)*; — *b*, af nafnorðastofnum, með endingunum *ārium*, *ārius*, *ātus*, *ētum*, *īle*, *īna*, *ium*, t. d. *seminarium*, sáðreitur, gróðrarreitur (af *semen*, sæði, sáð, fræ); *statuarius*, líkneskjusmiður (af *statua*, líkneskja, stöðumynd); *consulātus*, ræðismenska (af *consul)*; *quercētum*, eikilundur, eikiskógur (af *quercus)*; *bovīle*, nautahús, fjós (af *bos)*; *disciplina*, nám; agi (af *discipŭlus)*; *sacerdotium*, prestskapur, prestsembætti (af *sacerdos)*; — *c*, af stofnum lýsingarorða, með endingunum *ia*, *tas*, *tia*, *tūdo*, t. d. *superbia*, dramb, drambsemi (af *superbus)*; *sapientia*, speki, vizka (af *sapiens)*; *crudelĭtas*, grimd (af *crudēlis)*; *justitia*, rèttlæti (af *justus)*; *latitūdo*, breidd (af *latus)*.

276. gr. Af mörgum nafnorðum (*substantivis*) myndast smækkunarorð (*nomina deminutiva)*; þau endast á *lus*, *la*, *lum*, og *cŭlus*, *cŭla*, *cŭlum*, og eru oftast samenda og samkynja við stofnorð sitt, t. d. *hortŭlus*, lítill garður, smágarður (af *hortus)*; *virgŭla*, lítill vöndur, smávöndur (af *virga)*; *oppidŭlum*, lítil borg, smáborg (af *oppidum)*; *fraterculus*, lítill bróðir, smábróðir; bróðir góður (af *frater)*; *muliercula*, kvennsnift, kvendi (af *mulier)*; *opusculum*, smásmíð; smárit (af *opus*).

Helztu endingar afleiddra lýsingarorða.

277. gr. Lýsingarorð myndast, *a*, af sagnorðastofnum, með endingunum *ax*, *ĭdus*, *ĭlis*, *bĭlis*, t. d. *audax*, djarfur (af *audeo)*; *calĭdus*, heitur (af *caleo)*; *utĭlis*, nýtur, nytsamur (af *utor)*; *amabĭlis*, ástúðlegur (af *amo)*; — *b*, af nafnorðastofnum, með endingunum *ālis*, *ānus*, *āris*, *ārius*, *as*, *ātus*, *ensis*, *eus*, *iānus*, *ĭcius*, *ĭcus*, *iensis*, *īlis*, *īnus*, *itĭmus*, *ius*, *īvus*, *ŏlentus*, *ōsus*, *ŭlentus*, *urnus*, *nus*, *tĭcus*, t. d. *mortālis*, dauðlegur (af *mors)*; *urbānus*, borgmannlegur (af *urbs)*; *Romānus*, rómverskur (af *Roma)*; *militāris*, hermannlegur, hermanna-, hermanns-, hernaðar- (af *miles)*; *ordinārius*, skipulegur, reglulegur; venjulegur (af *ordo)*; *Arpīnas*, Arpínskur (af *Arpīnum*, borgarnafn); *barbātus*, skeggjaður (af *barba)*; *castrensis*, herbúðlegur, herbúða- (af *castra)*; *Sulmonensis*, sulmónskur (af *Sulmo*, borgarn.); *aureus*, gullinn, gull- (af *aurum)*; *Caesariānus*, Caesars (af *Caesar*; *Caesariani*, menn Caesars); *pastoricius*, hjarðmannlegur, hjarðmanna-, hjarðmanns- (af *pastor)*; *bel-*

*lĭcus,* her-, hernaðar- (af *bellum*); *Germanicus,* germanskur (af *Germania*); *Carthaginiensis,* kartagínskur (af *Carthago*); *puerīlis,* barnlegur, bernskulegur (af *puer*); *divīnus,* guðlegur (af *divus*); *ligitĭmus,* lögmætur (af *lex*); *regius,* konunglegur (af *rex*); *aestīvus,* sumarlegur, sumar- (af *aestas*); *violentus,* ofsalegur (af *vis*); *gloriōsus,* vegsamlegur (af *gloria*); *fraudulentus,* sviksamlegur, prettvís (af *fraus*); *nocturnus,* náttlegur, nætur- (af *nox*); *fraternus,* bróðurlegur, bróður- (af *frater*); *rustĭcus,* sveitalegur, bœndalegur (af *rus*).

278. gr. Sagnorð leiðast, *a,* af nafnorðum, t. d. *floreo,* eg er í blóma (af *flos*); *numĕro,* eg tel (af *numĕrus*); *domĭnor,* eg drottna (af *domĭnus*); — *b,* af lýsingarorðum, t. d. *libĕro,* eg frelsa (af *liber*); *lĕvo,* eg létti (af *lĕvis*); — *c,* af sagnorðum, α, með endingunni *ĭto* (eftir fyrstu beygingu), með aukningar eða endurtekningar merkingu (*signific. intensīva, iteratīva*), t. d. *clamĭto,* eg kalla mikillega; kalla (af *clamo*); *agĭto,* eg rek, hrek (af *ago*); *ventito,* eg legg í vana minn að koma (af *vent,* af *venio*); — β, með endingunni *o* (eftir fyrstu beyg.), mynduð af sagnbótarstofnum, t. d. *jacto,* eg kasta, hristi, skek (af *jact,* af *jacio*); *pulso,* eg lýst, slæ (af *puls,* af *pello*); — γ, með endingunni *sco,* með byrjunarmerkingu (*signific. inchoatīva*), sjá 255. gr., 137. bls.; — δ, með endingunni *ūrio,* er merkir, að einhver vill gjöra eitthvað (*signif. desideratīva*), eða: að komið er að því, að einhver gjörir eitthvað, t. d. *esurio,* (eg vil borða), eg er svangur; *parturio,* komið er að því, að eg fœði.

279. gr. Atviksorð myndast, 1) af nafnorðum; — 2) af lýsingarorðum; — 3) af töluorðum; — 4) af fornöfnum; — 5) af sagnbótastofnum.

*a,* af nafnorðum myndast atviksorð með endingunum *ĭtus* og *tim,* t. d. *fundĭtus,* frá botni, frá grunni; gjörsamlega (af *fundus*); *radicĭtus,* frá rót, frá rótum; gjörsamlega (af *radix*); *catervātim,* í sveitum, í flokkum (af *caterva*); *ostiātim,* dyr frá dyrum, hús frá húsi (af *ostium*).

*b,* ef lýsingarorð hneigjast eftir annari og fyrstu hneigingu, myndast atviksorð oftast af þeim með endingunni ē, sjaldnar með ō, stundum með *ter* og ā, t. d. *modestē,* siðsamlega (af *modestus*); *libere,* frjálslega (af *liber*); *pulchre,* fagurlega (af *pulcher*); *docte,* fróðlega (af *doctus*); *rarō,* sjaldan (af *rarus*); *gnavĭter,* ötullega (af *gnavus*); *firme* og *firmĭter,* sterklega, styrktarlega, fast (af *firmus*); *infrā* fyrir neðan (af *infer*); *suprā,* fyrir ofan (af *super*). Af *bŏnus*

myndast *bĕnĕ*, vel; af *mălus, malĕ*, illa; af *valĭdus*, sterkur, *valĭde*, sterklega, og *valde*, mjög.

*c*, af lýsingarorðum þriðju hneigingar myndast atviksorð með endingunni *ĭter*, t. d. *gravĭter*, þunglega, þungt (af *gravis*); *acrĭter*, snarplega, harðlega, hart (af *acer*); *feliciter*, giftusamlega (af *felix*). Af *audax*, djarfur, myndast *audacter* (og *audacĭter*).

β, ef stofn lýsingarorðs endast á *nt* (eða *rt*), verður viðaukaendingin að eins *er*, t. d. *sapienter* (fyrir *sapientĭter*), spaklega, viturlega (af *sapiens*); *sollerter*, haglega, kunnáttusamlega (af *sollers*).

γ, af *facĭlis* myndast *facĭlĕ*, auðveldlega; af *difficilis*, *difficilĭter* (*Cicero*), *difficulter* (*Caes.* og aðrir), og *difficĭlĕ* (*Vell. Paterc.* og fleiri), torveldlega; af *recens*, nýr, er atviksorð *recens*, nýlega.

*d*, um atviksorð á *ies*, mynduð af höfuðtölum, sjá 134. gr., 50. bls.

*e*, ýms atviksorð, er oftast merkja stað eða tíma, eru leidd af fornöfnum, eða eru samstofna við þau, t. d. α, *i-bi*, þar, á þeim stað; *ibĭdem*, á sama stað; *e-ā*, þar, um þann stað; *eō*, þangað, til þess staðar; *inde*, þaðan, frá þeim stað; *ubi*, þar er, er; *quā*, þar er, er; um þann stað er; *quō*, þangað er, er; *unde*, þaðan er, er. Sbr. vísifornafnið *is* og tilfærslufornafnið *qui* (á 52. og 55. bls.). — β) *hic*, hèr, á þessum stað; *hāc*, hèr, um þenna stað; *huc*, hingað, til þessa staðar; *hinc*, hèðan, frá þessum stað. Sbr. fornafnið *hic*. — γ, *alicubi*, einhvers staðar, á einhverjum stað; *aliquā*, einhvers staðar, um einhvern stað; á einhvern hátt; *aliquō*, eitthvað, til einhvers staðar; *alicunde*, frá einhverjum stað. Sbr. *aliquis*. — δ, *ubi*, hvar, á hverjum stað; *qua*, hvar, um hvern stað; *quo*, hvert, til hvers staðar; *unde*, hvaðan, frá hverjum stað. Sbr. spurnarfornafnið *quis*. — ε, *usquam*, nokkurs staðar; *nusquam*, hvergi; *ubīque*, hvervetna; *unquam*, nokkuru sinni; *nunquam*, aldregi, og fleira þvílíkt.

*f*, af sagnbótastofnum myndast atviksorð á *im*, t. d. *caesim*, með höggi, með höggum (af *caes*, af *caedo*); *punctim*, með sting, með lagi (þ. e. með því að leggja til einhvers, eða leggja einhvern), með lögum (af *punct*, af *pungo*).

### B, Orðmyndan með samsetningu.

280. gr. Fyrri hluti samsetningar getur verið nafnorð, lýsingarorð, töluorð, fornafn, sagnorð, atviksorð, eða forsetning; síðari hlutinn er nafnorð, lýsingarorð, töluorð, fornafn, sagnorð, atviksorð.

*b*, fyrri hlutinn er, α, nafnorð, t. d. *naufragium* (af *navis* og

10*

*frango*); *fratricīda*, bróðurbani (*frater, caedo*); — β, lýsingarorð, t. d. *magnifĭcus*, mikilfenglegur (*magnus, facio*); — γ, töluorð, t. d. *unanĭmus*, einhuga, samhuga (*unus, animus*); *quattuordĕcim*, fjórtán (*quattuor decem*); — δ, fornafn, t. d. *quicunque*, hver er (*qui, cunque*); — ε, sagnorð, t. d. *patefăcio*, eg opna (*pateo, facio*); — ζ, atviksorð, t. d. *maledĭcus*, illmáll (*male, dico*); — η, forsetning, t. d. *interrex*, millikonungur (*inter, rex*).

*c*, í *interrex* er síðari hlutinn nafnorð; í *permagnus* (mjög mikill), lýsingarorð; í *undeviginti* (nítján), töluorð; í *aliquis* (einhver), fornafn; í *impono* (eg legg á), sagnorð; í *perbene* (mjög vel), atviksorð.

281. gr. Af forsetningum þeim, er nefndar eru í 270. gr., eru margar tengdar framan við orð, og breytast þær þá á ýmsan hátt, t. d.

*a*, í samsetningum er, *a*, *ăb* haft fyrir framan *d, l, n, r, s* (*ăb-do, ab-luo, ab-nego, ab-rado, ab-sumo*); — β, *abs* fyrir framan *c* og *t* (*abs-cedo, abs-tineo*); — γ, ā fyrir framan *m* og *v* (*a-moveo, a-vello*); — δ, *au* fyrir framan *f* (*au-fero, au-fugio*; *ab-fui* og *ā-fui*, núliðin tíð af *absum*), og — ε, *as* (fyrir *abs*) í *as-porto*.

*b*, í *ad* tillíkist *d* bókstöfunum *c, f, g, l, n, p, r, s, t* (*ac-cedo, af-fero, ag-gero, al-lino, an-noto, ap-pareo, ar-rogo, as-sumo, at-tingo*); *ac-quiro* af *ad* og *quaero*; — β, ef síðari hluti samsetningar byrjar á *s* með einum eða fleirum samhljóðöndum eftir, er ýmist *d* slept, eða því er haldið (*a-scendo* eða *ad-scendo*; *a-spicio* eða *ad-spicio*; *a-stringo* eða *ad-stringo*). Á undan *m, j* og *v* helzt *ad* óbreytt (*ad-moveo, ad-jicio, ad-veho*).

*c*, í samsetningum er *ex* haft fyrir framan *c, q, p, t* (*ex-cēdo, ex-quīro, ex-pedio, ex-tendo*), en *e* fyrir framan *d, g, l, m, n, r, v* (ē-*do, e-gĕro, e-luo, e-moveo, e-năto, e-rĭgo, e-vĕho*); *ex-sisto* (og *existo*); *ex-specto* (og *ex-pecto*); *ef-fero* (og *ec-fero*).

*d*, *in* verður að *im* fyrir framan *b, m, p*; að *il* fyrir framan *l*, og *ir* fyrir framan *r*; ella er það óbreytt.

*e*, í *ob* til líkist *b* bókstöfunum *c, f, g, p* (*oc-curro, of-fĕro, og-gannio, op-pugno*); *ob-tendo*, eg spenni fyrir, breiði fyrir; *os-tendo* (fyrir *obs-tendo*), (eg spenni í móti); eg sýni.

*f*, í *sub* tillíkist *b* bókstöfunum *c, f, g, p, r* (*suc-curro, suf-fĭcio, sug-gĕro, sup-prĭmo, sur-rĭpio*); *sub-rīdeo* og *sur-rideo*; *sub-mitto* og *sum-mitto*. Í samsetningunum *sus-cĭpio, sus-cĭto, sus-pendo* og *sus-tĭneo*, er haft *sus* fyrir *subs*.

*g*, í nokkurum orðum er ýmist haft *trā*, eða *trans* (eða *tran*):

*tra-do* og *trans-do; tra-duco* og *trans-duco; tra-jicio* og *trans-jicio; tra-no* og *trans-no*; *tran-scribo.*

*h*, ef forsetningin *cum* er höfð að fyrra hlut samsetningar, er hún venjulega rituð *con*, t. d. *con-do, con-trăho.* Fyrir framan *b, m* og *p* er haft *com* (*com-bĭbo, com-mitto, com-prehendo*); fyrir framan *l* er haft *col* (*col-lŏquor*); fyrir framan *r cor* (*cor-rumpo*); fyrir framan raddarstaf eða *h* er haft *co* (*co-eo, co-haereo*).

*i*, ef *pro* er haft að fyrra hlut samsetningar, og raddarstafur fer eftir, er höfð myndin *prod* (*prod-eo, prod-ĭgo*; *prod-es, prod-est*, og fleiri myndir af *pro-sum*). *Porrĭgo* (fyrir *pro-rĭgo*); *polliceor* (fyrir *por-liceor, pro-liceor*).

282. gr. Nokkurar ófrágreinilegar forsetningar (*praepositiōnes inseparabĭles*) eru að eins hafðar sem fyrri hluti orðs. Þessar forsetningar eru:

*a, amb* (*am, an*), um, umhverfis, í kring um (*amb-ĕdo*, eg et utan af; *am-plector*, eg legg hendur um, faðma; *an-quīro*, eg rannsaka; *an-ceps*, tvíhöfðaður; tvífaldur; efasamur; tvísýnn).

*b, dis* og *di*, í sundur; á braut (*dis-trăho*, eg dreg í sundur; *dif-fĕro*, eg ber í sundur; dreg, fresta; er öðruvís, er ólíkur; *di-mitto*, eg sendi á braut).

*c, in*, ó- (*in-credibilis*, ótrúlegur); annað orð en forsetningin *in* á 142. bls.

*d, rĕ* (fyrir framan samhljóðendur, en *rĕd* fyrir framan hljóðstafi), aftur endur (*re-cēdo*, eg hörfa aftur, hverf aftur; *red-eo*, eg kem aftur; *red-ĭmo*, eg leysi út; endurkaupi; endurleysi).

*e, sē* og *sĕd*, frá, úr (*se-cerno*, eg greini frá; *se-lĭgo*, eg vel úr; *sed-itio*, ágreiningur; flokkadráttur; upphlaup).

283. gr. Stundum eru nafnorð og lýsingarorð þannig samsett, að hvortveggi hlutinn hneigist í öllum föllum, t. d. *respublica*, alþjóðlegt málefni; stjórn; ríki, þolfall *rempublicam;* eignarf. *reipublicae*, o. s. frv.; *jusjurandum*, nefnif., ávarpsf. og þolf., eiður; eignarf. *jurisjurandi;* þáguf. *jurijurando*, o. s. frv.; slík orð eru oft rituð í tvennu lagi: *res publica, rem publicam*, o. s. frv.

284. gr. Stundum eru tvö nafnorð sett svo saman, að hið fyrra stendur óbreytt í eignarfalli, en hið síðara hneigist, t. d. *senatusconsultum*, nefnif., ávarpsf. og þolf., ráðsúrskurður, ráðsályktan; eignarf. *senatusconsulti*, o. s. frv.; *agricultūra*, akuryrkja; þolf. *agriculturam*, o. s. frv.; slík orð eru og oft höfð sundurlaus: *agri cultura, agri culturam*, o. s. frv.

# Viðauki.

*a,* við 174. gr. *b,* á 59. til 60. bls. — α, *nihil esse agriculturā melius dico,* eg segi ekkert vera akuryrkju betra, þ. e. eg segi, að ekkert sè betra en akuryrkja; hèr er *nihil* frumlag (subject); — β, *nihil, nisi de morte, cogitare,* að hugsa um ekkert, nema dauðann; *nihil* er hèr andlag (object); — γ, *apparatus ad nihilum recidit,* viðurbúnaður verður að engu *(Cic.* Philipp. 7, 8, 27.); — δ, *ex nihilo oriri,* að verða til af engu (*Cic.*); — ε, *nihili esse,* vera einskis virði; — ζ, *nihilo aestimare,* meta einskis; — η, *nihilo divitior,* engu auðgari; *nihilo secius,* engu síður.

*b,* við 190. gr., á 63. bls. Mönnum er eigi vel kunnugt, hvert er upprunalegt eðli þeirra orðmynda, er venjulega eru kallaðar *gerundiva,* t. d. *curvandus, terrendus,* en vèr köllum ýmist hluttaksorð núlegrar tíðar í þolmynd *(participia praesentis passivi),* eða skyldarorð (*gerundiva*); en það er víst, að orðmyndir þessar eru hafðar með tveimur, eða jafnvel þremur höfuðmerkingum, t. d.

α, í orðasambandinu, *esse in se conservando occupatum* (*Cic.* de Fin. 4, 13, 34), vera að starfi í sèr gætanda, þ. e. starfa að gæzlu sinni, gæta sín, stenzt orðmyndin *conservandus,* að merkingu, á við hluttaksorð núlegrar tíðar í þolmynd (*participium praesentis passivi*) á gríska tungu; *praeesse agro colendo,* vera fyrir landi yrkjanda, þ. e. vera fyrir yrkingu lands (*Cic.* pro Rosc. Amer. 18, 50).

β, í orðasambandinu, *liber scribendus est,* bók er ritandi, þ. e. bók skal rita, stenzt *scribendus,* að merkingu, á við hið gríska skyldarorð (*gerundivum*) γραπτέος.

γ, í orðasambandinu, *corpus alicui sepeliendum tradĕre,* að selja einhverjum greftranda líkam í hendur, þ. e. að selja einhverjum líkam í hendur til greftrunar, stenzt orðmyndin *sepeliendus,* að merkingu, á við hluttaksorð núókominnar tíðar í þolmynd (*participium futuri passivi*) á grísku: ταφησόμενος; þessar orðmyndir merkja í slíku sambandi, að ætlast er til, að eitthvað sè gjört við eitthvað.

---

# Ýms málfræðisorð *(termini grammatici).*

afbrigðilegur, *irregularis* (*anomalus*).
aflagssögn, *verbum deponens.*
afleiðingartenging, *conjunctio consecutiva.*
afturbeygilegur, aftursveigis-, *reflexivus.*
áhrifs-, *transitivus.*
áhrifslaus, *intransitivus.*
ákveðinn, *definitus.*
alfalla, (πάμπτωτος).
alkynja, *omnis generis.*
ályktartenging, *conjunctio conclusiva.*
andlag, viðurlag, *objectum.*
andlagstenging, *conjunctio objectiva.*
atviksorð, *adverbium.*
ávarpsfall, *vocativus* (*casus*).
beyging, sama sem sagnbeyging.
boðháttur, *imperativus* (*modus*).
byrjunarorð, *inchoativum* (*verbum*).
deilitölur, *numeralia distributiva.*
eiginnafn, *nomen proprium.*
eignarfall, *genitivus* (*casus*).
eignarfornafn, *pronomen possessivum.*
einfallaður, *monoptotus*, μονόπτωτος.
einkvæður, *monosyllabus*, μονοσύλλαβος.
einpersónulegur, *unipersonalis.*
eintallegur, *singularis.*
fall, *casus*, πτῶσις.
fallbreyting *declinatio.*
fjórfallaður, *tetraptotus*, τετράπτωτος.
fleirhneigilegur, *abundans declinatione*, ἑτερόκλιτος.
fleirkvæður, *plurisyllabus*, (πλειονοσύλλαβος.
fleirkynja, *abundans genere*, ἑτερογενής.
fornafn, *pronomen.*
forsetning, *praepositio.*
framsöguháttur, *indicativus* (*modus*).
frumlag, *subjectum.*
frumlagstenging, *conjunctio subjectiva.*
frumstig, *positivus* (*gradus*).
fyrirætlanartenging, *conjunctio finalis.*
gagnstöðutenging, *conjunctio adversativa.*
greinir, *articulus.*
greinitenging, *conjunctio disjunctiva.*
hálfgjörvar aflagssagnir, *semideponentia* (*verba*).
hluttaksorð, *participium.*
hneigilegur, *declinabilis.*
hvorugkendur, *neutri generis.*
höfuðtölur, *numeralia cardinalia.*
jafnkvæður, *parisyllabus*, ἰσοσύλλαβος.
jafnsamstafa, sama sem jafnkvæður.
karlkendur, *masculini generis.*
kvennkendur, *feminini generis.*
liðin ókomin tíð, (*tempus*) *futurum exactum.*
lesmál, *prosa* (*oratio*).
lýsingarorð, *adjectivum* (*nomen*).
margföldunartölur, *numeralia multiplicativa.*
meðalorpning, *interjectio.*
miðstig, *comparativus* (*gradus*).
nafnháttar-auki, *gerundium.*
nafnháttur, *infintivus* (*modus*).
nafnorð, *substantivum* (*nomen*).
nefnifall, *nominativus* (*casus*).
núlegur, *praesens.*
núliðin tíð, (*tempus praeteritum*) *perfectum.*
núókomin tíð, (*tempus*) *futurum simplex.*
óákveðinn, *indefinitus.*
óbreytilegur, sama sem óhneigilegur.
ófrágreinilegur, *inseparabilis.*
óhneigilegur, *indeclinabilis.*
ókominn, óorðinn, *futurus.*
orðskipunarfræði, *syntaxis.*
orsakartenging, *conjunctio causalis.*

óskipulegur, *anomalus*, ἀνώμαλος.
persónulaus, *impersonalis*.
raðartölur, *numeralia ordinalia*.
sagnbeyging, *conjugatio*.
sagnbót (rèttara væri sagnauki), *supinum*.
sagnorð, *verbum*.
sambandstenging, *conjunctio copulativa*.
samburðartenging, *conjunctio comparativa*.
sameignarnafn, *nomen commune*, *nomen appellativum*.
samenda, ὁμοιοτέλευτος.
samfœrilegur, *correlativus*.
samfœrsluorð, *correlativa*.
samkynja, *communis generis*; *ejusdem generis*.
samtenging, *conjunctio*.
sèrstœð staðarföll, *ablativi absoluti*.
skildagatenging, *conjunctio condicionalis*.
skyldarorð, *gerundivum*.
smækkunarorð, *deminutivum* (*nomen*).
spurnar-, *interrogativus*.
staðarfall, *ablativus* (*casus*).
stig, *gradus*.
stigbreytilegur, (*comparabilis*).
stigbreyting, *comparatio*.
sögn, sama sem sagnorð.
tíð, *tempus*.
tíðtenging, *conjunctio temporalis*.
tilfœrilegur, *relativus*.
tilfœrslu-, sama sem tilfœrilegur.
tilvísandi, *demonstrativus*.
tvífaldan, *reduplicatio*.
tvífallaður, *diptotus*, δίπτωτος.
tvíhneigilegur, *heteroclitus*, ἑτερόκλιτος.
tvíkvæður, *disyllabus*, δισύλλαβος.
tvíorðaður, *periphrasticus*.
tölulegur, *numeralis*.
yfirstig, *superlativus* (*gradus*).
vanfalla, vanfallaður, *defectivus casibus*.
vanmynda, vanmyndaður, *defectivus*.
verklegur, verknaðar-, *activus*.
viðtengingarháttur, *conjunctivus* (*modus*).
viðurkunnartenging, *conjunctio concessiva*.
viðurlag, sama sem andlag.
vísifornafn, *pronomen demonstrativum*.
vísitala, *numerus demonstrativus*.
þágufall, *dativus* (*casus*).
þáleg tíð, (*tempus praeteritum*) *imperfectum*.
þáliðin skildagatíð, *tempus praeteritum plusquamperfectum condicionale*.
þáliðin tíð, (*tempus praeteritum*) *plusquamperfectum*.
þolfall, *accusativus* (*casus*).
þollegur, *passivus*.
þolmerking, *significatio passiva*.
þolmynd, *forma passiva*.
þolmyndaður, *formae passivae* (eignarfall eintölu).
þolmyndar-, formae passivae, *passivus*.
þoltegund, *genus passivum*.
þrífallaður, *triptotus*, τρίπτωτος.

Sumum algengum málfræðisorðum er hèr slept.

# Leiðrèttingar.

| | | | |
|---|---|---|---|
| VI12 | útenzku | les | útlenzku |
| 40 29 | eintölu | — | fleirtölu |
| 59 26 | *alteruter* | — | *alter uter* |
| 87 26 | þau | — | þær |
| 121 36 | , og panctus), | — | ) og panctum, |
| 131 3 | *partaedet* | — | *pertaedet* |

91 28 eftir orðið þolmyndar bætist við: í framsöguhætti
127 24 eg helga á að vera: (eg helga)

